# Brautin

## Ársrit Hins Sameinaða Kirkjufélags Íslendinga í Norður Ameríku



"En ef við nú reyndum að brjótast það beint,
þó brekkurnar verði þar hærri?
Vort ferðalag gengur svo grátlega seint,
og gaufið og krókana höfum við reynt —
og framtíðar landið er fjærri.

Og meðan hin kolsvörtu miðalda ský,
sem myrkur á heiðunum lágu,
var huggunin einasta hörmunum í,
að hefja sinn anda að landinu því —
þar brostu við tindarnir bláu."



II. ár 1945

Með þökk fyrir ritgerðina og kærri kveðju
G. H. F.

# Brautin

**Rit um andleg mál og skoðanafrelsi**



ANNAR ÁRGANGUR

1945



**Ritstjórnarnefnd:**

Ritstjóri: séra Halldór E. Johnson
Ritstjóri kvennadeildar: Guðrún H. Finnsdóttir
Meðritstjórar: séra Eyjólfur J. Melan
séra Philip M. Pétursson



WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af hinu Sameinaða Kirkjufélagi Íslendinga í Norður Ameríku

# EFNISYFIRLIT



## DEILD KVENNASAMBANDSINS

Brautin

ÁRSRIT HINS SAMEINAÐA KIRKJUFÉLAGS

2. ár Winnipeg, Man., júní 1945 Nr. 1

# Af sjónarhól

Aldrei hafa heimsbúar verið jafn sammála um verkefni sitt sem nú. Þótt þeim greini ennþá á um aðferðir eru svo að segja allir á einu máli, að til heimsfriðar verði að stofna eigi mannkynið að bjargast og byggja skuli til bóta en ekki niðurrífs.

Stefnur og stofnanir mælast því fyrst og fremst eftir því hversu mikið eða lítið þær séu líklegar að leggja að mörkum til þeirrar nýmenningar, sem byggist á friði og réttlæti, sátt og samvinu í mannfélaginu. Samfara þessu ríkir sú hugsun alment að við höfum, að mjög miklu leyti farið villir vegar í framsókninni og að ýmsar af okkar þjóðstofnunum séu úreltar og menningunni til meinbægnis. Annað hvert verði nú þessar stofnanir að gerbreytast eða þessum nátttröllum við lífsins leiðir verði úr vegi rutt í framrás aldanna.

Þessum spádómi er einkum beint að stjórnarháttum, skólum og kirkjunni. Um tvö fyrri atriðin verður hér ekki beinleiðis rætt, en um aðstæður kirkjunnar ættum við að afla okkur hinnar beztu þekkingar, svo ganga kirkjunnar megi verða sem gæfuríkust í framtíðinni.

Hjáróma raddir heyrast þó við og við, sem fullyrða að kirkjunni komi heimslífið ekkert við. Þetta er hugsunarlaust munnflapur aðeins því þetta er ekki sannfæring nokkurs manns, hversu grunnfær sem hann kann annars að vera. Allir telja það sjálfsagt, að kirkjan hafi einhver afskifti af siðferðismálum mannanna og að hún styðji að fegurð og framförum mannlísins. Þeir telja líka — og það alveg réttilega — að tilverurréttur hennar byggist á vilja hennar og getu til að vinna þetta verk. Hin almenna vantrú manna á nauðsyn kirkjunnar, og tómlæti þeirra í því að efla hag hennar, læknast heldur ekki með öðru en því, að kirkjan sýni það í verki, að hún bæði geti og vilji efla frið, réttlæti, sátt og samvinnu meðal mannanna

og meðal þjóðanna. Í einu orði sagt að stofna og starfrækja það guðsríki, sem Kristur boðar.

Við tölum einatt um kirkjuna sem eina heild en þetta er með öllu rangt. Kirkjan greinist í margar deildir og hefir ekkert sameiginlegt stefnumark. Jafnvel innan hinna ýmsa kirkjudeilda eru stefnurnar oftast margar og hjáleitar. Við getum aðeins talað um hlutfallslega frjálslyndar kirkjur. Það kennir íhalds í hinum allra frjálslyndustu þeirra og frjálshyggju í þeim þröngsýnustu. Samt sem áður er hægt að skilgreina þær eftir því hver aðal stefnan er, hvert þar ríkir tiltölulega mikið eða lítið frjálslyndi, réttsýni og framfaralöngun.

Að undanskildum nokkrum ofstækisflokkum er rómverska kaþólska kirkjan efalaust lang miðaldarlegust og afturhaldssömust þeirra á meðal. Rómverska kirkjan hefir tekið litlum breytingum í aðal atriðum síðan á miðöldum. Heimsyfirráð var aðal markmið hennar þá og er það enn í dag. Að þessu takmarki beinir hún í raun og veru öllum kröftum sínum og þeir eru miklir. Hún er fjölmennasta kirkjudeildin, innan kristninnar. Hún hefir yfir miklum auðæfum að ráða og hefir úti allar klær til að næla sér í ennþá meiri. — Hún hefir afar fjölmenna og þaulæfða klerkastétt. Skipulagning hennar er fullkomin og fast mótuð. Leiðsögumenn hennar eru klókir, velmentaðir og veraldar vanir. Þeir kunna manna bezt að haga seglum eftir vindi. Þeir styðja Franco á Spáni meðan honum og Márunum veitir þar betur. Þeir blessa hersveitir Mussolinis, sem leggja frá landi til að skapa Blálendingum aldurtila með eiturgasi. Fyrir þá blessun og dálítin fjárstyrk, til að borga kostnaðinn, komast þeir að þeim samningi við Il Duce, að mótmælendum sé alls ekki leyft að boða sína trú í Blálandi. Þar sem lýðræðisstjórnir sitja að völdum lofa þeir lýðræðið. Þeir fara varlega og nota sér tækifærin eins og til dæmis þegar kreppan hleypti ólgu í stjórnmálin hér vestra og marga tók að þverra traustið á þjóðræðið, fór Faðir Couchlin á stúfana og tók að boða grímuklæddan "fasisma" í Ameríku. Í Mexikó og Suður-Ameríku beita þeir sömu brögðum enn í dag.

Þar sem einvaldar sitja öruggir á stóli takast strax ástir með þeim og kaþólsku klerkunum. Þegar óaldar flokkur stóreignamanna og spánskra "falangera" (þ. e. a. s. fasista) steypa þjóðstjórninni í Argentínu og stofna til einræðis, verður það fyrsta verk þessarar ofbeldis stjórnar að lögbjóða trúarbragða

kenslu í öllum skólum undir umsjá kirkjunnar. Nær það jafnt til allra, svo Gyðingar og mótmælendur eru neyddir til að senda börn sín í skóla þar sem þeim verður kend kaþólska.

Í Mexikó er hin nánasta samvinna milli kaþólsku klerkanna og uppreisnarflokks sem Synarchistar nefnast. Flokkur þessi hefir staðið fyrir alskyns hryðjuverkum. Nú síðast brendu þeir kirkjur og heimili frjálstrúar flokks nokkurs, sem á sér nýlendu í sveit sem La Gloria heitir í Vera Cruz-ríki. Er hroðalegt að lesa um þær misþyrmingar sem þetta friðsæla fólk varð að þola, en blöskrunarlegra samt, að vita að kaþólski klerkurinn Hermelindo Montealegre stóð fyrir árásinni ásamt Uascual Rodrigues borgarstjóra og Batazar Mendoza lögregluforingja. Allir þessir menn tilheyrðu Synarchista flokknum.

Þetta vekur ógeð hjá heilbrigðu fólki en norðar í Quebecfylki kveður klerkurinn Ledit þannig að orði: "Einungis Synarchista stefnan getur bjargað Mexikó frá eyðileggingu því Synarchistar innræta mönnum hlýðni við kirkjuna og ást til heimilanna". Andre Laurendeau, foringi hins nýmyndaða stjórnmálaflokks "Bloc Populaire" harmar það mjög, að fyrir stríðs ástæður, hafi ennþá ekki tekist að stofna til meiri samvinnu milli Quebec-búa og "fasista" flokkanna meðal latneskra þjóða í Ameríku.

Í raun og veru hefir pápiska kirkjan aldrei fallið frá þeirri staðhæfingu að hún sé hinn rétti hluthafi alls valds og yfirráða í heiminum, þar sem hún fer með umboð guðs á jörðinni og þiggur daglega leiðbeiningu frá honum í gegnum prestana. Í "The Catholic Encyclopedia," Vol. XIV, p. 252, stendur þessi klausa: "The Church, because of the uselessness of her insistence, or because of greater evils to be avoided, may waive the exercise of this jurisdiction, but in principle it is hers." Hugsunin er að þótt kirkjan, fyrir sérstakar ástæður kunni að gefa ríkinu vald yfir einstaklingnum þá sé þó alt veraldarvald frá henni þegið og henni einni bera að hlýða.

Hún er altaf að bíða tækifæra, að taka þetta vald beint í sínar hendur og hugsar til heims yfirráða eins og á miðöldunum. Hún styður einvaldana eftir föngum af því hún sjálf er einveldis og einræðisstofnun. Nú sem stendur sér hún tvo möguleika til að koma þessu í framkvæmd: Ef heimsmálin komast á ringulreið; ef atvinnuleysi og örbirgð flýtur í kjölfar þessa ófriðar, eins og svo oft áður í sögu veraldar, getur kaþólska kirkjan enn á ný telft sínum Coughlins og Francos

fram og jafnframt haft taumhald á þessum herrum eins og hún nú hefir á Franco á Spáni; Salazar í Portúgal; Farrel í Argentínu og eins og hún hafði á þeim einvaldsherrunum: Arroyo del Rio í Ecuador og Martinez í El Salvador. Þegar þessir síðast nefndu tóku að heykjast í hásætinu afneitaði kirkjan þeim og reyndi að komast að hagfeldum samningum við uppreisnar foringjana, sem tóku völdin.

Þeir kaþólsku hafa fundið annað tromp í spilunum. Sem auðvalds stofnun á þessi kirkja auðfjár á rentu í ýmsum fyrirtækjum víða um heim. Til eru auðvitað kaþólskir prestar, sem láta sér ant um sín sóknarbörn eins og t. d. franski presturinn sem Pierre van Paasen lýsir svo snildarlega, en kirkjuhöfðingjarnir í Róm reikna inntektir kirkjunnar í rentum og rentu-rentum og á þeim sannast ummæli Krists: "Þar sem yðar fjársjóður er o. s. frv." Þeir bindast því samtökum við fjárplógsmenn og stóriðjuhölda víða um lönd til átaka gegn almenningi. Í félagi við þessa menn leitast þeir við að efla flokk móti öllum hreyfingum og þó einkum gegn kommúnista stefnunni. Inní and-kommúnista sambandið hyggjast þeir að draga flest eða öll auðvaldsríkin með tímanum og gerast sjálfir miðstöð og leiðbeinar í átökum þeirra gegn Rússum. Gæti þá dregið til alheims styrjaldar enn á ný. Menn eiga bágt með að trúa þessu, og þeim er það ekki láandi. Þeir geta ekki trúað því að nokkur maður og allra sízt sá eða þeir, sem hafa guðsnafn sífelt á vörunum, séu svo kaldrifjaðir í raun og veru að stofna til styrjaldar. Hvað þá um Spán? Skirðist kaþólska rómverska kirkjan við að ganga til lags með Franco og hinum múhamisku Márum frá Morocco, er veittu þeim vígsgengi? Ekki létu kardinálarnir sér það blöskra þótt sú uppreisn, gegn löglegri lýðveldisstjórn, kostaði um eða yfir miljón mannslíf.

Vitaskuld eru margir góðir og heiðarlegir menn kaþólskrar trúar, en séu þer rétttrúaðir samkvæmt sínum játningum, ber þeim ekki að bera brigður á boð páfans, eða kirkju höfðinganna, heldur hlýða þeim í fullu trausti að sannleikurinn búi í þeim í fylling andans og að þeir í orðum sínum og æði opinberi guðs vilja í einu og öllu. Engir menn eru þaulæfðari í því að hylja markmið sitt undir helgihjúpi en kaþólsku prelátarnir. Alt "guðsþjónustu" form þeirra er þaulhugsað og miðar að því að leiða hugann frá heimslífinu inn í draumværa hugsjóna dáleiðslu um dýrðina hinumegin. Samvizkunni er svefnþorn stungið, þar sem syndirnar afplánast með skrifta-

gerðum og lausnargjaldi. Sjálfstæði hugsananna sljófgast, þar sem kirkjan tekur á sig alla ábyrgðina. Að hér sé sízt farið með staðlausa stafi er auðgert að sanna með því að tilfæra nokkra staði úr þeirra eigin trúfræða bókum. "Er leyfilegt að fara með fals og lýgi? Já, þegar menn eru spurðir óskammfeilna spurninga" (þ. e. a. s. óskammfeilna að dómi kirkjunnar). Þetta stendur skýrum stöfum á 163 síðu í "The National Catholic Almanac, 1943. Þetta er svo enn betur útskýrt í bókinni "Faith and Morals" bls. 137". Þar er rætt um skírlífis brot, af því hún hafði skrifað það fyrir kirkjuvaldinu og þegið ásakar hana um þetta afbrot neitar hún því, alveg réttilega, samkvæmt kaþólskunni, enda þótt hún hefði drýgt slíkt afbrot, af því hún hafði skriftað það fyrir kirkjvaldinu og þegið aflausn kirkjunnar. Glæpurinn var þar af leiðandi afmáður í hennar eigin vitund og henni bar engin nauðsyn til að standa eiginmanninum reikningsskap þeirra gerða framar.

Stöku sinnum kemur það fyrir, að málsvarar kaþólsku kirkjunnar hvetja menn beinleiðis til að óhlýðnast landslögunum, eins og til dæmis Paul L. Blakely þegar hann segir: "Við eigum ekki að greiða skatta alþýðuskólunum til viðhalds. . . . Fyrsta skylda kaþólskra foreldra er að halda börnum sínum frá þeim. Samt sem áður gengur 50% af kaþólskum börnum á þessa guðlausu skóla."

Hvergi er alþýðu fræðslan lélegri en í þeim löndum, sem hafa trúað kaþólsku kirkjunni fyrir uppfræðslunni, svo sem í Portúgal, Spáni og Suður-Ameríku ríkjunum. Þar sem skólaskylda er lögleidd, í mótmælenda löndum, stofnar kaþólska kirkjan sína eigin skóla, þar sem mikil áherzla er lögð á að innræta nemendunum hlýðni við kirkjuna.

Svefnþungur værðar drungi er nú að leggjast yfir heiminn, og menn eru farnir að telja sér trú um einu megi gilda hverju menn trúi eða hvaða kirkju sé trúað fyrir uppfræðslu unglinga. Það, sem þar sé kent, sé annað hvort alt jafn gott eða þá jafn vitlaust eftir því sem menn telja sig trúaða eða vantrúaða. Samt er nú því þannig farið að þegar ríkisvaldið gerir beinleinis tilraun til að uppræta kirkjuna verður það að gefast upp í tilrauninni af því fólkið vill ekki án hennar vera.

**Grísk kaþólska kirkjan á Rússlandi**

Ríkiskirkjan gamla á Rússlandi hét nú í raun og veru "Hin rétttrúaða kaþólska kirkja" og þótti afar ströng og hindurvitnakend. J. F. Hecker, sem mikið hefir gefið sig við þjóð-

fræðilegum vísindum segir um gömlu keisara kirkjuna á Rússlandi: "Keisarinn var höfuð þessarar kirkju sem nokkurs konar páfi. Hann hafði sér við hönd æsta og ofstækisfulla klerka, eins og til dæmis Síberíu munkinn Rasputin. Sveitarprestarnir voru ákaflega óupplýstir. Í klaustrunum, sem höfðu ríflegar inntektir, voru alskyns svik og kraftaverka blekkingar iðkaðar til að halda fólkinu við trúna."

Kirkjan barðist grimmilega gegn kommúnista byltingunni og Metropolitan Tikhon, höfuð klerkur, hét þeim eilífri glötun er á einhvern hátt veittu "hinum djöfullegu kommúnistum hið minsta lið." Byltingarmennirnir svöruðu í sömu mynd og þröngvaði kostum kirkjunnar á ýmsu lund en sá hluti fólksins, sem hataði prestana rændi þá og myrti. Nú hefir þessum deilum slotað og þótt stjórnin væri andstæð kirkjuvaldinu og takmarkaði að ýmsu leyti sjálfstæði kirkjunnar leyfði hún samt altaf trúuðu fólki að koma saman til guðrækis iðkana. Kirkjurnar voru aldrei eyðilagðar né notaðar til annars, nema þar sem fólkið afþakkaði þær með almennri atkvæðagreiðslu. Ríkið og kirkjan voru algerlega aðskilin og fólkið þurfti sjálft að standa straum af öllu kirkjuhaldi með frjálsum samtökum að því undanskildu að þeir fengu að nota kirkjurnar fyrir mjög lítið afgjald, sem gekk til þess að viðhalda þeim. Utan heimilis var ekki leyft að kenna unglingum, innan 18 ára aldurs, trúarbrögð, þó þau mættu að vísu fara í kirkju með foreldrum sínum. Öll trúarbragða kensla var stranglega bönnuð í skólunum. Samt fann Major A. S. Cooper, brezkur herforingi, á ferð sinni um Rússland, árið 1939: níu rétttrúnaðar kirkjur (grísk kaþólskar), fimm gyðingakirkjur, eina lúterska og eina rómsversk kaþólska, í fullri starfrækslu, í borginni Kiev (Kænugarði) einni saman. Við síðasta manntal í Rússlandi, einnig árið 1939, kom það í ljós að ⅓ fólksins í borgunum og ⅔ af sevitarbúum töldu sig tilheyra einhverjum trúflokki. Að því er viðkemur sveitarfólki er þetta talsvert hærri tala en í Bandaríkjunum, en aftur á móti teljast tiltölulega fleiri borgarbúar hér vestra meðlimir einhverra trúflokka.

Um langt skeið var guðleysingja félag all öflugt í Rússlandi og rak sitt afkristnunar starf með miklum áhuga. Nú hefir það verið leyst upp og stranglega bannað að fara niðrandi orðum, í ræðu eða riti, um trúarskoðanir annara. Allir eru frjálsir að trúa hverju sem þeir vilja, eða þá engu, en þeim er

alls ekki leyft að trufla aðra í trúar iðkunum þeirra. Biskup nokkur frá Ástralíu, á ferð um Rússland, segir frá því að hann hafi eitt sinn séð gamlan mann í Moscow krjúpa í bæn út á gangstéttinni, en nokkrir unglingur þyrptust þar saman og gerðu hróp að honum. Lögreglumaður kemur á vettvangin og rak strákana á burtu en hélt vörð um öldunginn unz hann hafði lokið bænagerðinni. Samt segir þessi sami biskup að hann hafi ekki orðið var við mikinn áhuga fyrir trúarbrögðum hjá þjóðinni, eða að minsta kosti ekki meðal unga fólksins. Hugur fólksins hneigist nú mjög að vísindum og hagnýtum efnum. Samt verður ekki annað ráðið af hinum eldri bókmentum þeirra— og þeim yngri jafnvel líka — en að þjóðin sé dulræn og hugsjónarík. Kemur það máske hvergi betur í ljós en í tónlist hennar.

Þótt í rússneska hernum séu engir herprestar hafa margir klerkar gengið í herinn og getið sér góðan orðstýr sem sjálfboðar í skæruflokkunum. Hafa þeir í engu reynst öðrum síðri til landvarnar og starfa á margan hátt með stjórn og þjóð. Hafa þeir enda verið útnefndir í ýmsar trúnaðarstöður. Til dæmis hafa æðstu menn kirkjunnar verið útnefndir í þær nefndir er skulu rannsaka hermdarverk Þjóðverja á saklausu og friðsömu fólki, bæði í Ráðstjórnarríkjunum og á Póllandi. Vilji menn fræðast um þetta frekar ættu þeir að lesa: "The Truth About Religion in Russia", eftir Sergius yfirbiskup; "Where the Nazis Left Their Mark", eftir Metripolitan Nikolai; og "People, Church and State in Modern Russia", eftir Paul B. Anderson o. s. frv.

Mér virðist hr. Anderson gefa sérstaklega óhlutdræga og fræðimannlega lýsing á ástandinu eins og það var og eins og það er. Hann gerir hvorki of mikið eða of lítið úr mótspyrnunni gegn kirkjunni, á byltingar tímabilinu. Hann dregur heldur engan dul á andstæðurnar milli kirkjunnar, sem byggir kenningar sínar á eldfornum erfikenningum; og kommúnismans, sem byggir alla sína trú á raunvísindum. Þar sem ríkið og stjórnin hefir mentun ungdómsins í sínum höndum sitja vísindin auðvitað í fyrirrúmi og kirkjan verður að laga sig eftir staðreyndunum. Hún verður að vinna í samræmi við megin stefnu jafnaðarmenskunnar og virða allar vísindalegar niðurstöður. Um langt skeið var kirkjunni meinað að prenta biblíur eða önnur trúrit og hún mátti heldur ekki hafa sérskóla til guðfræðisnáms. Nú eru allar þessar tálmanir teknar

úr vegi og verður fróðlegt að sjá hversu greiðlega henni gengur að nota sér þessi réttindi. Að hún hefir nú þegar tekið miklum stakkaskiftum viðurkenna allir, kanske við sjáum þarna upprísa alveg nýja, vísindalega, jafnaðarmanna kirkju — hver veit? Sumir fullyrða að hástig menningarinnar sé raunhæf kristileg jafnaðarmenska.

**Biskupa kirkjan á Englandi**

Hún á sér einkennilegan uppruna. Þegar Hinrik konungur VIII sat á veldisstóli Englands bar svo við, að hann tók að líta konu nokkra girndar augum enda þótt hann væri sjálfur harðgiftur annari. Til þess að lyfta Önnu Boleyn upp í hásætið þurfti hann að fá páfaleyfi til að skilja við drotningu sína Katrínu frá Aragon á Spáni. Hinn heilagi faðir þorði engan vegin að veita skilnaðinn þar sem Katrín af Aragon var náskyld konunginum á Spáni. Út af þessu dró til sundurþykkis með Hinrik konungi og páfanum í Róm og sú varð afleiðingin, að England gekk algerlega undan páfastóli en konungur landsins var gerður að nokkurs konar páfa í ríki sínu. Kirkjan breyttist furðu lítið við þetta og var lengi vel hálf kaþólsk. Hún hefir löngum þótt fastheldin á forna siði og afturhaldssöm í meira lagi. Auðug var hún og átti inneignir stórar í fasteignum, stálgerðar verksmiðjum, vopnasmiðjum og enda ölgerðar húsum. Orð lék á að hún hlynti fremur að sérréttindum en heill almennings.

Í seinni tíð hefir orðið undraverð breyting á stefnu þessarar kirkju. Hún er ein af þeim örfáu kirkjudeildum, sem hafði þor og einlægni til að endurskoða og breyta sínum játningum og helgisiða reglum. Myndu þær breytingar hafa orðið ennþá róttækari og frjálslegri ef prestarnir hefðu einir um þær ráðið, en þar sem hér er um ríkiskirkju að ræða kom það undir þingið en þar gátu þröngsýnir og afturhaldssamir menn dregið úr þeim, og sniðið þær sér meir að skapi.

Í mannfélagsmálum hefir þessi kirkja líka tekið miklum sinnaskiftum. Í júlí mánuði árið 1941 var mikið kirkjuþing háð í Malvern-skólanum á Englandi. Voru þar saman komnir 23 biskupar, 14 stiftprófastar, 125 aðrir klerkar ásamt 70 leiðandi kirkjumönnum úr leikmanna stétt. Þeir komu þarna saman til að ræða um ásigkomulag mannfélagsins og afstöðu kirkjunnar. Þar voru merkilegar samþyktir gerðar er hafa

vakið feikna eftirtekt um víða veröld. Þess var fyrst og fremst krafist að fjármála fyrirkomulaginu yrði þannig breytt að afrekstur iðjunnar gengi til þess að bæta úr nauðþurftum allra og að engin skyldi þurfa að líða skort einungis fyrir atvinnuskort þegar menn væru annars fúsir til að iðja. Því var haldið fram að þarfir fólksins en ekki ágóða vonir einstaklinganna ættu að vera takmark framleiðslunnar. Þarfir einstaklingsins til lífsviðurværis og þroska ætti að vera mælikvarði og augnamið allra framfara en alls ekki auðsafn einstöku manna eða stétta.

Viðbótar ályktun Sir Richards Acklands, sem gekk enda ennþá lengra, var samþykt með miklum meirihluta atkvæða. Hún tók það fram:

"1. að kirkunni beri að benda á þær aðstæður í félags og fjármálum þjóðarinnar, sem helzt standa í vegi til þroskun þess guðsríkis, sem Kristur boðar.

2. að meðan auðsafn er aðal takmark einstaklinganna verði auðurinn metinn sem hin æðstu gæði og að þeir sem mestum auði safna sér til handa, verði ætíð álitnir sjálfsagðir leiðtogar annara með arftæk yfirráð yfir atvinnulífi og hagsmunakjörum þegnanna,

3. að slíkt viðhorf standi einna mest í vegi þess, að menn geti álitið sig samvirka bræður í víngarði drottins og hamli þar með þroska guðsríkis hugmyndarinnar meðal mannanna.

4. að kirkjunni beri að vinna að því að betra og kristilegra skipulag komist á mannfélagsmálin, svo manninum veitist auðveldara að rækta sjálfan sig til þegnskapar í friðarríki kærleikans m. ö. o. í guðsríki."

Meðal hinna stærri kirkjudeilda, hefir ensku Biskupakirkjunni heima fyrir græðst einna beztur skilningur á nútíðar verkefn sínu, en þetta nær, enn sem komið er, ekki til þessarar kirkjudeildar í Ameríku, nema þá að mjög litlu leyti. Einhverjum kann að koma þetta einkennilega fyrir sjónir og veitast erfitt að trúa því. Þetta kann að koma í bága við hugmyndir þeirra um hina íhaldssömu Englands kirkju. Mér koma hleypidómar eins og annars ekki vitund við. Eg hef ásett mér að herma rétt frá staðreyndum eftir ítrustu getu hvert sem um er að ræða Rússland, England, Ísland eða Ameríku. Eg meira að segja hata alla hleypidóma og tel þá

olla andlegri sljófgun og þeirri sálarlegu starblindu, sem þjáir mannfólkið flestu fremur nú á dögum.

Hvaða þátt þessi sinnaskifti ensku kirkjunnar hafa átt í þeirri öryggis löggjöf, sem Bretar eru nú að smíða alþýðunni til heilla, skal ekki um dæmt en sjálfsagt ýtir afstaða hennar undir löggjafana á framsóknar brautinni, enda er það blessaður barnaskapur að halda að kirkjan geti ekki haft áhrif á löggjöfina. Hún gerir það í öllum löndum annað hvort til böls eða bóta, framsóknar eða afturhalds.

**Lúterska kirkjan í ýmsum löndum**

Að ytra formi hefir lúterskan lítið breyst síðan á miðöldum. Játningar hennar haldast óbreyttar að mestu þótt sumar deildir þessarar kirkju hafi felt nokkrar þeirra úr gildi eða gert yfirlýsingar er takmarka nokkuð þýðingu þeirra. Algert kennngarfelsi veit eg ekki til að nokkur lútersk kirkja hafi gefið prestum sínum nema ríkiskirkjan á Íslandi, síðan presta eiðurinn var afnuminn árið 1910.

Um langt skeið ríkti hið argvítugasta trúar afturhald í Norðurlöndum og þó sérstaklega í Noregi. Komust flestir bókmenta og hugsjóna menn landsins í kast við klerkana og þó einkum þeir Björnson og Ibsen. Nú er þessu aflétt að mestu enda hafa nokkrir norskir klerkar gert uppreisn gegn nýguðfræðinni, sem kend er við háskólann í Oslo og stofnað sinn eigin skóla, hina svonefndu safnaðar skóla. Prestarnir norsku hafa getið sér heimsfrægð fyrir mótspyrnu sína gegn yfirgangi nazistanna í Noregi. Í engu hernumdu landi hefir kirkjan verið eins ákveðin í því að afneita Hitler og heiðindómi Rosenbergs, sem í Noregi. Sátu yfir hundrað klerkar í fangelsi þegar síðast fréttist en nokkrir höfðu verið drepnir. Má búast við að þessi framkoma þeirra auki gengi kirkjunnar þar í landi, þegar ófriðnum léttir.

Víst myndi Magnús sál. Eiríksson kunna betur við sig í Danmörku nú en á sínum hérvistar dögum enda frjálstrúar boðskap hans meira sint. John Gunther, fréttaritari lét svo ummælt að eftir að ferðast um Evrópu, fyrir stríðið, væri það sálræn heilsubót að bregða sér til Danmerkur eða Svíþjóðar því þar byggju þjóðir, sem hlustuðu á rödd skynseminnar sér til velfarnaðar. Þetta átti engu síður við kirkjuna en aðrar þjóðstofnanir, enda átti kirkjan í Danmörku — sjálfsagt í Svíþjóð líka — drjúgan þátt í þeirri viðreisn sem gerðist í

þjóðlífi Dana eftir landrán Prússa árið 1866, sem sundurlimaði Danaríki og eftirskildi þjóðina í örbirgð og ráðaleysi þar til lýðskólarnir og samvinnu stefnan bjargaði henni úr volæðinu og gerði Danmörku að fyrirmyndar þjóðríki þar sem almenn hagsæld og nýmenning ríkti. Ef kirkjan eignast þvílíkan kirkjuhöfðingja sem gamla Grundtvig og eins hugheila presta stétt, sem þá er bar hugsjónafána kristindómsins fyrir þjóðinni á sjöunda tug nítjándu aldarinnar, er þjóðkirkjunni, í þessu þrautreynda menningarlandi borgið. Hinn vinsæli prestur Kaj Munk, sem þýzkir nazistar myrtu, er nú þegar orðin að píslarvættis dýrðlingi Dana.

Þegar danska kirkjan fór að sveigjast til meira frjálslyndis tóku nokkrir "rétttrúaðar" sálir sig út úr og stofnuðu þann félagsskap er kennir sig við innri trúboð. Hugðust þeir sér að færa kirkjulýðinn danska aftur til bókstafs og játningar trúar upp á góða og gamla lútersku.

Sýndi þetta fólk mikinn áhuga í starfinu en olli samt litlum breytingum á stefnu kirkjunnar.

Næst þjóðkirkjunni íslenzku er lúterskan í Svíþjóð frjálslyndust en ekki virðast Svíar kirkjuræknir fremur en Íslendingar. Yfirvöld svensku kirkjunnar tóku sig til og töldu alla kirkjugesti einn sunnudag og reyndust þeir innan við 5% af allri þjóðinni. Bersýnilega þarf frjálslynda kirkjan um heim allan að beita sér fyrir einhverju ákveðnu hugsjóna takmarki til að laða fólkið til samlags við sig.

Um lúterskuna í Finnlandi veit eg lítið. Finnland hefir verið, og er enn, hið mesta óhappa land. Það kvaldist í mörg ár undir keisarastjórninni rússnesku en steypti sér strax, að fengnu frelsi út í mannskæða borgarastyrjöld. Sú styrjöld endaði með gífurlegum múgmorðum, svo hlutfallslega drápu hvítliðarnir undir forystu Mannerheims fleiri verkamenn þar en fórnað var í nokkru öðru landi í þeim byltingum, sem gengu yfir Evrópu löndin eftir heimsstríðið síðasta. (Samkvæmt Encyclopedia Britannica, sem þykir hið öruggasta heimildar rit). Í þessari styrjöld hafa Finnar átt tvisvar í ófriði við Rússa og beðið ósigur í hvortveggja skiftið. Ekki þarf kirkjuna þar að skorta verkefni.

Lúterskan á uppruna sinn að rekja til Þýzkalands og enn þann dag í dag er meirihluti fólksins í Norður-Þýzkalandi lúterskt talið. Samt er það nú farið að verða nokkuð blendið í

trúnni. Nýguðfræðin svokallaða átti sína sterkustu formælendur við Tubigen-háskólann í Þýzkalandi og kendi þar þeirrar gagnrýni og vísindamensku, sem um skeið var höfuðprýði hinnar þýzku þjóðar. Fjöldi presta og mentamanna aðhyltist þessa stefnu svo um gamal-lútersku var naumast að ræða í hinu upphaflega ættlandi hennar framar.

Hreintrúaðir nazistar eru heldur ekki lúterskir og ekki einu sinni kristnir. Þeir opinberlega afneita henni sem gyðinglegri villutrú og boða nýja heiðni, bygða að nokkru leyti á forn-norrænni ásatrú. Ludendorff herforingi var meðal fyrstu boðberum þessarar ný-heiðni en eftir hann verða þeir Carl Rosenberg og Baldur Schirach, æskulýðs leiðtogi helztu postular hennar.

Nokkrir prestar svo sem Muller biskup og allmargir guðfræða kennarar hafa snúist til þessarar heiðni og fordæma kristindóminn hiklaust sem spillandi og gyðinglega þrælatrú. Hitler er þeim alt sem Kristur er kristnum mönnum, nema hvað þeir hafa ekki haldið því ennþá fram, að hann væri eingetinn. Börnin eru skírð samkvæmt heiðinglegum formúlum til hans nafns. Hjón eru gift á sama hátt og andaðir grafsungnir. Hermennirnir deyja með Hitlers nafn á vörunum. Til dæmis þegar orustudrekanum Bismarck var sökt kvöddu sjóliðarnir lífið með því að hrópa nafn Hitlers.

Hitler er eini einvaldurinn í Evr.pu, sem pafinn í Róm hefir ekki getað komist að hagfeldum samningum við. Það er samt ekki páfanum að kenna því hann hefir reynt sitt bezta að semja við Hitler, en hvorki Hitler sjálfur eða hans áhangendur geta viðurkent annan páfa en der Feuhrer. (Skrifað áður en Hitler dó, ef hann er dauður?)

Hvað mikill hluti þýzku þjóðarinnar hefir tekið þessa trú veit víst enginn, en þeir sem á móti mæla eru settir í fangelsi, svo sem Martin Niemoeller, en aðrir svo sem Weilser frá Dahlem drepnir. Grunur margra er að fjöldi presta, bæði kaþólskir og mótmælendatrúar, gisti fangabúðir nazistanna. Um stefnu kirkjunnar á Þýzkalandi, að stríðslokum, skal hér engu spáð.

Lúterskan í Ameríku hefir slitið sig algerlega úr tengslum við samnnefnda kirkju í Evrópu. Yfir höfuð að tala hefir hún verið þröngsýn og afturhaldssöm. Þó út yfir taki með Missouri-synoduna þýzku og Norsku-synoduna, sem er henni

áhangandi. Ekki einungis Missouri-kirkjufélagið heldur einnig öll lúterska kirkjan í Ameríku heldur fast við sína fornu guðfræði, en hún byggist á þremur höfuð greinum:

1. að allir menn séu glötunarinnar börn og eðlilega illir fyrir yfirsjón Adam og Evu í Paradís.
2. að frelsun frá þessari erfðasynd fáist aðeins með blóðfórn Krists á krossinum;
3. að þeir einir geti eignast þessa friðþægingu, sem hafa rétta trú samkvæmt játningum lúterskar kirkju.

Geta má þess samt að þessum kenningum er nú lítt á lofti haldið í prédikunum af hinum frjálsyndari prestum lútersku kirkjunnar.

Bókstafs innblæstri biblíunnar er auðvitað haldið stranglega fram af þeirra kirkjuhöfðingjum og þeir hafa verið mjög andvígir vísindunum. Til dæmis var um langt skeið — er kannske enn — blað útgefið af "réttrúuðum" lúterskum prestum, sem "Fundamentalist" nefndist og fordæmdi hann flestar vísinda niðurstöður en þó einkum framþróunar kenninguna, enda var það að vonum því hún kollvarpar með öllu erfðasyndar kenningunni sem byggist á því að maðurinn hafi í fyrstunni verið fullkominn en með syndafallinu hafi hann glatað guðseðli sínu, og hafi, með því að óhlýðnast guði, gengið í bandalag við Satan, sem gistir helvíti fyrir að gera uppreisn í himnaríki.

Þótt lúterska kirkjan sé ein hin fjölmennasta kirkjudeild í Ameríku hefir hún undarlega lítil afskifti af þjóðmálum og er það í samræmi við guðfræði hennar, því lúterskur rétttrúnaður lítur á heiminn sem óumbætanlegan og mennina, í hérvistinni, náttúrlega illa að eðli og uppruna. Hlutverk kirkjunnar er því einungis að bjarga þeim sem bjargað verður frá vansælunni hinu megin.

Ef lúterskan tæki breytingum til bóta, og sveigðist meir til skynsamlegra skoðana á tilverunni og verkefni sínu, gæti hún lagt mikið að mörkum til þroskunar guðskristinnar í Ameríku. Það er mikið af trúaralvöru í þeirri kirkjudeild, og æsingarlausum kristindóms áhuga. Þetta kemur bezt og fagurlegast fram í sálmasöng, því engin kirkja hefir auðgað kristnina meira af fögrum, tilbeiðslu þrungnum og listrænum kirkju söngvum.

Í öllum öðrum deildum mótmælenda kirkjunnar í Ame-

ríku kennir meira og minna frjálslyndis og fer það trúar víðsýni vaxandi með árunum. Sumar kirkjudeildirnar, svo sem Unitarar, Congregationalistar, Universalistar og Prebyteríans eru afar frjálslyndar, fræðilegar og víðsýnar. Aðrar svo sem Meþódistar hneigjast meir og meir að félagslegum málum fremur en einstaklingslegri sálfrelsun.

Þótt amerískur almenningur eigi nú betri völ á mentuðum og rökhyggnum kennimönnum, en nokkru sinni áður, virðist kirkjan hér, sem annarstaðar, vera á afturfarar skeiði og almenningur sinna lítt hennar málefnum.

Orsakanna er ekki langt að að leita: almenningur trúir því ekki að kirkjan geti veitt þeim mikla aðstoð eða leiðbeiningu í lausn aðkallandi vandamála; hún sé gamaldags og þekkingarsljó á orsakir og eðli verðandi viðburða, af því hún lesi sín fræði í fornum skræðum en sé lítt skygn á sannindin í breytiþróun mannlífsins.

Hvað er nú satt í þessu? Fyrst og fremst ber að viðurkenna, að prestar eru yfirleitt betur mentaðir en nokkru sinni áðurf. Sökum þeirrar mentunar hafa þeir losnað við ýmsar rótgrónar hégiljur og heimsku venju. Fyrir betri mentun og vaxandi víðsýni hefir þeim tekist að slökkva í helvíti, kveða niður djöfulinn og firra guð því ámæli að hann hafi ritað alla ritninguna. Þetta var hið mesta stórvirki á sinni tíð. Það breytti allri afstöðu kirkjunnar. Jörðin er nú ekki framar skoðuð sem afrétti andskotans og íbúar hennar ekki herfangar Satans. Veröld vor skoðast nú gróðurreitur guðs og okkur jarðverjum ber sonarleg skylda til að rækta þann reit og betra vort mannlíf, til æðri fullkomnunar.

Til þess að þroska eitthvað og rækta þurfum við fyrst og fremst að þekkja það sem rækta skal og í öðru lagi gróðurmoldina, sem gefur því næringu, viðgang og vaxtar skilyrði. Með öðrum orðum, til þess að rækta mannlífið verður kirkjan að afla sér þekkingar á manninum og heiminum. Hefir kirkjan upp á þessa þekkingu að bjóða? Um það verður rætt í öðrum stað í þessu riti.

---

# Ásatrú

Á unglingsaldrinum heyrði eg oft um Ásatrú talað sem hina verstu villu, Óðinn og andskotinn voru eitt og hið sama en Æsum líkt við illvætti. Öll ólútersk trúarbrögð voru þá alment álitin hin versta djöfliska og vélasnörur Satans mannskepnunni til glötunar. Um fermingaraldur las eg fyrirlestur séra Jónasar á Hrafnagili 'Um guðlegan innblástur' og varð var við þann þyt, sem hann vakti. Það þótti all djarft af prestinum að halda því fram, að öll trúarbrögð séu að einhverju leyti guðinnblásin og í þeim öllum sé þess vegna eitthvað satt, gott og göfugt.

Hvað þá um uppruna Ásatrúar og þroska, kosti hennar og sannindi?

**Uppruni**

Fyrir henni gerir Snorri svofelda grein í Gylfagynning: "Þat hugsuðu (menn) ok undruðust hví þat mundi gegna, er jörðin ok dýrin höfðu saman eðli í sumum hlutum, og þó ólík at hætti. Þat var eitt eðli at jörðin var grafin í hám fjallatindum, ok spratt þar upp vatn, ok þurfti þar ekki lengra að grafa til vatns en í djúpum dölum; svá er ok dýr og fuglar, at jafnt er til blóðs í höfði ok fótum. Önnur náttúr er sú jarðar, at á hverju ári vex á jörðunni gras ok blóm, ok á sama ári fellr þat ok fölnar; svá ok dýr ok fuglar, at á þeim vex hár ok fjaðrir, og fellr á hverju ári. Þat er hin þriðja náttúra jarðar, þá er hún er opnuð ok grafin, þá grær gras á þeirri mold, er efst er á jörðunni. Björg og steina þýddu þeir á móti tönnum ok beinum kvekinda. Af þessu skildu þeir svá, at jörðin væri kvik ok hefði líf með nokkrum hætti, ok vissu þeir at hon var furðuliga gömul at aldartali ok máttig í eðli. Hon fæddi öll kvekindi, og hon eignaðist alt, þat er dó; fyrir þá sök gáfu þeir henni nafn, ok töldu ætt sína til hennar. . . . Þat sama spurðu þeir af gömlum frændum sínum, at síðan er talin váru mörg hundruð vetra, var gangr himintungla ójafn, áttu sum lengri en sum. Af þvílíkum hlutum grunaði þá, at nokkr mundi vera stjórnari himintunglanna, sá er stilla mundi gang þeirra,

at vilja síns sjálfs, ok mundi sá vera ríkr og máttugr; ok þess væntu þeir, ef hann réð fyrir höfuðskepnunum, at hann mundi ok fyrir verið hafa en himintunglin, og þat sá þeir, ef hann réð gangi himintungla, at hann mundi ráða skini sólar ok dögg himins ok ávexti jarðarinnar. . . . Þat vissu þeir eigi, hvar ríki hans var, en því trúðu þeir, at hann réði öllum hlutum á jörðu ok í lofti, himins ok himintunglanna, sjóvar ok veðranna."

Hér er Ásatrúnni ágætlega lýst, sem hreinni og ómengaðri skynsemistrú. Hér glampar á hið rökvísa mannvit í hverju orði og hverri setningu. Fyrst er hið hjástæða og alþekta athugað og útfrá þeirri þekkingu ályktanir gerðar um hið óþekta og fjarlæga. Jörðin, sem framleiðir lífið og heimtar það aftur er eðlilega álitin kvik, þ. e. lífi gædd. Náttúrulögmálið verður að eiga sér löggjafa máttugan alheims alvald. Þetta er miklu fremur heimspeki en trú.

En áður lengra sé haldið er bezt að gera sér grein fyrir fleiru. Utan um kjarna þessarar trúar, sem annara trúarbragða, er ofinn undra vefur skáldskapar. Mig minnir að Renan, heimspekingurinn franski, nefni trúarbrögðin óð andans (Poesé de amé). Skáldhneigðin naut sín óhindruð í heimi goðsagnanna, meðan ennþá var engin trúfræði til, engar kerfisbundnar kirkjujátningar, engin yfirvaldsleg prestastétt, sem ákvað hverju bæri að trúa og hverju að hafna. Hin öldnu skáld gátu látið andann sveima óhindraðan um ótakmarkaða hugar heima. Þá voru engin raunvísindi til að setja þeim skorður, engin fastmótuð heimspekis kerfi til að hneppa hugsun þeirra í hugkvíar; ekkert nema óþekkjanleg algeims viðerni. Þessvegna gátu þeir bygt himin og heima, fjöll og eyðimerkur alskyns undra verum og yfirnáttúrlegum goðvættum. Þessvegna gátu þeir skáldað æfintýrasagnir, margar og ósamstæðar, um goð sín og kynjaverur. Þetta kemur fyrir í flestum eða öllum forn-trúarbrögðum og þessvegna finnast margar og miklar mótsagnir bæði í Eddu og í biblíunni.

Hér er nú samt bezt að fara gætilega. Algerður heilaspuni er þessi skáldskapur samt sjaldnast. Norðurlönd voru engan vegin einangruð í fyrndinni, en þó svo fjarlæg að íbúar þeirra höfðu aðeins óljósar sagnir frá fjölda þjóða og landa. Á ferðum sínum höfðu þeir fregnir af kynlegum dýrum og annarlegum þjóðum. Þær sagnir voru ýktar og aflagaðar á ýmsa vegu. Við höfum álík dæmi úr sögnum annara þjóða. Nægir hér að benda á Herodus hinn gríska, sem oft er nefndur

faðir sagnfræðinnar. Hann þótti fremur ýkinn og öfgakendur en í raun og veru gerði hann ekki nema safna sögum eins og hann hafði heyrt þær af annara vörum. Við getum nú hugsað okkur hvaða svipmynd víkingarnir hafa eignast, eftir þvílíkum sögnum, af nashyrningum og strútsfuglum, fílum og flóðhestum. Svo jók þeirra eigin skáldskaparhneigð við, þangað til hin óþektu viðerni fyltust ferlegum gömmum og fljúgandi drekum. Sama er að segja um mannfólkið. Þeir höfðu kviksagnir af smávöxnum dvergum í myrkviði Suðurálfunnar og stóvöxnu fólki, t. d. meðal háfjalla þjóða í Kákasus. Úr þessu urðu svo dvergar í hólum og jötnar í jötunheimum. Sumar af þessum undraverum urðu að guðum með tímanum, því það var minni skilgreiningur þá en síðar milli guðs og manns; stórmennin urðu stundum að guðum og guðirnir voru, í raun og veru, yfirmannlegir höfðingjar (obermanchlicke herrenvolk).

**Æsir eða guðir**

Frum-eiginleiki allra guða er aflið, ofurmannleg orka, sem ollir flóði og fjöru, úthafsstraumum og bylgjuföllum, stormum og steypiregni, landskjálftum og eldgosum, þrumum og eldingum. Orkuguðinn Þór er því, að líkindum, frumguð feðranna. Hann er altaf tryltur og yfirmannlegur, síreiður og í orustu móði. Hann hemja engin lög, siðvitund né dómgreind. Hann er persónugerfingur hins blinda, óstöðvandi afls, sem birtist í þrumum og eldingum, sem guðlegt reiðiteikn. Um uppruna hans eru ýmsar sagnir. Snorri telur hann forföður Óðins í formálanum. Í Gylfagynning er hann talinn sonur Alföðurs að faðerni en jarðarinnar að móðerni. Í honum sameinast megin lofts og láðs. Þar sér norrænt hyggjuvit íbúða og uppruna allrar orku; í samruna hins óræða og eilífa og hins jarðlega og stundlega. Hér svipar norrænni hyggju mjög til forn-grískrar heimspeki. Víkingsandinn er máske ekki jafn háfleygur en hann er nærgætinn og gjörhugull.

Vitur þjóð gerir sig ekki lengi ánægða með heimskan guð, með vaxandi vitþróunum tóku þeir að tilbiðja fleira en orkuna eina og þá kom Óðinn til sögunnar, sem guð óðs og vizku. Óðinn er altaf mannlegur í goðsögnunum, aðeins þeim vitrari. Vizkan er honum samt ekki meðfædd heldur aðfengin og dýru verði keypt. Hann lætur annað augað, hálfa sjón sína

á daglega hluti, til að öðlast margvísi og spádóms gáfu. Hann hangir særður í trénu níu daga og níu nætur til að eignast það innsýni, sem öðlast með þjáningunum.

Það er lang sennilegast, að Óðinn hafi verið austrænn herkonungur kanske sunnan úr Kákasus eða austan úr Rússlandi. (Reyndar telur Snorri hann komin frá Tyrklandi þ. e. a. s. frá einhverjum af lendum hins forna Tyrkjaveldis og það getur verið bókstaflega satt). Það var altítt í fornöld að hefja konunga og þjóðhetjur í guða tölu. Rómversku keisararnir voru dýrkaðir, sem guðir. Alexander mikli fékk sig helgaðann, sem himinborinn. Konungar Incanna, Mango Capac, voru tignaðir sem guðir. Japanar tilbiðja Mikadóinn sem hinn sanna son himinsins. Margir nazistar skoða Hitler, sem yfirmannlega veru. Hvað þá eðlilegra en Víkingarnir tækju að tilbiðja hinn sigursæla forn-konung sinn. Snorri gerir mjög skarplega hugsaða ágiskun í Heimskringlu um hvernig Óðins dýrkunin var upp tekin. Hún er á þessa leið:

"Óðinn var hermaður mikill ok mjök víðförull, ok eignaðist mörg ríki. Hann var svá sigrsæll, at í hverri orrustu fékk hann gagn, ok svá kom, at menn hans trúðu því, at hann ætti heimilan sigr í hverri orrustu. Þat var háttr hans, ef hann sendi menn sína til orrustu eða aðrar sendifarar, at hann lagði áðr hendr í höfuð þeim ok gaf þeim bjannak. (Þetta orð kemur ekki annarstaðar fyrir í fornum norrænum ritum en mun komið af írska orðinu bannacht, sem er samstofna við latneska orðið benidicto, þ. e. blessun). Trúðu þeir, at þá myndi vel farnask. Svá var ok um hans menn, hvar sem þeir urðu í nauðum staddir á sjó eða á landi, þá kölluðu þeir á nafn hans, ok þótti jafnan fá af því fró. Þar þóttusk þeir eiga alt traust, er hann var."

(Nú er það alls ekki víst, að átt sé við eina persónu með Óðins nafninu heldur við ættlegg hans, þá herkonunga af Óðins ætt, sem leiddu sinn lýð sunnan frá Svartahafi til Norðurlanda).

Þótt Óðinn sé vitur, er hann samt sem áður hálfgerður gallagripur. Hann er brögðóttur og slægvitur. — Viti hans og framsýni eru takmörk sett. Hann er altaf mannlegur einnig í brestum sínum og yfirsjónum. Hann brestur hina háleitari siðvitund og verður því ekki Ásatrúarmönnum til mikils traust þegar þeir sjálfir taka að siðast. Þeir finna til þarfarinnar á hinum góða og réttláta guði og þessvegna verður Baldur til.

Sjálfsagt er Baldur yngstur allra norrænna guða. Um upphaf hans eru ýmsar getur leiddar. Finnur Jónsson álítur hann Krists mynd Norðurlanda og að hugmyndin hafi verið að láni tekin frá kristnum þjóðum. Aftur á móti heldur Sigurður Nordal hann alnorrænan að uppruna. Hér virðist mér sá mæti maður gefa helzt til lítin gaum að reynslu sögunnar. Í fjölgyðistrú er það altítt að guðirnir séu frá öðrum þjóðum teknir. Grikkir fengu þá frá Egyptum en höfðu vit á því að skilja þá herfilegustu eftir svo sem nautið Apis og rakkann Anibus. Rómverjar tilbáðu alla hina grísku guði og höfðu það til, að fá enn fleiri guði frá öðrum enda er beinleiðis fyrir því gert í grundvallarlögum þeirra. Þar stendur þessi klausa: "Separatim nemo habessit deos neve advenas nisi publice adsictor". (Án lagalegs leyfis skal enginn dýrka erlenda guði). Það kom ósjaldan fyrir að slíkt leyfi væri veitt og erlendir guðir lögleiddir. Jafnvel Gyðingar dýrkuðu stundum aðra guði ásamt Jehova. Bæði Jeremía og Jesaja minnast á, að þeir hafi tilbeðið Melkom hinn sýrlenzka og frá því skýra þeir bæði Amos og Jeremía, að í eyðimörkinni hafi Gyðingar tilbeðið hina egypsku guði: Molok, Kium og Remphan. Svipað gerist á Íslandi þar sem Helgi magri tilbiður bæði Krist og Þór. Jafnvel sjálfur trúboðinn, Þangbrandur, dregur það sízt í efa að Þór sé til. Hann hittir fyrir sér Rósu móður Skálda-Refs og tekur hún að boða honum heiðni af miklum móði. Þá segir Þangbrandur: "Heyrt hef eg að Þór væri ekki nema mold ok aska ef guð vildi eigi at hann lifði." Rósa efast ekki um tilveru Krists en stríðir Þangbrandi á því að Þór hafi brotið skip hans við fjörur en Kristur ekki megnað, að hlífa honum frá grandi. (Þorr brá þvinnils dýri o. s. frv.). Það er bæði auðvelt og eðlilegt fyrir fjölgyðistrúar menn að bæta nýjum goðum í guðatölu eftir því sem sjóndeildarhringur þeirra stækkar og siðvitund þeirra fullkomnast.

Nú var því einmitt svo farið, að Norðurlandabúar kyntust kristninni, hvað helzt í höfuðbóli hinnar þáverandi kirkjumenningar, í Miklagarði. Skáldskapur, skraut og listir þessarar kirkjulegu heimsborgar hlutu að grípa þá föstum tökum og því eðlilegt að þeir bæri sagnir af Kristi, höfuðguði borgarbúa til Norðurlanda. Ýmislegt í Gylfaginning bendir á kristinn uppruna. Þegar Gangleri kemur til Ásgarðs sitja þrír konungar þar í hásætum. Nöfnin segja til ætternis: Drottinn = Hár; Kristur = Jafnhár; Heilagurandi = Þriðji, en Heil-

agurandi er einmitt oft nefndur þriðja persóna guðdómsins, í kristnum fræðum. Einnig þykir mér líklegast, að sögnin um Óðinn hangandi í trénu sé af kristnum uppruna og runnin frá krossfestingar sögu guðspjallanna. Það er líka merkilegt að fornmenn fundu strax skyldleikann milli Krists og Baldurs. Baldur þýðir hinn bjarti og víkingarnir tala um hinn hvíta Krist.

Þótt Baldur sé máske erlendur að uppruna, er hann samt tekin í guða tölu með Æsum sökum síðþroskans hjá feðrum vorum, sem hinn siðferðislega góði guð. Hann er hafinn upp í hásal Ása af því menn eru nú ekki framar ánægðir með að tilbiðja aðeins hið vitra og öfluga heldur tigna þeir líka hið góða og göfuga. Þótt Baldur sé komin að sunnan verður hann strax norrænn og við hann tengist hin varfærna rökhyggja víkingsins. Honum fylja þau álög að dómar hans mega ekki haldast, réttlætið fær ekki að njóta sín í þeirri veröld, sem varir. Höður vegur hann í blindni sinni eins og réttlætinu er helþorn stungið í heimi vanhyggjunnar. Baldur er veginn ungur svo hann megi ungur aftur upprísa í tilkomandi heimi betra lífs. Við Baldur eru tengdar björtustu vonir og beztu hugsjónir hins norræna frumkyns, þessvegna er hann guð, sem ekki fær notið sín í heimi óréttlætis og styrjalda. Hann er guð ódauðleikans, hinna ódauðlegu æsku, hinna óslökkvandi hugsjóna. Honum geta hinir þreyttu, vonsviknu og friðelskandi fært bænir sínar.

**Goðheimur Æsa**

Fyrir utan Óðinn, Þór og Baldur tilbáðu norrænir menn ótal goð og gyðjur. Þótt Óðinn væri talinn höfðingi þeirra hafði hver og einn sínum sérstöku skyldum að gegna svo sem ráðherrar í ráðuneytum nútíðar. Meðal þeirra var enginn einvaldur. Þegar vanda bar að höndum:

"Þá gengu regin öll
á rökstóla
ginnheilög goð;
ok gættusk of þat
hvart skyldu æsir
afráð gjalda,
eða skyldi goð öll
gildi eiga."

Í goðheimi Æsa ríkti óskorað lýðræði. Gagnvart höfðingja sínum Óðni voru goðin sjálfstæð og þreyttu enda við hann kappræðu ef því var að skifta. Þarna ber ekkert á þeim undirlægjuhætti, sem annars einkennir flest Austurlanda trúarbrögð. Mennirnir voru líka sjálfstæðir gagnvart goðunum og lögðu óhikað mat á framferði þeirra, eins og til dæmis í kvæðunum Lokasennu og Völuspá. Goðin voru verndarar mannanna, leiðbeinendur og félagar en aldrei einvalds drotnar þeirra. Þarna kemur fram hin rótgróna lýðræðis og sjálfstæðis hyggja víkinganna, þar sem hin austrænu trúarbrögð draga dám af hirðlífi og hirðsiðum einvaldanna, sem heimta undirgefni og þrælslega tilbeiðslu. Þegar Egill Skallagrímsson missir tvo sonu sína, annan í sjóinn en hinn á sóttarsæng, yrkir hann "Sona torrek", sem byrajr á því, að deila á goðin, sem áskapa sonum hans svo ótímabæran og óhermannlegan dauðdaga. Jafn djarfmannleg ádeila finst trauðla nema í Jobsbók enda svipar þessum stórkostlegu skáldverkum mjög saman. Höfundarnir glíma báðir við guði sína eða guðstrú og koma báðir heilli trúmenn frá prófrauninni.

**Blótsiðir og helgihöld**

Það er hinn mesti skaði hversu fornsögurnar eru fáorðar um helgisiði í heiðni. Að vísu geta þær oft um blótin, en fullkomna lýsingu á þeim er þó hvergi að finna. Nærri má geta, að jafn raunspakir menn hafi hlotið að leggja dýpri þýðingu í helgihöldin en um er getið. Áður reynt sé að ráða nokkuð af líkunum, mun samt bezt að greina frá því, sem maður gerzt veit. Ásatrúarmenn dýrkuðu goðin með fórnum, sem aðrar fornþjóðir. Eins og hjá öðrum voru þetta blóðfórnir. Mannfórnir munu hafa verið sjaldgæfar en samt er að þeim vikið bæði í Landnámu og í Eirbyggju, og ekki verður framhjá því gengið, sem stendur í Melabók hinni yngri. Þar segir svo:

"Dómhringur var á þingstaðnum, er þeir menn váru skipaðir, er þat straff höfðu, at þeir váru dæmdir til blóts. Á Þórsnesþingi stendur steinninn eftir sem þeir væru brotnir við, ok sér enn blóðlitinn á steininum." Má helst af þessu ráða, að glæpamenn haf stundum verið dæmdir til blóts.

Um blótin höfum við annars, eins og oftast, skýrastar skýrslur frá Snorra. Í Heimskringlu lýsir hann þeim þannig:

"Þat var forn siðr, þá er blót skylda vera, at allir bændr skyldu þar koma, sem hof var, ok flytja þangað föng sín, þau

er þeir skyldu hafa, meðan veizlan stóð. At veizlu þeirri skyldu allir menn öl eiga; þar var drepinn alskonar smali ok svá hross, en blóðið alt er þar kom af, þá var þat kallað hlaut, ok hlautbollar þat, er blóð þat stóð í, og hlautteinar, þat var svo gert sem stökklar, með því skyldi rjóða stallinn (Goðastallinn) öll saman ok svá veggi hofsins utan ok innan, ok svá á mennina, en slátr skyldi sjóða til mannfagnaðar. Eldar skyldu vera á miðju gólfi í hofinu, ok þar katlar yfir, skyldi full um eld bera. En sá er gerði verzluna ok höfðingi var, þá skyldi hann signa fullit ok allan blótmatinn. Skyldi fyrst Óðins full drekka til sigurs ok ríki konungi sínum (eða höfðingja), en síðan Njarðar-full ok Freys-full til árs ok friðar. Þá var mörgum títt at drekka þar næst Bragar--full. Menn drukku ok full frænda sinna, þeirra er göfgir höfðu verit, ok váru það minni kölluð."

Hvaða merkingu lögðu fornþjóðirnar annars í fórnfæringar? Almenn skoðun fræðimanna er, að þetta hafi verið friðþægingargjald, sem átti að bæta fyrir afbrot manna. Þannig er um fórnirnar í Gyðingamusterinu fyrrum. Lambinu var slátrað Jehóva til friðþægingar en geitin var rjóðuð blóði og henni slept í eyðimörkina svo fjandinn mætti fá sitt, sem syndagjald.

Dýpra en þetta virðist mér samt þurfa að leita, til fyllri skilnings á fórnunum. Ásatrúarmenn trúðu ekki á syndina í sama skilningi og Gyðingar enda voru goð þeirra ekki alfullkomin og þess vegna ekki þvílíkt djúp staðfest milli þeirra og mannanna. Þeir trúðu aftur á móti á síunga en þó mannlega guði. Hvað þá eðlilegra en að hugsa sér þá þurfandi fyrir fæðu sér til uppyngingar, einhverskonar bætilyf æsku sinni og orku til viðhalds. Blóðið, sjálfur lífsvökvinn var þeim þvílíkur heilsudrykkur.

Mér þykir annars undarlegt að fræðimenn hafa svo lítið rætt um menningargildi og félagsþýðingu hofblótanna. Að blótunum skemtu menn sér við kvæðalestur, hetjusagnir, heitstrengingar, íþróttir og ölteiti. Þetta voru almennar héraðssamkomur helgaðar fróðleik, friði og félagslegum gleðskap. Þær hlutu að hafa haft mikla þýðingu í því að tendra og glæða nábúa kendir og styrkja vinskap og bræðralag.

Það var trú feðranna, að þarna væru ekki einungis sveitungarnir saman komnir heldur og að goðin væru þar einnig að ósýnilegum návistum. Ekki ólíklegt að fornmenn hafi

stundum haft völvur við hofblótin til að fá opinberanir um óorðna hulti, annaðhvert frá guðunum eða hjá framliðnum, sem myndu einnig heimsækja þá við hofveizlurnar, þar sem minni þeirra voru drukkin. Þettta var háttur Grikkja sem leituðu véfrétta við hofin. Um seiðimenn og völvur er stundum getið í fornum sögnum. Í sögu Eiríks rauða er all nákvæm lýsing af slíkum athöfnum. Þá var hallæri mikið í Grænlandi og vildu menn vita hvenær aflétti. Var Þorbjörg spákona tilkvödd og efldi hún seið mikinn. Ekki vildi Þorbjörn Vífilsson vera að seiðnum og flýði hús þar sem hann var maður kristinn. Guðríður dóttir hans var treg til að þylja kvæðið "Varðlokk" eða eiga nokkurn þátt í þessum heiðindómi. Lang líklegast að ógeð þeirra hafi stafað af því að athöfnin minti á heiðna blótsiði.

Vér vitum annars að völvur voru mikilsvirtar í heiðnum sið. Kemur mér nú til hugar að hofgyðjurnar hafi stundum verið spákonur eða völvur. Um hofgyðjur er stundum talað: í Landnámu er minst á þuríði gyðju; í Vopnfirðingasögu er líka minst á hofgyðju, og í Biskupasögunum er talað um Friðgerði er blótaði í hofinu meðan Þorvaldur kristniboði söng messu. Eitt er víst að blótin voru Ásatrúar-mönnum nokkurskonar sakramenti, þar sem guðir og menn áttu sérstakt samneyti.

**Örlög manna annars heims**

Fornmenn voru fulltrúa á annað líf. Svo sem önnur trúarbrögð var það skoðun þeirra, að eilíf mótsetning eigi sér stað milli ills og góðs. Þeir trúðu því, að afkoma manna hinu megin færi algerlega eftir breytni þeirra en ekki trú í hérvistinni. Engin erfðasynd eða goðagremi kemur hér til greina heldur ákvarðast örlög manna annars heims af hegðun þeirra þessa heims.

Tvær eru vistarverur í dánarheimum. Góðir drengir og hraustir eiga vist með goðum og nefnast Einehrjar. Það er háttur Einherja, að berjast um daga en þeir sem í val falla rísa upp að kveldi ag eiga veizlu með Óðinn alt þar til vígljóst verður hinn næsta dag. Í fljótu bragði virðist það all einkennilegt að hinir endurleystu skuli hafa einna mest yndi af þessum Valhallar vígum en annað og meira býr hér undir. Þeir eru að æfa sig til lokasennunnar við Ragnarök. Það var skylda þeirra að veita Æsum lið og ganga með þeim til orustu við öll illvætti. Hér liggur fögur og háleit siðvitund til grundvallar um skyldur

mannanna, að bjarga heiminum frá valdi vonskunnar en veita hinu göfuga vígsgengi. Hjástætt hlutleysi gat alls ekki komið til greina. Hver maður hefir sitt ætlunarverk og sína skyldu og engin maður getur átt vist með goðum nema hann berjist með þeim til heimsbetrunar. Með engu móti getur einstaklingurinn sannað rétt sinn til Valhallarvistar, fremur en að lifa sem drengur og falla sem hetja. Það er ekki rétt sem sumir hafa haldið fram, að víkingarnir hafi sóst eftir dauðanum í orustu. Þvert á móti myndi þeir telja þvílíkt heigulskap hinn mesta. Þeir vörðust út í opinn dauðann; en að bjarga lífi sínu með flótta eða undandrætti var þó hetjunni enn síður sæmandi. Ekkert var sneypulegra en lífsflóttinn hvert sem hann var undan skyldunni, örlögunum eða dauðanum. Sá sem féll eins og hetja lifði annars heims til að heyja annað stríð fyrir góðan málstað, hinum, sem hörfuðu undan í baráttunni, var ekki til þess treystandi. Menn helguðu sig goðunum í orustunni, í dauðanum að sínu leyti eins og meinlætamenn miðaldanna helguðu sig Kristi í þjáningunum. Þeir sem ekki skilja þetta hafa í raun og veru lítið inngrip í hegðun víkingsins eða meinlæta mannsins.

Aðeins góðir menn og velvaskir gengu á goðaþing, hinir fóru til helvítis. Annars eru goðsagnirnar ekki fjölorðar um þessa vítisveru. Völuspá lýsir henni þannig:

Sal sá hon standa
Náströndum á
norðr horfðu dyrr;
féllu eitrdropar
inn of ljóra,
sa's undinn salr
orma hryggjum.
Sá hon þar vaða
þunga strauma
menn meinsvara
ok morðvarga,
ok þanns er annars glepr
eyrarrúnu.

Hér er ekki með einu orði vikið að trúleysi eða óhlýðni manna við goðin, heldur hefir maðurinn ábakað sér hegninguna með framferði sínu; með því að fremja launvíg, með því

að sverja ranga eiða eða spilla heimilisfriði og sambúð hjóna. Þetta eru alt glæpir gegn mannfélaginu. Athuga ber líka í hverju hegningin liggur. Úr höggorms ginum drjúpa eitur elfur og þær elfur verða þeir að vaða. Hefir ekki rógtungunni tíðum verið líkt við höggorms tönnina, sem eitrar alt. Þeir verða að vaða þá strauma sem þeir sjálfir eiga upptökin að. Annars gista víst fáir þennan kvalastað og aðeins hinir útvöldu hljóta himnavist. Flestir deyja inn í hauga, holt og hæðir eða jökulinn eins og Bárður Snæfellsás. Andi hinna önduðu eru alt í kringum mennina og hefir sú draugatrú orðið langlíf á Norðurlöndum.

**Sköpunarsagan í norrænum goðsögnum**

Flest forn trúarbrögð eiga sér fleiri en eina sköpunarsögu og svo er því farið með Ásatrú. Völuspá byrjar með því að lýsa óskapnaðinum í aldeyðu efnisins.

"......
vara sandr né sær
né svalar unnir,
jörð fansk æfa
né upphiminn;
gap var Ginnunga
en gras hvergi."

Sjálfri sköpuninni lýsir Gylfaginning þannig: "En Ginnungagap var svá hlætt, sem loft vindlaust, ok þá er mættust hrimin ok blær hitans, svá at bráðnaði ok draup, ok af þeim kvikudropum kviknaði með krafti þess, er til sendi hitann, ok varð manna líkandi, ok var sé nefndur Ymir"... Frá Ymir eru allir jötnar komnir, en hann var tvíkynja svo einn fótur gat afkvæmi við öðrum, svo sem segir í Völuspá hinni skömmu.

"Or Elivogum
stukku eitrdropar
og óx uns or varð jötunn.
Þar eru órar ættir
komnar allar saman:
því er þat alt til atalt.
Eru völur allar
frá Víðólfi,

vitkar allir
frá Vilmeiði
en seiðberendur
frá Svarthöfða,
allir jötnar
frá Ymi komnir."

Þegar sólvindar bræddu norðurhjarann skapaðist einnig kýrin Auðhumla er nærði Ymir og alt jarðlífið. En er Auðhumla sleikti hrimsteina sér til fæðu komu fram úr berginu mannslíkan og nefndist sá Buri. Hann átti sér þann son er Borr hét. Sá gat syni þrjá við Beslu dóttur Borþórs jötuns, hétu þeir Óðinn, Víli og Vé. Þeir Bors synir dápu Ymir og sköpuðu heiminn úr hræinu; af blóði hans sæinn og vötnin. Jörðin var gjör úr holdi hans, en björg af beinum, grjót og urðir úr tönnum og jöxlum ásamt þeim beinabrotum er eftir urðu. Lýsir Völuspá þessu jarðarsmíði þannig:

"Áðr Bors synir
bjóðum of yptu,
þann er Miðgarð (jörðina)
mæran skópu;
sól skein sunnan
á salar steina, (salta steina, fjörutgrjót)
þá var grund gróin
grænum lauki."

Hér rís jörð úr ægi en nú er eftir að skapa manninn því óviðeigandi þótti að rekja ættir til Ymis, sem spratt úr eiturkviku en er sjálfur argur. Sköpun mannsins gerist með þessum hætti. Bors synir finna á sjávarströnd tvö mannslíkan rekin og er því þannig lýst í fornu snildar kvæði:

Fundu á landi
**lítt megandi**
Ask ok Emblu
örlagalausa;
orð þau né áttu,
óð þau né höfði
lá (blóð=líf) né læti
né litu góða,

önd gaf Óðinn
óð gaf Hænir
lá gaf Lóðurr
ok litu góða.

Einhverjum kann nú að finnast þessi sköpunarsaga næsta barnaleg eða jafnvel helber vitleysa, en það er heimska að hugsa þannig. Öll trúarbrögð eru í raun og veru tilraun manna til að gera sér rökrétta grein fyrir tilverunni frá þá tíðar sjónarmiði, og það er þroskaðasta mannvit þeirra tíða, sem stýrir rökleiðslunni, enda kennir þar skarplegra ályktana. Að því er viðkemur þessari norrænu sköpunarsögu ber þess að gæta að hún sýnir, í skýrum dráttum, hið undursamlega samband gjörhyglinnar og skáldskaparins, sem nýtur sín máske hvergi betur í forn norrænum bókmentum. Við skulum fordómslaust reyna að greina sannleikann innan við umbúðir skáldskaparins hjá feðrunum.

Þeir höfðu tekið eftir viðbrigðum náttúrunnar þegar sunnanvindar strjúka náklæði ísa og mjalla af Norðurlöndum, þegar sóldagarnir taka að lengjast að vorlaginu. Alt lifnar og grær í árdagsskini undursamlegrar nýsköpunar; grængresið sprettur upp úr fannbreðanum; skógarnir anda frá sér ilmbylgjum en loftið ómar af hressandi, vekjandi farfugla söngvum, þannig hefir frumsköpunin orðið þegar ísa leysir og Svásuður fer sunnan. Frerinn og funinn eru skapamættir alls sem er. Frerinn gerir frumdrættina, þeir höfðu séð fegurð vetrar í ísaborgum, frostrósum og krystalskornum hvítra fanna. Funinn gæddi þessa fegurð lífi og litum svo frostrósir vetrarins verða að litfögrum lífrósum í miðnæturskini. Ioniski spekingurinn Anaxagorus, sem bar fram frumeinda kenninguna, fyrir 2400 árum síðan, og lærisveinn hans Anaximenis hugsa sér einnig mótsetningarnar; hita og kulda, sem frumorsök allrar sköpunar.

Þá er hugmyndin um Auðhumlu ekki síður skarpviturleg og bygð á staðreynslu. Nærist ekki alt ungviði spendýrakynsins á móðurmjólkinni? Ef við breyttum þessu ofurlítið, og segðum að frumlífið hefði tekið sína næringu frá móðurbrjóstum náttúrunnar, myndum við óðara kannast við það sem skáldleg sannindi. Nú táknar einmitt Auðhumla náttúruna enda hafa kýrnar löngum verið okkar kyni uppsprettur heilsulífs og næringar.

Mannvitið speglar sig ekki síður í sköpunarsögunni um frum-foreldrin. Maðurinn er bæði andlegur og efnislegur, jarðlægur en samt frá öðrum heimi, mannlegur en samt gæddur guðsanda. Hið líkamlega kemur frá hinu mikla djúpi, finst rekið sem líkan, andlaust og orkuvana á sjávarströnd. Guðirnir gefa því líf, orku og anda. Hvar er að finna skynsamlegri sköpunarsögu? Hið mikla skáld og vitringur, Einar Benidiktsson endur segir hana í þessum innblásnu ljóðlínum:

"Því ljósvakans máttuga móðurlind
og moldarnáttúran dauð og blind
tengjast í okkar ytri mynd,
en eru af tveimur heimum."

Yfirborðs þekking mín á fornum fræðum, bæði kristnum og heiðnum, sannfærir mig um þau sannindi að maðurinn sé meiri en hann sýnist, að hálf blundandi eðlishvatir og aðstreymandi vitorka bendi honum oft á hin dýpstu sannindi, "að heilinn greini skemmra en nemur taugin." Svo verður það er Anaxagorus og Democritus skynja af sjálfum sér, eða fyrir yfirjarðlæga aðstoð, sannindi efnisheimsins fyrir ótal öldum síðan og grískir vitringar fá hugboð um hringrás jarðar umhverfis sólina og framþróun tegundanna. (Þetta er megin stoðin í mínum trúarbrögðum en þið getið gert úr því hvað sem ykkur sýnist). Einhver opinberandi sannleikskend bendi líka okkar feðrum á ýmislegt sem nú eru skoðuð raunvísindi. Þeir telja alt líf úr hafi komið. Það er nú líka skoðun nútíðar vísindanna, að frá djúpunum hafi það uppstigið. Þeir telja Ymir tvíkynja. Vísindin álíta að alt frumlíf sé líka tvíkynja og æxlist af sjálfu sér. Sköpunarsaga Ásatrúar-manna geymir bæði ytri fegurð og innri sannindi.

Eitthvert hugboð höfðu fornmenn Norðurlanda um framþróun líka. Það sýnir Rigsþula. Rigur þ. e. a. s. konungur getur börn við þremur konum. Sú elzta hét Edda (langamma) út af henni eru þrælar komnir. Sú næsta hét Amma og út af henni eru höldar komnir, þ. e. a. s. bændur og aðrir frelsingjar. Sú yngsta hét Móður og af henni eru höfðingjar komnir. Einn þeirra var öðrum ágætari og er hann talinn forfaðir allra konunga en sá einn er talinn verður konungsdóms er af öðrum ber, ekki einungis að hreysti og hermensku heldur einnig að viti og drengskap.

**Örlaga trú**

Þú segist ekki á forlög trúa, eignar fávizku feðranna þessa trú. Þú þykist þinnar eigin gæfusmiður. Samt muntu trúa að afleiðingar komi af orsökum. Látum okkur nú sjá, hvaða vald þú hefir yfir þeim orsökum sem mestum afleiðingum valda í þínu eigin lífi. "Engin gera að því kann út af hverjum fæðist hann". Þar af leiðandi getur þú litlu ráðið um áskapað innræti þitt og upplag. Jú, en þú þykist þess bær að temja tilhneigingar þínar — en bíddu nú bara við. Þú ræður litlu um uppeldið, meðan lífið er að þjálfa þig fyrir framtíðina. Þú hefir ekkert að segja um heimilisbragin í foreldra ranni. Þú ert ekki að því skurður hvar vagga þín stendur. Þess vegna færðu því ekki ráðið hvaða þjóðmenning þú hlýtur í tannfé. Förum lengra og skygnumst nær. Nokkrir víkingar tóku sér bústað á Íslandi en fæstum var það með öllu sjálfrátt heldur stuðluðu að því margháttaðar kringumstæður, sem spruttu, að nokkru leyti af óræðum rökum. Nokkrir af afkomendum þeirra héldu til Ameríku, til að forða börnum sínum frá volæði sem þá ríkti á Íslandi en það volæði átti rætur að rekja til löngu liðinna atburða. Samt hefðu þeir aldrei til Vesturheims vikið ef Columbus hefði ekki verið búinn að finna Ameríku. Columbusi var það samt ekki sjálfrátt að finna álfuna, hann rakst á hana þegar hann var að leita styztu sjóleiðar til Indlands.

Ef til vill hefir honum skilist það örlög sín og svo myndi hann hafa hugsað hefði hann verið Ásatrúar. Þeir könnuðust við dutlunga skapanornanna þessir hraustu sæfarar, sem straumar og stormar báru svo oft af leiðum. Þeir voru jafnvel ennþá meira háðir tilviljunum en vér. En þeir vissu, af hugviti sínu, að þetta voru engar tilviljanir í raun og veru, að tilfelli dagsins voru afleiðingar fyrntra atburða og örlagaþráðurinn í þeirra eigin æfivef af dauðs manns höndum spunnin.

"Já, þetta er nú alt ósköp eðlilegt," segjum vér, það á sínar eðlilegu orsakir í viðburðakeðju endalausra afleiðinga. Að fullyrða að eitthvað sé eðlilegt verkar oft sem deyfilyf á hugsun vora svo við gefum því svo ekki meiri gaum. Vitum ekki hversvegna það er eðlilegt. Satt bezt að segja erum við, þrátt fyrir okkar skólamentun — kanske vegna hennar — langtum grunnfærari í hugsun en fornmennirnir. "Við erum "skólaskemdir" eins og Stephan G. kemst að orði.

Það lá í eðli Ásatrúar-manna, að gefa hinum huldu orsakaöflum persónuleika og heiti. Örlaganornin hétu: Urður, þ. e.

fortíðin; Verðandi, þ. e. nútíðin og Skuld, þ. e. a. s. framtíðin. Það sem gerist í verðanda dagsins er ávöxtur þess sem hefir gerst meðan Urður ríkti. Með sama hætti grundvallast gæfa og ólán framtíðar á því sem nú er að gerast meðan Verðandi ræður ríkjum. Þegar lífsstefnurnar eru teknar, fjötrar hvert fótmál okkur æfastar við horfið og þær stefnur verða sjónarmið æskunnar sem menn geta trauðla slitið sig frá nema með einhverskonar uppreisn.

Ekkert hefir staðið okkur meir í vegi til skilnings á gerðum og lífsstefnum feðranna en vanskilningur vor á trú þeirra, einkum örlagatrúnni. (Mig undrar mjög að sjá annan eins vitmann og Helga Péturs halda því fram að siðareglur fornmanna hafi verið óháðar trú þeirra, þar sem hið gagnstæða er satt að siðkendir þeirra eru í hinu allra nánasta sambandi við Ásatrúna).

Því er þannig farið með þessi trúarbrögð sem fleiri, að í fljótu bragði virðist bera á nokkrum andstæðum, enda var það víkinga háttur að þræða tæpasta vaðið. Þeir trúðu á óumflýjanleg örlög en héldu samt sjálfstæði sínu. Andinn, hinn eiginlegi maður, gat aldrei bugast meðan hann hafði þrek til að mæta hverju sem að höndum bar með geðró og karlmensku. Guðunum treystu þeir ekki meir en svo. Þeir voru ekki almáttugir og þeir voru ekki alvitrir. Þeir voru ástvinir þeirra en ekki drotnar. Ekkert var víkingnum fráleitara en að kyssa á höndina sem hirti þá hvert sem þær hendur heyrðu til guðum eða mönnum. Goðin voru mislynd og þeim gat yfirsézt. Óðinn valfaðir gat dæmt þeim dauða í orustum, en meðan þeir gengu hlægjandi móti dauðanum var síðasta taflið þeirra hvernig sem annars tilskipaðist um þeirra hagi. Það var að vísu ágætt að eiga goðin að en mest áttu þeir þá undir sjálfum sér. Þeir báru líka mesta ábyrgð gagnvart sjálfum sér og sínum sóma. Þeir gátu að vísu ekki umflúið örlögin en þeir gátu mætt þeim sem menn og það gerðu þeir ef þeir ekki brugðust drengskapar skyldunni í lífi eða dauða. Ef til vill höfum við aldrei haft betra skilyrði til að skilja þessa afstöðu en einmitt nú þegar dáðríkir hermenn þola kvalir og dauða án þess að gefa óvinum sínum nokkra upplýsingu, sem þeim getur að gagni komið. Þeir vilja heldur láta lífið en sóma sinn og mæta dauðanum með slíkri hugprýði að böðlar þeirra skelfast fyrir þeim mætti er þeir fá eigi bugað.

Svo er líka önnur hlið á málinu. Menn verða ekki ein-

ungis að taka erfiðum örlögum með hugprýði heldur líka að leika það hlutverk, sem örlögin skapa þeim, sem sannir menn og góðir drengir — hversu erfitt, sem það kann að vera. Tökum Guðrúnu Ósvifsdóttur, þessa dásamlegu kvenhetju, til dæmis. Hún ann Kjartan en giftist Bolla fyrir öfugsnurðu örlaganna. Hún er skörungur mikill og langt á undan samtíð sinni í sumum greinum. Hún virðir að vettugi álit almennings um vangildi konunnar. Hún visssi sig helzt til foringja fallna í ættinni og tekur við því hlutskifti sem sjálfsagðri skyldu og sjálfsögðum rétti. Nú hafði Kjartan gert ættinni hina mestu hneysu. Þess varð að hefna, hvað sem það kostaði. Það var jafn sjálfsögð drengskapar skylda sem að bjarga Gunnari Þiðrandabana undan vopnum ásóknar mannanna í veizlunni forðum. Í krafti sinnar norrænu náttúru, í umboði síns arftekna drengskapar hugtaks, stendur þessi Ásatrúar kona upp af brúðarbekknum albúin að heyja stríð við bónda sinn til bjargar einum umkomulausum flóttamanni, sem henni hafði verið sendur til halds og trausts. Þyngri prófraun hafði hún þegar staðist að gerast ráðbani Kjartans, að særa sjálfa sig hinu dýpsta hjartasári til að gegna kvöðum skyldunnar; að vera þeim verst sem hún unni mest. Fyrir það hlaut hún ámæli sprottin af misskilningi síðari alda kynslóða, sem hafa yfirleitt ekki skilið trú, lífsskoðun og siðalögmál fornaldarinnar. Það er líka athyglisvert að Guðrún iðrast ekki þessa verks fyr en hún sjálf hefir kastað Ásatrú og tekið kristni.

Svo máttug er siðvitund og örlagatrú víkinganna, að goðin sjálf verða að gjalda sinna yfirsjóna og hlíta dómi örlaganna; þessvegna ragnarök.

**Ragnarök**

"Og guðirnir reka sinn brothætta bát á blindsker í hafdjúpi alda". Þúsund árum áður en Þorsteinn skáld sér þessa heims ljós, í Hlíðarendakoti undir Eyjafjöllum, sköpuðu Ásatrúarmenn goðum sínum aldurdaga. Er mér nær að halda, að norræn heiðni sé einu trúarbrögðin, sem höfðu vit til þess. Þeir vissu að alt líf gengur með dauðamein frá vöggunni til grafar; að í sjálfri framsókninni leynist afturför, og rotnun í allri nýsköpun. Þetta kemur átakanlega greinilega fram í Yggdrasils sögninni. Hinn mikli meiður og meginstoð jarðlífsins stendur rótum í þremur heimum og einn af þeim er Niflheimur, dauðans heimur. Alstaðar gætir andstæða og fram-

þróun og afturför, ljós og myrkur, líf og dauða, ilt og gott keppa um völdin. Í toppi trésins situr örnin sem ímynd hins eilífa og göfuga en djúpt í dimmu jarðar nagar Níðhöggur lífsrótina.

Breiskleikinn býr enda í sjálfum guðunum. Eitt af kvæðunum í Völuspá heitir Lokasenna. Það eru tildrög kvæðisins að Loki kemur til goða veizlu hjá Ægir og deilir á goðin. Verður úr þessu hin sóðalegasta senna. Loki bregður Æsum um ýmsa galla og vænir gyðjurnar um lauslæti. Honum þykir Óðinn glámskygn eða hlutdrægur þar sem hann gefur óverðugum stundum sigur í orustum. Freyr fær slíkan blæjubruna, að hann selur sverð sitt hið ágæta fyrir meyjar blíðu og kemur svo vanbúin til víga í ragnarökum. (Nordal hyggur kvæðið kveðið af heiðnum manni á tíundu öld og færir til þess ýmsar líkur). Þótt það sé að vísu eins manns verk ber þess að gæta, að kvæðið geymist í minnum Ásatrúar-manna. Ekki myndi það eiga sér svo langan aldur ef heiðnir menn hefðu álitið það markleysu eina. Menn voru farnir að finna til meingallanna á Ásatrúnni fyrir daga kristninnar á Norðurlöndum. Menn voru vaxnir upp úr henni, eins og þjóðir æfinlega vaxa upp úr trúarbrögðum sínum og er það að vonum. Þau eru arftekin og miðast við þekkingarstig fornra kynslóða sem lifandi lýðir eru altaf að vaxa upp úr, þeir vaxa upp úr umbúðunum og verða að sníða sér nýjar, ef vel á að fara.

Annað Eddukvæði, miklu merkara, Völuspá, opinberar hugsunarhátt aldarfarsins í dramatiskum dráttum. — Þegar stundir líða og heimur tekur að spillast, gerist Óðinn hugsjúkur um framtíð veraldar; leitar hann nú véfrétta hjá völvu og úr spásögn hennar er óðurinn spunninn. Völuspá stiklar á stóru, kemur víða við en dregur hvergi seiminn. Fyrst bregður hún upp leifturmynd af árdegi jarðlífsins þegar alt var óspilt og frítt.

"Sól skein sunnan á salar steina,
þá var grund gróin grænum lauki.

Friður alsnægta og fjárjafnaðar ríkti um veröld víða. Svo dregur upp ský, blika örlaganna hvílir yfir Ásgarði. Ágirndin hefir numið sér þar bólfestu. Seiðkonan Gullveig gélur goðunum sinn ramma galdur, svo gullæðið grípur þau. Með ágirndinni skapast ófriður. Skíðveggurinn sem áður hlífði Ásgarði reynist nú ekki nógu sterkur. Hreysti goðanna hlítir þeim nú ekki til sjálfsvarnar og þau heimskast til að gera kaup

við hrímþurs, er skyldi reisa þeim óvinnandi vígi. Að launum heita Æsir honum bæði Freyju og sólinni. Hér er ekki um að villast, fornmenn fundu það eins og Kristur, að ágirndin er rót alls ills. Vegna hvers er hún það? Hún er það af því hún metur efnin meir en manngildið, gullið meir en göfugmensku. "Þar sem yðar fjársjóðir eru, þar er ykkar hjarta", og hjarta hinna norrænu guða verður hjá gullinu og ekkert eins áríðandi eins og að vernda það vel; þess vegna vilja þeir gefa frjósemdar gyðjuna og sjálfa sólina fyrir þá fjárhirzlu, sem tryggi þeim auðinn til eilífðar. En þegar verkinu er næstum lokið sjá þeir í hvert óefni er komið og heldur en standa við samningana brjóta þeir heit sín og vega borgarsmiðinn í griðum. Nú eru goðin sjálf orðin sek um alla þá höfuðglæpi, sem verstir eru taldir lauslæti (ef Lokasenna er tekin trúanleg); eiðrof og morð. Gerist nú loft alt læfi blandið. Æðstu lög tilverunnar eru siðferðis lögin. Séu þau rofin kemst öll tilveran á ringulreið, eða eins og Völuspá lýsir því:

(1.) "Fyllisk fjörfi / feigra manna, / ríðr ragna sjót / rauðum dreyra, / svört verða sólskin / of sumar eptir, / veður öll válynd. — / Vituð er enn eða hvat?"

(2.) "Skelfr Yggdrasils / askr standandi /ymur aldit tré, / en jötun losnar / hræðask allir / á helvegum / áðr Surtr þann / sevi of gleypir."

Heimurinn gengur allur úr skorðum og guðirnir komast ekki heldur hjá afleiðingum eigin gerða. Þeir eru háðir þeim lögum sem lífinu eru til sett en standa ekki utan við þau. Fá kvæði munu taka Völuspá fram að leikhæfni. Það er eins og maður hlusti á hjartaslög altilverunnar og kenni ugg guðanna við spásögn aldarfarsins.

Það rökkvar svo svört verða sólskin. Lífsmeiðurinn Yggdrasil skelfur svo "ýmur hið aldna tré". Jötunn losnar og öll illvætti. Öll eru þessi illvætti táknræn. Það lá í eðli fornmanna að holdga hugmyndir sínar um regin öll. Miðgarðs-ormurinn spýr eitri þ. e. a. s. drepsóttum yfir jörðina og þótt hetjan Þór beri banaorð af sjálfu illvættinu hnígur hann samt örendur fyrir eitrinu. Þannig hefir og farið fyrir sumum vísindamönnum í viðureigninni við sóttkveikju sýklana. Úr hvofti Fenríksúlfsins stendur eldur og virðist mér það muni eldgos tákna. Dreg eg þá ályktun helzt af því að úlfurinn gleypir ekki einungis Alföður heldur og einnig sólina, eins og þegar eygló sortnar í megin móðu eldgosanna. Surtur kemur sunnan og

mun það tákna áhlaup viltra svertingja sunnan úr brunabeltis löndunum; en af þeim hefir hinu hvíta kyni jafnan staðið nokkur stuggur. Jötnar, meinvættir og bergrisar brjótast fram og leggja til orustu við Æsi og Einherja. Tekur nú skáldið heldur en ekki að brýna raustina þegar hann lýsir sjálfri orustunni. Mun naumast að finna magnþrungnari óð í annara þjóða bókmentum:

"Hrymr ekr ustan, / hefsk lind fyrir, / snýsk Jörmungandr / í jötun móði; / ormur knýr unnir, / en ari hlakkar, / slítr nái níð-fölr / naglfar losnar.

Surtr fer sunnan / með svifa lævi, / skinn af sverði / sól valtíva; / grjótbjörg gnata, / en gífr rata, / troða halir helveg, / en himin klofnar. / Sól tér sortna, / sígr fold í mar, / hverfa af himni / heiðar stjörnur; / geysar eimi / ok aldurnari; / leikr hár hiti / við himin sjálfan."

Á vettvangi orustunnar eyðist alt; guðir, menn og meinvætti. Goðin fóru dauðasek til víga og hlutu því að hníga. Samt réttlæta goðin sig með framgöngunni, með því að reynast sjálfum sér trú á úrslita stundinni. Þótt þeim yrði ekki lengra lífs auðið, bjarga þau samt heiminum frá yfirráðum illskunnar með sínum eigin dauða. Þetta er bæði fögur og háleit friðþægingar kenning.

Nú skiftir alt í einu um tóninn í kvæðinu. Það er sem blíður blærinn strjúki skuggamóðu dauðans af augum sjáandans. Lífið er of máttugt í eðli sínu til að útslokna, helmögnin fá ekki haldið því til lengdar og kvæðið endar á sigursöngvum upprisunnar:

"Sér hon / upp koma / öðru sinni / jörð og ægi / iðjagræna, — / falla fossnar, / flýgr örn yfir / sás á fjalli / fiska veiðr.

Sal sér hon standa / sólu fegra, / golli þakðan, / á Gimlei; / þar skulu dyggvar / dróttir byggva / ok of aldrdaga /yndis njóta.

Munu ósánir / akrar vaxa; / böls mun alls batna / mun Baldr koma. . . . .

Þar muni eptir / undursamligar / gollnar töflur / í grasi finnask, / þærs í árdaga / áttar höfðu.

Þá koma enn ríki / at regindómi / öflugr ofan, / sa's öllu ræðr."

Aðeins hið góða, unga og saklausa erfir þennan heim fegurðarinnar og lífsþroskann. Baldur verður höfuðguð hans og

nú munu lög hans og dómar standast. Vel má vera að vísuparturinn "Þá kemr enn ríki o. s. frv." sé síðari alda innskot og runnið frá kristnum rótum. Samt þarf það ekki svo að vera. Víða í goðatrúnni, glampar fyrir leiftursýnum af fullkomnari heimi en andinn fær lýst og æðri guðum en hugan getur grunað. Á endalausa framför trúa þeir og ragnarök eru þáttaskifti í þeirri framþróun.

Eg vil ekki ljúka þessum þætti án þess að endurtaka aðdáun mína fyrir því viti sem skapar guðunum aldurtila svo aðrir betri megi ríkið erfa, og siðferðis alvörunni, sem lætur jafnvel goðin gjalda afbrota sinna.

**Siðvitund feðranna**

Jurtin dæmist af blóminu, sem hún ber og trúin af þeirri siðmenning sem hún fóstrar. Siðvitundin leggur undirstöðuna fyrir þjóðmenningunni og þeim hugsjónum, sem eru fjörgjafar framkvæmdanna hjá lifandi lýðum en geisli vonar fyrir dapra og deyjandi. Hvernig mælist Ásatrúin á þennan mælikvarða?

Á ekkert lögðu feðurnir meiri áherzlu en sómasemina og manngildið. Þessi tvö hugtök voru, í þeirra huga, óaðskiljanleg því ærulaus maður hefir ekkert gildi hvorki sem þjóðfélagsþegn eða einstaklingur. Hann er mannfélaginu til lítils gagns og sjálfum sér til hneisu. Hér verður að gæta þess að til er bæði innra og ytra manngildi. Hið ytra manngildi miðast við almennings álitið en hið innra við sjálfsmatið. Hvorugt getur án annars verið til lengdar. Sjálfsálitið getur verið sprottið af heimsku og hroka en almenningsrómurinn leggur endurmat á manninn. Eftirsóknin um stundar vegtyllu getur verið hágómleg og enda mannspillandi. Hún verður að miðast við heilbrigða sjálfsvirðingu. Siðvitundin gefur úrskurðinn um hvað sé sómasamlegt og hvað sé lastsamlegt.

Fornmennirnir sóttust eftir orðstír af því hann hóf þá í eigin áliti, var nokkurs konar prófsteinn á manngildi þeirra. Þess vegna kveða Hávamál svo að orði: Deyr fé / deyja frændr / deyr sjálfr et sama; / en orðstirr / deyr aldrigi / hveims sér góðan getr. Nú geta menn að vísu sózt eftir hefðar sætum af hégómlegum tildurs metnaði, en þar taka Hávamál af öll tvímæli. Þau eru í rauninni föðurlegar bendingar til æskunnar, um hvernig henni beri að haga sér svo hinir ungu og óreyndu verði sér hvorki til skaða eða skammar. Unglingurinn á fyrst og fremst að vera athugull og íhygginn. "Gættir allar áðr

gangi fram og skygnast skýli." Hann á ekki að sækjast eftir hefðarsætum áður sýnt sé hvaða virðing hann geti áunnið sér í mannraunum. ". . . . . mjök es bráðr / sás á bröndum skal / síns og freista frama." Hann á að hlusta og þegjandi nema af öðrum. ". . . . . . Þunnu hljóði þegir, / eyrum hlýðir, / en augum skoðar; / sjá nýsisk fróðra hverr fyrir." Honum er ekkert eins nauðsynlegt sem hyggindi og þekking. "Byrði betri / berrat maðr brautu at, / an sé mannvit mikit: / auði betra / þykkir þat í ókunnum stað; / slíkt er válaðs vera." Hér er ágæt leiðbeining um samkvæmishegðun er mörgum gæti enn að gagni komið. "Þagalt ok hugult / skýli þjóðans barn / ok vígdjarft vera: / glaðr ok reifur / skýli guma hverr, / unz sinn bíðr bana." Þá er heilsusamleg hugvekja gegn óhófi. "Gráðugr halr, / nema geðs viti, / etr sér aldrtrega / opt fær hlægis / es sem horskum komr, / manni heimskum magi."

Þrjár voru þær höfuðdygðir, sem fornmenn möttu mest: trúskap í vináttu, sannsögli og sú hofmannlega sjálfstamning sem er, á öllum öldum, aðalsmerki höfðingjans. Aldrei hefir vinskapurinn verið meira metin og þess eru ótal dæmi að víkingarnir létu lífið fyrir vini sína. Um einstæðingsskap hins vinarsnauða er þetta erindi kveðið í Hávamálum: "Hrörnar þoll / sús stendr þorpi á, / hlýrat henni björkr né barr, / svás es maðr / sás manngi ann; / hvort skal hann lengi lifa?" Þarna er einstæðingnum líkt við einstætt tré sem engir skógar skýla og verður eitt að standast öll áföllin. Eins og funi kviknar af funa svo eflast góðar og göfugar hvatir í góðum félagsskap. Er um þetta gullfagurt erindi: "Brandr af brandi / brennr unz brunninn sé, / funi kveikist af funa, / maðr af manni, / veðr at máli kuðr; / til dælskr af dul." Vinum sínum eiga menn að vera örlátir og einlægir en engum ber skylda til að gjalda gott fyrir ilt. Þeim má gjalda "lausung við lýgi. Víkingarnir hafa, í raun og veru, tvö siðalögmál eftir því við hvern er að eiga, vini eða óvini, þó er framferði þeirra gegn óvinunum einnig drengskapar skorður settar svo sem enn mun getið.

Lýgin var andstygð í þeirra augum, meðfram af því að hún var skálkaskjól hins hugblauða. Að segja satt frá atvikum jafnvel þótt sannleikurinn gæti verið mönnum hvimleiður þótti höfuð prýði á hverjum manni. Dæmafá mun sagan af tveimur íslenzkum höfðingjum, sem árum saman sækjast eftir hvers annars lífi og vega hvers annars vini, en skjóta að síðustu

málum sínum fyrir Noregs konung. Konungurinn vill eðlilega heyra alla málavöxtu en þegar annar er búinn að segja frá þeirra viðskiftum sem greinilegast hefir hinn engu við að bæta eða athugasemdir að gera þar sem rétt var greint frá öllum atvikum. Tökum annað dæmi. Sturlungasaga hermir frá stríði og illræðisverkum á hinni verstu vígaöld, sem yfir Ísland hefir dunið. Hún er skrifuð af einum af þátttakendum þessara hildarleika, samt er frásögnin hvarvetna hlutdrægnislaus og sjálfsagt eins sönn og rétt, sem framsögumaðurinn veit sannast. Hvar annarstaðar en á Íslandi hefði þvílík saga verið samin, og hvenær á Íslandi nema meðan hinar fornu dygðir voru ennþá í heiðri hafðar? Alt fals og yfirhylming var undantekningarlaust fordæmd sem mannspillandi lestir. Þjófnaður var þrælslegur en rán gátu verið stórmannleg af því gjörandinn tók á sig ábyrgðina. Launvíg voru glæpsamleg morð, en að vega menn opinberlega gat verið heilög skylda.

Að því hefir verið stundum vikið, að sá ofstopi og ribbalda háttur sem stundum kemur fram hjá Íslendingum í seinni tíð sé arfur frá víkingunum. Ekkert getur verið fráleitara. Fornmenn voru háttprúðir menn, höfðu taum á tungu sinni og tömdu sér sjálfstjórn í hvívetna. Snillyrði þeirra, við ýms úrslitarík tækifæri, sýna það bezt hversu hófstillingin var þeim eiginleg. Þeir byrgðu tilfinningar sínar inni og það hefir máske gert þá ógleymnari á móðganir og hefnigjarnari.

**Blóðhefndir**

Við megum ekki skoða þær frá sjónarmiði nútíðar, þótt þær séu nú meira iðkaðar en nokkru sinni áður. Það var skylda manna að hefna, skylda við sjálfan sig, ættina og þjóðfélagið. Ræki maður ekki réttar síns gat sá grunur á hann fallið, að hann kendi sig ekki mann til þess, brysti þor til áræðis. Almenningsálitið er innleitið og það rýrir sjálfstraustið ef aðrir óvirða mann.

Einstöku hetjur eiga það sjálfstæði, að geta boðið almennings álitinu byrgin en þær eru fáar. Menn verða líka að gæta þess, að hver einstaklingur átti mest undir sjálfum sér í því að vernda rétt sinn og sjálfstæði. Gerði hann það ekki gat það leitt til þess, að aðrir freistuðust til að veita honum yfirtroðslur. Honum bar einnig skylda til hefnda svo ættarheiðurinn nyti verndar. Fátt þótti jafn lítilmótlegt og að láta ættingja sinn liggja óbættann í valnum. Slíkt bar vott ekki einungis

um lítilmensku heldur líka ræktarleysi við minning þeirra. Í þriðja lagi skoðaði einstaklingurinn sig löglegt framkvæmdarvald þar sem stjórnarfarslegt lögregluvald var ekki til, eins og á Íslandi. Hinu megum við heldur ekki gleyma, að fjölda mál, og þar á meðal mörg vígsmál, voru útkljáð með fullum sættum, sem héldust vel. Það var merkilega lítið persónulegt hatur milli málsaðilja ef hreinlega var til hefnda gengið.

Engin kona, á Íslandi, hefir orkað stærri hefndum en Hildigunnur ekkja Höskuldar Hvítanesgoða. Það er hún sem kyndir, í raun og veru, brennubálið að Bergþórshvoli. Þar brann inni, meðal annara, Þórður sonur Kára Sólmundssonar. Engin gekk ríkara eftir hefndum en Kári, en hann hafði verið að vígi Höskuldar. Ástir gátu samt með þeim tekist þegar hefndum var lokið og sættir fengust af því hvert um sig vissi að örlögin höfðu ákveðið þeim þetta hlutverk. Kári veit nú að Höskuldur var saklaus veginn og vorkennir Hildigunni fyrir hefndar brunann. Hildigunnur veit nú af sjálfsreynslu sinni hvað Kára bjó í brjósti og metur það til drenglyndis að hann vill ekki þeim sættum taka, sem hann treystir sér ekki til að halda. Þetta er sjálfsagt ekki hæsta takmark manndygða, en hér er alt falslaust og hreint, hér er drenglyndis hugsjóninni framfylgt út í yztu æsar.

**Drenglyndið**

Víkingarnir voru riddarar norrænnrar heiðni og eins og hinir kristnu riddarar miðaldanna áttu þeir sér sitt manndóms hugtak, æðsta takmarkið var að reynast drengur góður. Í þessu hugtaki geymist hugsjónin um sanngildið. Þrátt fyrir hefndir og heiftarhug setur það víkingnum takmark í sjálfri hefndinni. Þeir mega ekki vega að vopnlausum manni eða valföllnum. Karlmannlegast þótti að ganga einn móti einum. Að rjúfa trygðir þótti ekki einungis glæpsamlegt heldur einnig lítilmannlegt. Þess voru líka mörg dæmin, að menn færu meir að ábendingum samvizkunnar og mætu það drengilegra, að halda vináttunni en neyta hefndanna. Gott dæmi er sagan um þá Njál og Gunnar. Þeir voru að flestu ólíkir en samt vinir miklir. Konur þeirra voru óvinir og svöluðu heift sinni með mannvígum. Samkvæmt almennings álitinu bar þess að hefna, en bæði Gunnar og Njáll þola áfríunarorð kvenna sinna og halda vinskap meðan þeir lifa báðir. Enn betra dæmi er framkoma Halls frá Síðu í brennumálinu. Loftur

sonur hans hafði verið veginn alsaklaus á Þingvöllum þegar þeir feðgar vildu stilla til friðar, en þingheimur albúinn að berjast. Nú bar Halli ekki einungis réttur heldur líka skylda til hefnda. Hann kannast líka við aldarandann er hann hóf ræðu sína á þessa leið: "Mun ek enn sýna þat, er ek em lítilmenni. . . Enn ek vil þat vinna til sátta, at leggja son minn ógildann ok ganga þó til at veita þeim bæði trygðir ok grið, er mínir mótstöðumenn eru". Hið vitra valmenni vissi hvað hér var í húfi ef vígsmálin eyddust á hendur brennumönnum og sækjendur gripu til vopna svo helgireitur þjóðarinnar flyti í banablóði. Þá hlýddi hann einungis rödd samvizkunnar um hvað drengilegast væri. Annars sýna endalyktir þessa máls ágætlega siðferðisstyrk þjóðarinnar, sem ennþá lifði við sína erfðamenning þótt kristin væri kölluð. Kári vill engar sættir taka, treystir sér ekki til að halda þær svo sem sæmir, því enn er honum sonarmissirinn í fersku minni. Þorleifur krákur og Þorgrímur mikli sættast en Þorgeir skorrageir bróðir þeira vill ekki við Kára vin sinn skilja, þótt honum sé fullljóst að þeir félagar muni eiga fáa vini en marga óvini. Eyjólfur Bölverksson fellur ógildur fyrir illgirni sína og rangsleitni enda þótt hann hefði lög að mæla. Þingmenn vilja ekki láta Hall gjalda góðmensku sinnar og bæta honum sonar missirinn með fernum manngjöldum, munu það ein þau mestu er goldin voru á Íslandi. Flosi og brennumenn eru gerðir útlagir um sinn, en halda þó fé sínu og virðingu.

Stilling, drengskapur og dómgreind bjargaði lýðveldinu forna þá sem oftar og samdi þær sættir er öllum voru til sóma og héldust vel. Í engu landi hafa fleiri stórmál verið útkljáð með sættum en á Íslandi, í fornöld. Drengskapar hugsjónin geislar í gegnum alt þjóðlífið og bregður tignarsvip á hina hörðu ásýnd víkingsins og mildar löggjöf og dóma. Hegningin er ekki, eins og hjá öðrum fornþjóðum, — já og enda nútíðar fólki — grimmúðug svo kvalalosta villumannsins er með henni svalað í viðbjóðslegum pyntingum. Menn eru dæmdir til útlegðar og oftast gefin kostur á að forða sér. Annars áttu þeir alt undir eigin hreysti. Menn eru ekki dregnir hlekkjaðir til gálgans, eða bornir æpandi á bálið. Þrælahald er að vísu leyft. — Það var ekki úr lögum numið í hinum kristnu menningarlöndum fyr en á síðast liðnri öld: Prússlandi, Rússlandi, Bandaríkjunum og nýlendum Breta. Ekki veit eg til að nein af þessum ríkjum semdu lög til að vernda heimilishelgi þrælanna, en

heiðnir Íslendingar settu þvílík lög, þar sem þrællinn átti víkt um konu sína, þ. e. a. s. hafði rétt til að vega þann er tók hana frillutaki. Útburður hvítvoðunga var líka leyfður og mönnum þykir það hryllilegt; en blessaðir verið þið, útburður barna tíðkast enn þar sem vanhirt æska rotnar í skuggaskýlum örbirgðarinnar. Að hinu leyti mun þess engin dæmi, meðal fornra þjóða, að bændum væri bættur að mestu sá búskaði er þeir urðu fyrir að náttúrunnar völdum. Hrepparnir íslenzku voru, á gullalda tímabilinu, lagalegt samábyrgðarfélag. Sú skyldukvöð var líka lögð á þegnana að sjá þurfamönnum fyrir framfærslu.

Sú lífsspeki, sem óx af rótum Ásatrúar kendi mönnum að lifa sér til sóma en öðrum til gagns; kendi mönnum að mæta dauðanum óttalaust; skapaði hjá þeim það manngildismat, sem framleiðir í víkingnum einhvern hinn stórfeldasta manngerfing, er sögur hafa frá að segja.

Víkingurinn lifði æfintýraríku lífi og áhættusömu. Úr því hann sigldi smáskipum um opin höf, varð ekki hjá því komist að ýmsir gistu vota gröf. Úr því hann herjaði og háði orustur, hlutu sumir að falla. Úr því hann leitaði hefnda, hlaut hann líka að verða fyrir hefndum. Hitt er jafn víst að hann varðist dauðanum í lengstu lög. Hreystin sjálf var hans öruggasti hlýfiskjöldur í hættunni. Allir gátu orðið foringjar, flestir ætluðu sér það hlutskifti. Foringinn varð að vera öðrum til fyrirmyndar. "Fremur skal konunga hafa til frægðar en langlífis," segir Magnús konungur. Herinn festir sjónir á foringja sínum. Hversu oft hefir ekki sigur fengist í orustu, skipshöfn bjargast í sjávarháska og þrekraun tekist fyrir hugdirfð og snarræði eins manns. Þess vegna var Halldór Snorrason svo mikils metinn í liði Væringja. Sjálfsagt efldi trúin, og þó einkum örlaga trúin, þetta hugrekki, en mest átti einstaklingurinn þó undir sjálfsþjálfun sinni og eigin innræti. Víkingarnir voru nógu skynsamir til að hugleiða þetta; þessvegna eru þeir altaf að búa sig undir hætturnar. Þetta skýrist með nærstæðu dæmi. Nú kviknar í farþegaskipi út á hafi. Við hættuna ærast menn stundum og þeir hraustu bæja þeim veiku frá björgun. Afleiðingin venjulegast sú að allir eða flestir farast. Hitt kemur þó langtum oftar fyrir, að sjómennirnir að minsta kosti haga sér eins og hetjur. Konum og börnum er bjargað fyrst og afleiðingin sú, að flestum eða öllum er borgið, að síðustu. Á úrslita stundu augbragðsins haga menn sér eins og

þeim er eðlilegast en þeim verður eðlilegast að bregða við eins og þeim hefir verið innrætt af siðvitund sinnar samtíðar. Í fornum sögum höfum vð ótal dæmi þessu lík. Víkingurinn fær ekki umflúið hættuna en hann getur fyrirbugað óttann, sem af hættunni stafar, með því eins og Stephan G. kemst að orði:

"Í voðanum skyldunni að víkja eigi úr
Og vera í lífinu sjálfum sér trúr."

Fornmenn virðast stundum sækjast eftir hættunni einungis vegna þess að þeir vilja sannprófa sjálfa sig í mannraunum. Einhver rithöfundur hefir sagt, að hinn hugblauði deyi daglega, að hann líði allar skelfingar dauðans daglega í hugsun sinni. Hinn hugdjarfi hefir ekkert af því að segja og svo að síðustu þegar dauðinn vitjar hans, mætir hann honum æðrulaust. "Haldið þið kanske eg hræðist dauðann?" sagði Murat marskálkur, "hef eg ekki mætt honum fyr í ótal orustum?" Á sama hátt mætir víkingurinn honum eins og gömlum kunningja með kímnisræðu á vörum. Þorvaldur, sonur Eiríks rauða, varð fyrir örvarskoti i Vínlandi. Dró hann þá örina úr undinni og er hann sá fituna á fleininum mælti hann: "Víst höfum vér fundið land gott, þótt vér fáum þess ekki lengi notið."

Enn gleggri er lýsing Snorra Sturlusonar á dauða Jökuls Bárðarsonar. Þar segir svo: "Þat er hér skotast af at segja, er síðar varðar mjög miklu, at Jökull varð fyrir liði Ólafs konungs á Gotlandi ok varð handtekinn, og lét konungur hann til höggs leiða, ok var vöndur snúin í hár honum, ok hélt á maðr. Settisk Jökull á bekk nokkurn, þar réð maðr til at höggva hann. en er (Jökull) heyrði hvininn settisk hann upp ok kom höggit í höfuð honum, ok var mikit sár; sá konungr at þat var banasár, bað konungr þá hætta við hann. Jökull settisk upp ok orti þá vísu: "Svíða sár af mæði / sætit hef ek oft við betra / und es á oss sprændi / ótrauð legi rauðum; / byss mér blóði úr þessi / beni, teki við þrek venjask; / verpr hjálmgöfgr hilmir / heiðsær á mig reiði."

Síðan andaðist Jökull. "Þetta er eins og stillilegt andvarp hins helsærða manns um leið og hann lítur yfir liðna æfi," segir Helgi Péturs og verður það ekki betur sagt.

Hér getur að líta hina harðlegu en göfugu aðalsmynd víkingsins bera við blóðugan bakgrunn hinnar ásatrúuðu fornmenningar. Þegar við hugleiðum þessa mynd freistumst við

til að trúa staðhæfingu Guðbrandar Vigfússonar: "Beztu menn á landi hafa lifað hér í heiðni og síðan aldrei komið þeirra líkar."

Trúar og siðgæðis hugsjónir túlkast bæði í lífi og listum þjóðanna. Fornmenn í Norðurlöndum meitluðu ekki yfirmannlega fögur mannlíkan í steininn eins og Forn-Grikkir. Engu að síður höfðu þeir sínar hugmyndir um fegurð mannlífsins. Lýsingarorðin lýsa því bezt. Illmennið kalla þeir fúlmenni. Af honum leggur ógeðsþef eins og eitur pöddu. Illur þegn er ljótur og ógeðslegur. Góður drengur er aftur á móti prúðmenni. Hann er fagur hvernig sem útliti hans hið ytra kann að vera háttað, drengskapurinn gefur honum aðalssvip enda þótt hann kunni að vera kotungur út í Hergilsey. Æðsta fegurð lífsins birtist ekki í hugsjónum skáldsins eða listamannsins heldur í manninum sjálfum. Það er vert að minnast þessa þegar við athugum munkinn í miðalda klaustrinu. Þriðja orðið kemur mér líka til hugar, orðið kurteisi. Í nútíðar máli merkir það ýmsar samkvæmis siðvenjur. Í fornöld hafði það miklu dýpri þýðingu. Sá var kurteis, sem gætti sóma síns, var sannorður, hreinskilinn, geðstiltur, hugprúður, trúlyndur, örlátur við vini sína, gestrisinn, hófsamur, hygginn, glaður og reifur, níddist ekki á lítilmenni, prettaði engan í friðsömum viðskiftum. **Að vera kurteis var að lifa fagurlega.**



Aðal málgagn kaþólsku kirkjunnar á Englandi er tímaritið "The Catholic Record", ritstjóri þess er Michael de le Bedoyere barón. Hér fer á eftir stutt málsgrein úr einni ritstjórnargrein hans:

"Hvaða þýðingu hefir kristindómurinn fyrir nútíðar þjóðlífið og þann vanda, sem því ber að höndum? Með einhverju móti verðum við að kynda nýjan vonarvita í hjörtum mannanna og gefa svör við aðkallandi spurningum. . . Geti kristnin ekki glætt nýjar hugsjónir og gefið greið svör aðhyllist fjöldinn kommúnisman hvað sem við annars segjum og gerum. Moskva á sér sterkara segulmagn en Vaticanið eða Canterbury sem stendur."

# Útfall

(J. Rae Tooke. — Chatelaine, febrúar 1939).

*Þú gengur milli manna, sonur kær,*
*Þér mætir aðeins þetta kalda svar:*
*"Við þurfum ekki þinnar hjálpar með.*
*Þú ert of gamall." Annar segir þó:*
*"Of ungur. Þér er bezt að fara heim."*
*En sólin brosir hlý við himins-skaut*
*Og horfir niður á alsleysingjans braut.*
*Og vorið nálgast náttúrunni hjá, —*
*En neyð og myrkur drengnum hvílir á.*

*En hann var barn, er heimur æðið tók.*
*Hans hjartkær faðir kysti ungan son,*
*Og bjóst til stríðs. — En loforð fyrst þó fékk*
*Um frelsi og alsnægt, þegar kæmi hann heim,*
*Og umhyggju frá yfirvöldum lands.*
*Og nú er þessi ungi einkason,*
*Með ótal vonir, krafta og vinnuþrá,*
*Að krefjast þess sem allra réttur er.*
*"Of ungur. — Gamall. — Vil þig ekki sjá."*

*Um leið og stríðsins lúðrar gjalla á ný,*
*Þeir leita, biðja, sækjast eftir þér.*
*Þá verðurðu ekki of ungur, sonur kær.*
*Þitt æskublóð er stríðsins guði fórn,*
*Og líkami þinn lífsins næring hans.*
*Þá breytist alt, og önnur birtist tíð,*
*Og allir dýrka og blessa soninn minn.*
*—En guð, ó, guð, lát mannsins hjarta og hug*
*Þér helgast, — svo að framar verði ei stríð. —*

Páll S. Pálsson

# Frummenn

Eftir því sem ritningin greinir ætti jörðin að vera um sex þúsund ára gömul, í mesta lagi, og mannkynið líka. Hvað segja nú vísindin um þetta? Þau segja að engin geti vitað um aldur jarðar en þegar athugað er hvaða tímalengd það tekur að mynda jarðlögin og breyta, til dæmis, jurtaleifum í steinkol og svo steinkolum í demanta, má óhætt fullyrða, að hnöttur vor er margra miljón ára að aldri.

Um uppruna og aldur mannkynsins verður heldur ekkert með vissu sagt en jarðvist vors kyns orðin fyrna löng. Í sambandi við mannvist má þess geta, að fjórar ísaldir hafa, að minsta kosti gengið yfir veröld vora. Er það samhljóða skoðun jarðfræðinga, að ekki sé skemur en 550 til 600 þúsund ár frá upphafi hinnar fyrstu ísaldar. Milli ísaldanna eru svo hlýinda tímabil er skifta þeim. Frá hinum fyrstu ísöldum hafa engar mannlífsminjar komið í ljós en alveg óyggjandi sannanir eru fyrir jarðlægri mannvist frá hinum síðari ísöldum, en síðan þeirri fjórðu lauk eru að minsta kosti 25 þús. ár.

Elzta mannveran, sem ennþá hafa fundist einhverjar leifar af, er Pekin-maðurinn svonefndi en ekki er nú auðið að vita um hversu langt er síðan hann féll að fold. Nokkuð af beinum hans hefir fundist í helli einum í Kína og er það álit fræðimanna að hann hafi uppi verið fyrir óra löngu, kanske alt að miljón árum síðan. Nokkru fyr fanst hauskúpa, jaxlar og lærleggur af Trinil-manninum nálægt Trinil þorpi í eyjunni Java. Þessi manntegund hefir hlotið vísinda nafnið "Pithecanthropus erectus (apamaðurinn upprétti). Sumir halda hann jafn gamlan Pekin manninum, en um það getur enginn vitað með vissu. Öðru máli er að gegna með Neanderthals-kynið. Fyrsta beinagrindin af því fanst í Neanderdalnum nálægt Dusseldorf í Þýzkalandi árið 1856, síðan í ýmsum stöðum og löndum. Árið 1886 fanst beinagrind af frummanni nálægt smábænum Spy í Belgíu og er manntegund þessi kend við þorpið. Hún líkist að flestu Neanderdals-manninum svo ekki verður hér með vissu sagt hvert um nýtt kyn sé að ræða. Það er nokkurn vegin víst að Neanderdals og Spy-kynin eru afar gömul, hafa áreiðanlega

verið uppi á hinum síðari isöldum, ekki síðar en fyrir 50 þúsund árum síðan.

Öll þessi kyn hafa verið frumstæð mjög og ólík nútíðar mönnum. Hauskúpan rúmar heila, sem er svona nokkurvegin mitt á milli manna og apa. Kjálkar og tennur eru sterklegar, ennið lágt og afturdregið en brúnabeinin skörp og framstandandi. Hakan er svo lítil að tungan hefir naumast megnað að framleiða fjölbreytt hljóð, og má af því ráða, að þessir frummenn hafi verið málhaltir eða jafnvel alveg mállausir.

Af stærð og lögun hauskúpunnar má nokkuð ráða um andlega hæfileika þessa fólks. Framhluti heilans hefir hlotið að vera tiltölulega mikið minni en aftur hlutinn, sem var býsna þroskaður. Bendir það á skarpa sjón en gáfnaskort. Allir voru þeir lágvaxnir, luralegir, bolmiklir, hoknir í hnjám og innskeifir. Um hárfar þeirra og litarhátt vita menn auðvitað ekkert, og öll er saga þeirra hulin rökkri aldanna.

Öðru máli er að gegna um næstu kynkvíslir sem koma fram úr móðu tímans. Árið 1901 fundust tvær beinagrindur í Grotte de Enfants (Barnahellir) á Suður-Frakklandi. Af limalagi og þó einkum höfuðbeinunum má ráða, að hér sé um negra þjóðflokk að ræða. Fyrir utan þessar tvær beinagrindur hafa fundist tvær höfuðskeljar á Brittany skaga, sem flestir álíta af sama kynflokki. Hefir hann hlotið tegundar heitið Grimaldi en lítið vita menn um hann. Líklegt þykir að hann hafi komið frá Afríku, sem var landföst við Evrópu á ísöldum.

Það var annars merkilegt við þennan beinafund í "Grotti de Enfants" að litlu ofar í jarðlögunum fundust bein af annari manntegund mjög óskyldri. Höfðu menn áður nokkur kynni af þessum svonefndu Kró-Magnan-mönnum, sem virðast hafa verið mjög útbreiddir um Norðurálfuna. Þeir voru uppi á síðari hluta síðustu ísaldar svona frá tuttugu til fimtán þúsund árum f. K. Þetta var greinilega langhöfða kyn, hátt, jafnvel risavaxið, og virðist af beinunum mega ráða, að þeir hafi haft beinan og vel samsvarandi vöxt, hátt enni og stærri hauskúpu en hin fyrnefndu mannkyn. Kjálkarnir voru líkir því sem nú gerist meðal hvítra þjóða og ekkert bendir til að þeim hafi verið máls varnað. Þeir stóðu Grimaldimönnum framar að líkamsvexti og líklegast andlegu atgerfi en skör lægra samt en nútíðarmenn, yfirleitt. Samtímis þeim, eða jafnvel nokkru fyr, bygði ennþá eitt kyn álfuna, Árinjakarnir. Þeir voru einnig langhöfðar og að mörgu líkir Kró-Magnon-mönnunum en smá-

vaxnari og að því er ætla má miður gefnir andlega. Líklegt þykir að öll þessi kyn hafi blandað blóði saman og af þeim samruna hafi kynstofn Norðurálfu þjóðanna myndast en blandast þó síðar með blóði aðkomandi þjóðflokka, er löngu síðar gera innrás í álfuna.

Það var álit fræðimanna lengi vel, að fyrstu innbyggjar Vesturálfunnar hefðu verið Indíánar en ekki er álitið að þeir hafi komið til Ameríku fyr en um það leyti er Kristur fæddist austur í Palestínu. Nú fundust fyrir nokkrum árum steinvopn af annari gerð en þau er Indíánar smíðuðu. Hafa nú örvar og spjótsoddar sömu tegundar fundist víða um álfuna og þar helzt er jarðsprungur hafa orðið og þá æfinlega svo djúpt í jörð, að liðnir eru nú að minst kosti tíu þúsund vetrar síðan þessir frumbyggjar spyrntu fótum við fold. Ekki hafa leifar þessara manna ennþá fundist. (Beinafundir frá tug-þúsundum ára eru eðlilega fágætar því þær varðveitast aðeins undir sérstökum kringumstæðum). Þótt líkamsleifar þessa Falsomfólks finnist máske aldrei hefir það eftirlátið minjar um hérvist sína alt frá Mexikó norður til Alaska; svo útbreitt hefir það verið. Hvað um það hefir orðið eða hvort nokkur mannvera hefir viðhafst í Vesturálfu frá 10,000 f. K. og segjum 100 árum e. K. veit engin.

Nú hefir það komið í ljós að annað miklu eldra kyn hefir áður búið í álfunni. Árið 1936 fann námsmaður við ríkisháskólann í Albuquerque, í New Mexico-ríki steinvopn í miklu eldri jarðlögum. Kenneth Davis fann þessar fornleifar í helli sem gengur inn í Sandia-fjallið skamt frá Albuquerque. Láu steinvopn þar í beinarúsli af úlföldunum, úruxum og risadýri því, sem slóþ nefnist, en úlfaldar og slóþs eru útdauðir í Ameríku fyrir ótal öldum. Jarðfræðingurinn prófessor Kirk Bryan frá Harvard-háskóla hefir nú rannsakað fundinn og jarðmyndunina í hellinum. Nú er loftslag mjög þurt í New Mexico og hefir svo verið um margar aldir. Samt finnast grílukerti (stalagmite) þarna í jarðlögunum. Nú vita menn að þau skapast þegar kalsíum blandað vatni drýpur úr hellisloftinu. Nú er loftið svo þurt og rykþrungið í Sandia helli að það varð að hreinsa það með loftdælu áður mönnum yrði líft að starfa þar að nákvæmum rannsóknum. Þegar þessar stalagmite mynduðust hlaut loftslagið að vera rakasamt á þessum slóðum, en svo mun það hafa verið er heimskauta íshellan náði alt suður í Ohio-ríki, á síðustu ísöld. Úr því þessar fornleifar liggja

undir stalagmite-lögunum hlaut Sandia-maðurinn að vera uppi fyrir tuttugu og fimm þúsund árum síðan eða meira.

Ekkert verður með vissu sagt um lifnaðarhætti þessara fyrstu jarðbúa en auðvitað hafa þetta verið veiðiþjóðir, en hvernig þeir lögðu þessi útdauðu risadýr að velli með hinum lélegu stein- eða tinnuvopnum sínum vita menn ekki. Öðru máli er að gegna með steinalda þjóðirnar í Evrópu. Þegar myndir þeirra, dregnar af mikilli list, fundust í Altamira-hellinum á Spáni og síðar víða, gátu menn gert sér skýra grein fyrir daglegum háttum þessa fólks, er lifði á síðustu ísöldinni eða fyrir svo sem 25 þúsund árum síðan. Mun að því vikið síðar ef mér og Brautinni endist aldur til.

---

# Aðsókn

*Andvaka ligg eg langa vetrarnótt,*
*ljúfur svefn mig flýr, því hart er að mér sótt,*
*fyrir utan gluggann minn geysar heljar byltur,*
*getur nokkur skilið þann boðskap, sem hann þylur?*

*Þessi myrki manndrápsbylur*
*magnast, tryllist, alla vegi hylur.*
*Hríðin á glugganum glymur og hvín,*
*í glugganum marrar og tístir,*
*fönnin sér þrengir og þrýstir*
*og þjappast að hliðum og göflum.*
*Fárviðrið æðandi öskrar og hvín,*
*sem óveðursnornin sé kvalin af djöflum.*

*Það hamast, sem blótneyti í böndum*
*og brimskafl á heljar söndum.*
*Jörðin og himininn hangir á þræði*
*og holskeflan springur af mæði.*
*Brotna greinar, bjarkir kveina,*
*bliknuð ílustráin veina.*

*Köld og dimm er dauðans nótt*
*dvínar líf og ylur.*
*Húsið í stormsins heljarklóm*

*hristist og skekst á veikum grunni.*
*Heiftar-nornir með rámum róm*
*rífast og bítast með freðnum munni.*

*Það brestur og brakar hátt*
*í bitum og sperrum og stoðum.*
*Mér finst eg vera að missa mátt*
*er móki eg undir voðum.*

*Gráðugur dauðinn um gluggan minn*
*gægjist nú inn með heljaraugum,*
*helgustinn bitra af honum finn.*
*Hann má ekki, skal ekki komast inn!*
*með fylgd sína af feigðar draugum.*
*Nú hrökk eg við svo að eg hentist á fætur,*
*í helkulda og dimmu miðrar nætur.*
*Mér hitnar um hjartarætur.*

*Ferlegan dauðann eg óttast eigi*
*þótt ógnandi væri sem fyr,*
*í hamförum víkings eg varði' honum dyr,*
*og við hann í eldimóði sagði:*
*"Þú heiftugi dauði hugsar þér,*
*að hremma það, sem mér kærast er.*
*Eg veit að guðs miskun er meiri en þín*
*og máttur þinn fyrir henni dvín". —*
*Nú færði' hann sig dálítið fjær mér — en þagði.*

*Eg bað til guðs, að lægja storminn stríða*
*og stytta þrautir allra, sem að líða.*
*Í helhríðum lífsins hann leiði alla*
*og láti engan týnast né falla.*

*Nú fjarlægist veðrið, það lygnir, það lygnir*
*og loksins er friður fenginn.*
*Helhríðin dvín og dauðans nótt*
*og dagurinn skín mér hlýtt og rótt*
*og dauðinn frá glugganum genginn. —*
*Eg gægðist út. — Þar var enginn.*

V. G. Guttormsson

# Lúterskan og Menningarfélagið í Norður-Dakota

Nýja-Ísland er kostaland að ýmsu leyti, frjósöm mold og fiskignægð fyrir landi. Samt reyndist íslenzku frumbyggjunum þarvistin óhappasæl á marga vegu. Þeir voru vankunnandi og verkfærasnauðir og gátu því ekki notfært sér gæði landsins. Ýmiskonar óhöpp lögðust á þá eins og lamandi martröð.

Fyrst kom bóluveikin, sem hjó heljarskarð í hópinn smáa. Þá fundu þjakaðar mæður og þreyttir feður sárt til einangrunarinnar, er meinaði þeim að leita börnum sínum læknishjálpar.

Nokkru síðar virðist náttúran ganga öll úr skorðum. Winnipeg-vatnið flæddi yfir engjar og haga. Það varð hafsjór milli heimilanna en úr sumum húsum urðu fjöldskyldnar að flýja.

Þegar náttúran fór að gefa þeim grið virtist íllur andi vera komin í mannfólkið. Trúarþjark og prestarifrildi eyðilagði félagslyndi og stóð í vegi fyrir nágranna samtökum. Það eitraði loftslagið og þrengdi sér eins og banvænir sýklar inn í sálirnar. Það spilti hugró manna og heimilisfriði í mörgum tilfellum. Sízt að undra þótt sumir tækju nú að hugsa sér til hreyfis og vildu freista landnáms í betri bygðum.

Séra Páll Thorláksson varð fyrir hinum verstu vonbrigðum um líf og afkomu landa sinna í nýlendunni og ól litla von um betri tíma í Nýja-Íslandi. Hann hafði um skeið átt heima suður í Bandaríkjum og vissi sem var, að lífskjörin þar voru, að mörgu leyti rýmri og hagstæðari. Á leið sinni til Gimli hafði hann sagnir af stórum og óbygðum héruðum í Norður-Dakota, sem hentug myndu Íslendingum til búsetu. Hann gerði sér nú leiðir þangað suður til landkönnunar. Í fygld með honum slóust: Sigurður Jósúa Björnsson, Magnús Stephanson, Árni Þ. Björnsson, Jóhann P. Hallson og sonur hans Gunnar Hallson. Leizt þeim landspildan austanvert við hin svonefndu Pembinafjöll girnileg til ábýlis en var þó óbygt að mestu. Gekst nú séra Páll fyrir útflutningi frá Nýja-Íslandi þangað suður. Voru það eins og gefur að skilja einna helzt vinir hans og sóknarbörn, sem fylgdu honum þangað, þótt fleirum væri auðvitað heimilt að slást í förina.

Fróðlegt væri nú að eiga myndir og nákvæmar skýrslur um þennan búflutning.

Þarna fór flóttafólk frá plágum flóðs og drepsóttar að leita sér heimila og hamingju í nýju landi og óþektu. Þarna fóru heimilislausir húsfeður með geig glötunarinnar í hjarta sínu. En nú létu þeir sér mestu varða, að búa sér og sínum betra ból í hérvistinni. Fátt hafði þeim fénast í Nýja-Íslandi og lítil var búslóðin, sem þeir fluttu þaðan til landnámsins nýja. Menn bundu lélegan rúmfatnað og slitin, íslenzk vaðmálsklæði í klyfjar og hófu þær ýmist á herðar sér eða hengdu þessa bagga upp á horaða uxa eða vargbitnar mjólkurkýr. Jafnvel koffortin, sem margir höfðu haft með sér að heiman, voru nú oftast eftirskilin því þau voru of þung í flutningi. En ættargripina urðu menn að taka með sér. Þeir íþyngdu mönnum heldur ekki svo mjög, því þeir voru bæði fáir og smáir; skotthúfur með silfur hólkum, silfurbúnar neftóbaks pontur, kanske einn eða tveir skautbúningar og nokkrar bækur; þær fluttu Íslendingar altaf með sér því þar geymdist andans gróður vors kyns og upp af þeim frumstofni skyldi nýir ávextir vaxa ,hvar sem leiðir lægju. Þar var lífsspeki heillra kynslóða faldar í nokkrum ferhentum og hetjudáðir feðranna sagðar í sögum. Nei, bækurnar gátu menn ekki við sig skilið því það var eins notalegt að kveða úr sér kvíðahrollin í vínlenzkum vetrarhörkum, sem í íslenzku skemmdegi. Sá þótti vel efnum búinn, sem flutti með sér þrjár mjólkurkýr, fimm eða sex ungviði og einn eða tvo arðuruxa. Eitt var það dýrmæti er flestir höfðu eignast og margir fluttu með sér, það var ofurlítil eldavél. Ekkert húsgagn er eins bráð nauðsynlegt sem eldastóin og þótt við séum hættir að tilbiðja funann, finnum við heimilisylin sem helgandi blessun þegar eldur logar hið fyrsta sinni í frumbýlis kofanum. Þá fyrst er hann orðinn heimili og helgaður ást og samvinnu fjölskyldunnar.

Ef til vill lá þokudrungað loft yfir barrskógarbeltunum þegar útflytjendurnir lögðu hurðir að stöfum í bjálkakofunum í hinsta sinni, eða ef til vill glampaði ársólin á silfurlitað vatnið meðan lævirkinn söng þá úr hlaði. Hvernig sem veðrið var munu þeir hafa kvatt kofana sína með samblandi af söknuð og vonum.

Svo var lagt af stað með kveinandi börn og kvíðandi konur. Límkendur leirinn legst að fótum göngumannsins og vill halda honum föstum rétt eins og Nýja-Ísland vilji ekki sleppa

þessum fósturbörnum sínum frá sér út í óvissuna. Upp úr forinni verða menn að hnykkja sér í hverju fótmáli. Fénaðurinn er treggengur um þessar ókendu og slitróttu slóðir, milli skógar buskanna. Áfram er þokast eina, tvær, þrjár, fjórar dagleiðir til Winnipeg; til Winnipeg, stórborgarinnar! En hvaða erindi áttu þessir alsleysingjar til borgarinnar? Þeir urðu að tjalda þar utan borgar, sækja sér vatn í ár og tjarnir og hita sér kaffið á hlóðum eins og Indíánar. — Jú, í Winnipeg var náttúrlega margar nauðsynjar hægt að veita sér, væri gjaldeyrir fyrir hendi, en hann var nú heldur af skornum skamti í þeirra sveit. Borgin með glysvarning í búðargluggum og prúðbúið fólk á strætum úti, minti þá átakanlega á eigin örbirgð og umkomuleysi. Þarna áttu þeir ekki heima og þarna vildu þeir ekki eiga heima þótt þeir hefðu átt þess kost. Þarna dvöldu ekki svo fáir Íslendingar í þá tíð. Þeirra var helzt að leita niður í hyldjúpum skurðum þar sem grafið var fyrir vatnsleiðslu og saurrennum. Útlendingurinn verður að sætta sig við alt, en út á sléttunum við búskapinn er hann þó ekki öðrum minni né undir annan settur — og þeir hröðuðu sér burt frá borginni til óbygðanna.

Suður slétturnar var vegurnn vitund greiðfærari en samt var alt þetta ferðalag lýjandi. Þreytan lagðist eins og lamandi höfgi á menn og skepnur. Með sársauka var hvert fótmálið stigið af þessum illa skóuðu og fótasáru ferðamönnum. Það var farið að draga niður í börnunum, þeim tók að þrotna þróttur til að gráta en störðu undrunaraugum á þennan nýja heim. Mæðurnar hlustuðu kvíðandi og óttaslegnar. Þessi dauðaþögn var geigvænleg. Lífslindin í mjólkuræðum kúnna fór dvínandi, þær geltust með hverjum degi. Sumar höfðu engan dropa af þessum heilsugefandi lífs-elixer framar fyrir börnin sín, en slík var samúð og greiðasemi fólksins að þeir sem eitthvað höfðu miðluðu því til þeirra sem ekkert höfðu meðan af einhverju var að taka. — Fólkið er þelgott þótt rangsnúið mannlífs fyrirkomulag breyti innræti þess stundum til verri vegar.

Loksins eftir átta eða tíu daga ferðalag er numið staðar við landamærin og innflytjendurnir biðjast landvistar í Bandaríkjunum. Það leyfi er greiðlega gefið því þótt Bandaríkin væri auðug af flestu, skorti það þá fólk til að geta notað sér náttúruauðæfin að fullnustu, — og embættismönnum stjórnarinnar leizt þannig á landann, að hann myndi frekar til gagns

en hindrunar í framsókninni, þar syðra. Tollverðirir þurftu ekki lengi að tefja sig við að skoða þennan fátæklega farangur, sem Íslendingar fluttu með sér frá Nýja-Íslandi til landnámsins nýja.

Fögur og björguleg virtist Norður Dakota þeim í sumar sólskininu. Í kringum þá lá sléttan endalausa með græna grasfleti milli dimmblárra skóga. Blómskrúðið þakti þessa ósnortnu paradís og fuglarnir: lævirkjar, rauðbrystingar, þrestir og næturgalar virtust bjóða þá velkomna með söngvum sínum. Aftanskinið glampaði á Pembina hæðirnar, og þótt þær væru ekki háreistar, mintu þær samt á hin frónsku fjöll. Enn á ný voru þeir landnemar í hinu ferska óspilta ríki náttúrunnar. Vel fór um þá þessa fyrstu nótt í Norður Dakota, þótt þeir hvíldu ekki á fjaðurdýnum undir værðarvoðum. Náttúran bjó þeim breiða sæng á grænum grundum. Bjartar stjörnur, á heiðum næturhimni, virtist horfa niður til þeirra eins og altsjáandi augu guðs. Þeir sáu ekkert reiðiteikn á þessum heiðríkis himni. Kliður söngfuglanna blandaðist þægilega saman við skógarniðin þar sem kveldþeyrin lék á espilaufin eins og meistarar á hreimfagra hörpustrengi. Aldrei eru meiri líkindi til þess, að maðurinn gleymi öllu "guðsorða" fjasinu um glötun heims og guðsreiði en úti í náttúrunni á hlýjum og heiðríkum júní nóttum. Þessvegna gátu þessir þreyttu langferðamenn sofið vel og vongóðir í óskalandinu, sem þeir höfðu, eftir ótal hrakninga um höf og lönd, nú loksins hlotið sem óðal sitt, en ættland niðjanna.

Viðbrigðin voru að mörgu leyti mikil frá því sem þeir höfðu átt við að venjast í Nýja-Íslandi. Landið var miklu þurrara og greiðfærara fyrir plóginn, stórir grasfletir milli skógarrunna. Hér var heldur ekki þvílíkur flugnavargur sem yfir fenjunum í kringum Gimli og Íslendingafljót. Að hinu leytinu var hér heldur ekkert veiðivatn og langt að sækja til fiskjar niður í Rauðá, enda þar ekki þvílík uppgrip sem í Winnipeg-vatni. Héraveiði var helzt stunduð í Norður Dakota að vetrarlagi. Þessir meinlausu sakleysingjar gengu einatt í snörur hinna ungu Íslendinga og báru blessun í bú þeirra.

Þótt Rauðárdalurinn sé bæði fögur og frjósöm sveit, veittist öreigunum erfitt að afla ómögunum brauðs þar á landnámsárunum. Þá skorti svo margt til að gera jörðina sér undirgefna. Helzta úrræðið var að selja vinnuþol sitt til hinna betur fjáðu bænda á austur sléttunum. Hið afarfrjóa undirlendi

dalsins var þá albygt fyrir nokkru af norskum og þýzkum bændum og þeir komnir í allgóð efni. Til þeirra var nú leitað um atvinnu, um uppskerutímann og gafst yfir höfuð vel, þótt einstöku menn notuðu sér enskumáls vankunnáttu og auðtrygð landans og refjuðust um að greiða þeim kaupið. Þessi vinna var samt stopul og kaupið lágt. Það hrökk því skamt til að fæða fjölskylduna og bæta bústofninn. Til þess að rýmka hag Íslendinga og koma þeim á fastari fætur leitaði séra Páll til norskra trúbræðra sinna um samskot og urðu þeir vel við þeirri kvöð. Fyrir þetta fé var svo keyptur lífpeningur handa landanum. Fyrir forgöngu Haraldar Thorlákssonar, bróður prestsins, voru hestar og vinnuuxar keyptir og nú gátu Íslendingar farið að gefa sig meir að jarðræktinni. Leið nú ekki á löngu þar til bygðin tók að glómgast og var jafnan síðan ein af hinum beztu og hagsælustu nýlendum Íslendinga í Vesturheimi. Þangað tók líka fólk að streyma bæði frá öðrum bygðarlögum hér vestra og að heiman frá Fróni.

Frjálshyggja og framfarahugur hefir löngum þótt einkenna Bandaríkjamenn og urðu Dakota Íslendingar snemma fyrir þessum örfandi áhrifum. Frá engu íslenzku bygðarlagi hafa fleiri mentamenn komið og nægir þar að benda á fáein nöfn: Vilhjálmur Stefánsson, Dr. Brandson, Dr. Björnson, Dr. Halldórson, Grímson dómari, Hjálmar Bergmann dómari, Barði Skúlason lögmaður, Sveinbjörn Johnson prófessor, Magnús Brynjólfsson lögmaður, séra F. J. Bergmann, dr. Rögnvaldur Pétursson, séra Jónas A. Sigurðsson, Dr. Hjörtur Thordarson, Dr. Árni Helgason, Stephan G. Stephansson, S. K. Hall prófessor, og margir fleiri, sem hér eru ekki taldir. Þetta er álitlegur hópur, sem hver bygð gæti með réttu miklast af. Norður Dakota Íslendingar urðu einna fyrstir allra Vestmanna til að senda börn sín á æðri skóla. Meðan þau sátu á skólabekknum urðu þau eðlilega fyrir djúptækum áhrifum af hinum andlegu straumföllum, er brutu flestar stíflur í hinu unga, þroskavænlega þjóðlífi Vesturheims. Frjálslyndis og hugsjónaöld mikil hafði þá um skeið brugðið birtu yfir álfuna, meðan þeir héldu á pennum: Lowell og Longfellow, Paine og Emerson, Thoreau og Whitman, Channing og Parker, Jefferson, Ingersoll og Lincoln. Hugsjónir þeirra voru andans kraftfóður í öllum skólum — extra mura (utan veggja) að minsta kosti, og magnaði þá móði. Bárust svo áhrifin með náms-

mönnunum út í sveitirnar og fundu frjóan jarðveg hjá hinum gjörhyggna bændalýð Íslendinga í Norður Dakota.

Til þess að efla því betur þekkingu sína á þessum nýju viðhorfum stofnuðu þeir svo félag sem þeir nefndu "Hið íslenzka menningarfélag". Var stofnfundur þessa félags haldin í húsi Stephans G. Stephanssonar skálds 4. febr. 1888. Voru grundvallarlög félagsins, sem St. G. Stephansson hafði samið, lögð fram og samþykt án breytinga. Fyrsta greinin hljóðar þannig:

"Stefna félagsins er, að styðja og útbreiða menning og siðferði, það siðferði og þá trú, sem byggist á reynslu, þekking og vísindum. Í staðin fyrir kirkjulegan flokkadrátt, vill það efla mannúð og bræðralag; í staðin fyrir íhugunarlausa játning, skynsamlega og óhindraða rannsókn; í staðin fyrir blinda trú, sjálfstæða sannfæringu, og í staðinn fyrir heimsku og hleypidóma, andlegt frelsi og framför, sem engar hömlur eru lagðar á."

Undir þessa yfirlýsingu, ásamt félagslögum í 15 greinum, skrifuðu þessir menn nöfn sín, á stofnfundinum: Ólafur Ólafsson, Stephan G. Stephansson, Jónas Hall, Jacob Líndal, Ásgeir Líndal, S. B. Brynjólfson, Magnús Brynjólfson, B. Brynjólfson, Björn Halldórsson, Magnús Halldórsson, Gísli Sæmundsson, Arngrímur Jónsson, Jón Hjálmarson, Einar Jónasson, S. Tryggvi Guðmundsson, S. J. Björnson, S. Johnson, H. Thomson, Sigurður Einarson, B. Blöndal, A. Magnússon, B. Bjarnason, Kristján R. Casper, John Guðmundson, Bjarni Johnson, Tryggvi Pálson, Sveinn Björnson, Bjarni Jóhannsson, Gísli Jóhannsson, Björn Péturson, Jón Jónsson Hrafndal, Sigfús Salomon, Magnús Snowfield, Árni Árnason. (Nöfnin skráð eftir eiginhandar stöfun félagsmanna og er fróðlegt, að athuga hin ensku áhrif, þá undir eins á frumbýlisárunum). Engum, sem nokkuð þekkir til sögu Íslendinga í Dakota dylst að hér er mannval mikið og nærri því undantekningarlaust gáfuðustu mennirnir í þessum flokki.

Með því að athuga stefnuskrána verður undir eins ljóst hvað fyrir þeim vakti. Með þessari félagsstofnun ætluðu þeir að hamla á móti því kreddukenda trúar afturhaldi, sem hið nýstofnaða lúterska kirkjufélag virtist ætla að innleiða meðal Íslendinga í Vesturheimi. Þetta ætluðu félagarnir að gera með því að efla þekkingu sína og annara á frjálshyggju stefnum og vísindum þátíðarinnar. Þetta verður enn betur ljóst

þegar maður athugar efni þeirra fyrirlestra sem fluttir voru undir umsjá félagsins og bókakaup þess.

Undir eins á næsta fundi (23. febr. 1888) skifta félagsmenn sér í flokka til, að lesa og rannsaka ýmsar vísinda greinar, "svo sem náttúrusögu, trúarbragðasögu og skáldskap". Átti hver flokkur að lesa saman og velja svo einhvern úr sinni sveit til að flytja fyrirlestra um efnið, eða hefja umræður um það á fundum. Þessir fyrirlestrar voru fluttir: "Um Spiritisman (Ólafur Ólafson). Samband kirkjunnar og félagsins (Björn Halldórsson); Samræmi trúarbragða ýmsra þjóða (Ólafur Ólafsson); Undirstöðu atriði framfaranna (Sigurbjörn Stefánsson frá Winnipeg); Um Ingersoll (St. G. Stephansson). Fleiri fyrirlestrar voru fluttir án þess séð verði af fundarbókum um hvað þeir hafi fjallað.

Þá tóku félagsmenn þráfaldlega þátt í umræðum á almennum stefnumótum og háðu kappræður ef því var að skifta. Eggjuðu öll þessi ræðuhöld menn til að æfa málsnild sína og veittu mikla æfingu í listinni. Mun það hafa orðið þess valdandi, að frá Dakota hafa margir af okkar allra snjöllustu mælskugörpum komið.

Þá er eigi síður merkilegt, að athuga bókakaupin. Það var strax ákveðið, að kaupa bækur á þremur tungumálum: íslenzku ensku og dönsku. Þessar bækur skyldu fjalla um fræðileg atriði eingöngu. Hvar annarstaðar í Ameríku, munu bændur hafa keypt og lesið bækur, á þremur tungumálum, um náttúruvísindi, sálfræði, skáldskap, þjóðhagsfræði og samanburðar trúfræði? Stundum var háðsorðum að þeim vikið fyrir vísindamenskuna, af þeim er töldu það þarfara, að gefa sig einungis við búskapnum. Þessi aðköst voru ósanngjörn og barnaleg. Mennigarfélags bændurnir stóðu ekki öðrum á sporði um verklegar framfarir, síður en svo. Þeir ruddu landið með dugnaði, ræktuðu það með árvekni, hlyntu að framförum síns sveitarfélags engu síður en aðrir. Þeir vildu vera þjóðnýtir bændur —og þeir vildu vera þroskaðir, heilsteyptir menn. Þeir vildu vera landnemar og brautryðjendur á fleiri en einu sviði. Þeir vildu vera góðir Íslendingar með því að auka hróður ættlandsins í vesturvegi, og hvernig gátu þeir það betur, en með því að viðhalda þeirri frægð er Frón hafði fengið fyrir að eiga sér bókelskari og siðmentaðri bændastétt en önnur lönd? Þeir vildu reynast þarfir þegnar í kjörlandinu, og hvernig gátu þeir sýnt það betur en með því að kynnast þeim lífsstraumum, sem féllu

um andans akur Vínlandsbúa á þeim tímum? Þeir vissu að við frelsi og sólarljós sannleikans þroskast vitið og manndómurinn fljótast og bezt. Þeir höfðu dæmin fyrir sér, að heiman. Hvar dafnaði alþýðu menningin fyrst og fljótast á Fróni? Hvar nema í hinu frjálsmannlega félagsloftslagi þingeysku uppsveitanna, svo þaðan runnu andlegir áveitustraumar út yfir landið og frjófguðu jarðveginn. Höfgi svefnþungans getur jafnvel runnið á heilagan anda í innibyrgðu andrúmslofti, þar sem flest er tekið trúanlegt án rannsóknar; þar sem það er talin höfuð synd að efast um arfgengar kenningar. Hann er þeim helzt til aðstoðar er glíma djarfmannlega við hin dýpstu rök og ráðgátur tilverunnar. Þar, í Vesturheimi, sem Íslendingar hafa æft sig mest að þeirri iðju hafa vorir andlegu hæfileikar náð mestum þroska. Það er ekki af tilviljun að hávaðinn af okkar mestu andans mönnum koma frá Nýja-Íslandi, Norður Dakota og Winnipeg.

Menningarfélagið varð aldrei fjölment í Norður Dakota. Undir niðri voru margir hræddir við áhrif þess, enda gættu sumir meðlimir þess stundum ekki þess hófs, sem vera ber, þegar rætt er um tilfinningamál mannanna. Það hafði samt mikil áhrif á nýlendulífið. Það var ekki að ástæðulausu, að ungir Íslendingar frá þeirri bygð brutu sér fyrstir brautir til frama í Bandarískum skólum og að þessi eina nýlenda framleiddi svo marga ágætismenn. Uppeldið á heimilum fróðra og sannleiksleitandi feðra eggjaði synina til fróðleiks og framfara. Samræðurnar heima höfðu gefið þeim góða æfingu í því, að greina rétt frá röngu, sannleikann frá yfirhylmingum, hismið frá kjarnanum. Það hjálpaði Stephani G. til að verða höfuðskáld og Vilhjálmi Stefánssyni til að verða þvílíkur afburða vísindamaður á sínu sviði.

Í Minningarritinu um 50 ára búsetu Íslendinga í Dakota er margt fróðlegt og gott en samt finst mér vísan hans "Káins" taka þar flestu fram.

"Sumir, sem leyst hafa af sálunum bönd,
í sveitum þá orðið var hljótt,
þeir sofnuðu þreyttir með sverðin í hönd
og sofa við brjóstin þín rótt."

Við stöndum allir í þakklætisskuld við landnemana, því þeirra vegna þykir nú sómi að teljast Íslendingur. Frelsis-

frömuðunum höfum við þó mestar þakkir að gjalda, þeim, "sem sofnuðu þreyttir með sverðin í hönd", því þeirra vegna hefir vor íslenzki arfur ávaxtast í vestrænu þjóðlífi.

Þessir Dakota frumherjar voru stórhuga. Þeir hugsuðu sér að stofna eitt allsherjar Menningarfélag meðal allra Vestur-Íslendinga og koma af stað almennu fréttablaði. Ekkert varð samt úr því að blað væri stofnað, en félagið hlynti, eftir getu, að Nýju Öldinni, einu albezta tímaritinu, sem á íslenzku hefir verið prentað. Ritstjóri þess var Jón Ólafsson og hafa ekki hæfileikar þessa ritsnillings á öðrum vettvangi betur notið sín. Geta má þess að Menningarfélagið leitaði eitt sinn hófanna, að fá Valdimar heitinn Ásmundsson hingað vestur til að gerast ritstjóri.

Ekki fékk heldur félagsskapurinn þá útbreiðslu, sem hann átti skilið. Sjálft varð það ekki langlíft í Norður Dakota. Olli því, að mestu, útflutningur úr bygðinni. Íslendingar hafa altaf verið æfintýra-gjarnir og fúsir að brjóta sér brautir á óruddum leiðum, enda farið að þrengjast um þá í Dakota. Fluttu nú margir til Winnipeg en aðrir til Alberta eða vestur til Kyrrahafs. Mestur skaðinn þó fyrir Menningarfélagið, að forningjarnir fóru, Skafti Brynjólfsson til Winnipeg en Stephan G. Stephansson til Alberta. Hafði Skafti verið forseti félagsins en Stephan skrifari. Þegar til Winnipeg kom gekst Skafti og aðrir, fyrir stofnun Menningarfélagsins þar. Spratt unitara félagsskapurinn að miklu leyti upp af þeirri rót.

Tregir reyndust lútersku prestarnir til að ganga á hólm við fríhyggjumennina í opinberum kappræðum, en það væri þó synd að segja, að þeir hafi gefið þeim lítinn gaum. Séra Jón Bjarnason ritaði skammagrein af mikilli óbilgirni um félagið í Sameininguna undir eins og það var stofnað. Séra Friðrik J. Bergmann átti altaf í höggi við það og óbeinlínis voru margir af fyrirlestrunum í Aldamótum, ársriti kirkjufélagsins, til þess stílaðir.

Kemur nú til þess að lýsa lúterskunni í Ameríku, en þó einkum áhrifum hennar í Norður Dakota.

Því er nú þannig farið með lútersku sem fleiri trúarbrögð, að þau birtist í tveimur myndum; guðfræðilegum kennisetningum og alþýðu trú. Hinn guðfræðilegi grundvöllur lúterskunnar, þ. e. a. s. ómengaðrar lútersku, hefir lítið breyst síðan á miðöldum. Það er handhægast að lýsa henni með því að

rekja örlög sálnanna eins og kirkjufeðurnir, í hinni evangelisku lútersku kirkju hugsuðu sér þau:

Í upphafi skapaði guð þau Adam og Evu og gaf þeim óðal í Paradís þar sem þau skyldu um eilífð dvelja í syndlausri sælu, svo þar þektist hvorki þjáning né dauði. Svo kom Satan til Paradísar og tældi Evu til að éta eplið af skilningstrénu í forboði guðs. Þessari óhlýðni reiddist guð svo gífurlega, að hann lagði bölvun sína yfir konuna og alt hennar sæði, þ. e. a. s. hennar afkvæmi um aldur og æfi. Úr því formóðurin Eva hlýðnaðist djöflinum fremur en drotni gerðist hún og hennar afkvæmi þegnar Satans og erfðafé og til helvítis dóu þau að hérvistinni lokinni. Eftir nokkur þúsund ár fór guð að kenna í brjóst um mannfólkið og þótti ilt til þess að vita, að allir færu til andskotans. Urðu það þá úrræði hans að senda son sinn, sem er jafnframt önnur persóna hinnar guðlegu þrenningar, til jarðar í mannsmynd svo mannkynið í grimd sinni og heimsku mættu hann krossfesta og deyða. Fyrir þann höfuðglæp hljóta syndarar tækifæri til frelsunar frá reiði guðs, sem lagði á okkur erfðasynd og örlög glötunar. Hugmyndin er að Jesú hafi með blóði sínu, kvöl og dauða borgað fyrir allar syndir og yfirsjónir mannanna. Uppgjöf saka er samt því skilyrði bundið, að menn tileinki sér náðina með hinni einu sönnu og sáluhjálplegu trú, þ. e. a. s. trúi því að alt þetta sé guðdómlegur sannleikur.

Að hér sé rétt með farið er auðvelt að sanna. Seint á nítjándu öld kom út trúfræðirit, "Höfuðgreinar trúarinnar", eftir þáverandi prestaskólakennarana í Reykjavík, Pétur Pétursson og Sigurð Melsteð, þar sem í engu er frá þessum grundvelli vikið og öllum var kunnugt um, að Helgi Hálfdánarson, fyrverandi lector skólans var strang lúterskur. Hér í Vesturheimi kom út bók árið 1912, eftir Þorstein Björnsson guðfræðing, sem hann nefnir "Höfuðlærdóma". Hún hefir að geyma endurtjáning á grundvallar atriðum lúterskrar guðfræði og segist höfundurinn hafa borið ritið undir umsögn og dóm þessara presta í Kirkjufélaginu: Séra Jóns Bjarnasonar, séra Rúnólfs Marteinssonar og séra Hjartar Leos og hafi þeir allir tjáð hans umsögn rétta og í samræmi við gildandi skilning Kirkjufélagsins. Þar sem engin mótmæli komu frá þessum mönnum; mér vitanlega, viðvíkjandi þessari staðhæfingu hlýt eg að taka frásögn hans gilda sem laukrétta tjáning á trú þessara manna

og þá um leið hinn eina og sanna guðfræðis grundvöll Hins evangeliska íslenzka kirkjufélags í Vesturheimi.

Hér eru tilfærð orð ritsins um örlög manna þessa heims og annars:

"Dauðinn er samkvæmt heilagri ritningu áskapaður manninum við syndafallið. Hlýtur hann samkvæmt því að álítast refsing og böl, annars hafði manninum verið ætlað, ef hann hefði ekki hrasað, að lifa lífi sínu hér á jörðinni um eilífðar tíðir í friði, og undir föðurvernd guðs. . . ."

"Það er kenning lúterskrar trúar, að annað líf taki við af þessu. Er andinn að guðsboði fluttur af englum til bústaða drottins—þeirra sem guðsbörn deyja. Hinna sálum er vísað til bústaða djöfulsins og fordæmdu englanna, og búa þar við voðalegar þrautir. En bústaðaskiftin fara eftir því, hvernig hinn framliðni hefir skilið við heiminn; hvort það hefir verið í iðrun og trú, eða í vantrú og þrjósku við guðs orð. Framferði mannsins í lífinu kemur aðeins til greina, sem undirbúningur undir og aðdragandi að viðskilnaðinum í andlátinu. Í andlátinu er síðasta tækifærið fyrir vantrúaða að hafna hinu illa, og snúa sér til guðs í iðrun og trú. . . ."

"Sálir mannanna dvelji í öðrum heimi fram að upprisunni. Þá sameinast sálirnar aftur líkömunum. Jafnt illir menn sem góðir upprísa."

"Eftir upprisuna kemur dómurinn eða hinn efsti dómur. Hann kemur fram á þann hátt, að frelsarinn setur á jörðina guðlegan veldisstól, sem hann sveif á frá himnum ofan. Lætur hann þá engla sína kalla á hverja einustu mannveru og leiða þá fram fyrir dómstól sinn, til að hlýða þar dómsákvæði sínu. Kveður hann upp úrskurð sinn um hvern einstakann, jafnskjótt sem hann hefir rannsakað líf hans, — það, sem um er dæmt, er í aðal efninu hið sama og í fyrri dóminum (þ. e. a. s. dómi guðs á dauðastundinni); ræður úrskurðinum það, hvort hinn framliðni hafi verið **sanntrúaður kristinn maður, eða þverúðarfullur gagnvart guði.** Svo ber að ætla, sem hinn síðasti dómur verði yfirleitt staðfesting á dómi guðs á dauðastundinni; sá sem þá var náðaður verður nú náðaður; þeim, sem þá var útskúfað, verður nú útskúfað. En dómsákvæði hins efsta dóms verður annaðhvort: **eilíf sæluvist, eða eilífar þjáningar.**"

Eg veit vel, að fjöldi fólks í lúterskum sið kannast ekki við þetta, sem sína trú, kannast ekki við, að þetta sé sú trúarskoðun, sem því var innrætt í heimahúsum af foreldrum, sem álitu sig lútersk. Þetta er líka alveg rétt; alþýðan íslenzka hefir, að minsta kosti í seinni tíð, valið og hafnað kenningum klerkanna að eigin góðþótta. Sigurður Nordal bendir á þá staðreynd, í bók sinni um íslenzka fornmenningu, að Íslendingar hafi snemma vaxið upp úr Ásatrúnni og sniðið úr goðsögnum hennar þá lífsspeki, er þeim gæti að nokkru gagni komið. Íslendingar vaxa líka upp úr hugkvíum lúterskunnar á seinni öldum; gleyma guðfræðinni, en mynda sér sjálfstæðar og lífvænar trúarskoðanir upp úr miðalda kennisetningunum. Þessi alþýðu lúterska var miklu skynsamlegri og mannúðlegri en guðfræðin gamla. Um þessa alþýðlegu trú má margt gott segja. Guðstraustið var mikið og mörgum til styrktar í lífsbaráttunni. Krists ástin var einlæg og mildaði skapið og göfgaði innrætið. Guð varð þeim höndin, "sem heldur þessum reyr um hæðstan vetur svo hann ekki deyr". Kristur kom þeim ekki fyrir sjónir, sem strangur dómari, heldur sem "bróðir og vinur alls, sem er." Hann varð kennarinn mikli og hollur leiðsagnari á lífsgöngunni. Hann varð ellinni huggun í einverunni og "öllum mönnum hjálparráð". Hann varð hetjan mikla í freistingunum og fyrirmyndin á þjáningunum. Í guðsríkisskini hins milda og mannúðlega Krists dregst mátturinn úr djöfliskunni. Andskotinn varð nú ekki ægilegri en það, að ráðslyngur Íslendingur getur þrælkað hann sem þurs. Brjóstvit þjóðarinnar lagði ekki út í rökræður um Satan; það stakk honum bara í líknabelg og lagði hann á altarið hjá Sæmundi meðan presturinn söng honum hvítagaldur er dró úr honum mátt og megin. Nærri mátti nú geta hvert guð gæti ekki við hann ráðið fyrst Sæmundur fróði gat meðhöndlað hann eins og barn. Frá helvítis kvölum bjargaði þjóðsagan Jóni stórsyndara í skjóðunni, sem trúföst eiginkona bar, í ólofi englanna, til paradísar. Satan er komin að sunnan, en þar var drenglyndis hugmyndin norræna óþekt hugtak. Hennar vegna getur naumast nokkur ósturluð íslenzk sál hugsað sér nokkra veru án verndarvættar; þessvegna varð þjóðsagan til um sálina hans Jóns míns og goðsögnin um Loka, Lucifer Norðurlanda.

Svo er líka önnur orsök til þessarar þróunar. Í trúnni leita menn sér trausts og huggunar, en það eru fáir menn svo illfúsir, að þeim sé huggun að helvíti, enda þótt þeir þættust kunna

einhver ráð til að firra sig þeim forlögum, að lenda þar. Að hinu leytinu hlýtur það að veikja guðstraustið, að vita djöfulinn svo máttugann, sem gamla guðfræðin gefur í skyn. Þessvegna óx alþýðan íslenzka smátt og smátt upp úr miðalda djöfliskunni og prestarnir á stólnum vöndust smámsaman af því, að prédika um eilífa glötun á kirkjunum. Eigi þarf nema bera saman sálmabókina frá 1886, við gamla Grallarann til að sannfærast um þetta. Samt var þessi sálmabók gefin út undir handleiðslu Helga Hálfdánarsonar, sem óhætt má telja einn af síðustu málsvörum "rétttrúnaðarins" svokallaða á Íslandi. Þrátt fyrir það minnist hún naumast á djöful, útskúfun, helvíti og reiði guðs.

Þennan alþýðlega kristindóm fluttu nú íslenzku landnemarnir vestur um ver og hér varð þessi mildilega frjálstrúarhyggja fyrst fyrir verulegum árekstri frá þýzk-amerísku lúterskunni. Til þess liggja auðvitað orsakir, sem nú skal reynt að rekja.

Þess var áður getið, að fylgismenn séra Páls og Missourisynodunnar hafi einna helzt flutt frá Nýja-Íslandi til nýlendunnar í Dakota. Hefir séra Páll oft verið nefndur faðir þeirrar nýlendu og má það til sanns vegar færa. Hann var óþreytandi í umhyggju sinni fyrir velferð fólksins og duglegur og röggsamur til framkvæmda meðan heilsan entist. Leitaði hann oft til amerískra trúbræðra sinna um hjálp fyrir frumbýlingana. Stóðu Dakota Íslendingar í stórri þakklætisskuld við hann og félagsbræður hans í Norsku synodunni, fyrir alla þá hjálpsemi. Hafði hann því að sjálfsögðu mikil áhrif á félagsstefnur bygðarbúa. Strax á fyrstu árum tók hann að stofna söfnuði. Hinn fyrsti þeirra, Park-söfnuður var stofnaður árið 1880 og tveir fleiri á næsta ári: Víkur-söfnuður, þar sem nú er Monutain, N. Dak., og Tungár-söfnuður, austar í bygðinni. Auðvitað aðhyltust allir þessir söfnuðir trúarskoðanir séra Páls og synodunnar að miklu leyti og hún hafði víst ekki tekið neinum breytingum síðan hann deildi við séra Jón í Nýja Íslandi. Séra Páls naut samt ekki lengi við. Hann hafð þjáðst af tæringu, lungna berklum. Mun hann oft hafa ofboðið kröftum sínum í þarfir Íslendinga og tók nú veikin að ágerast. Þessi einkennilegi, og að mörgu leyti merkilegi maður andaðist að Mountain vorið 1882.

Andi þessa brautryðjanda sveif lengi yfir vötnunum í Vesturheimii og sveigði hugi ýmsra Íslendinga til trúarlegs

afturhalds. Kom það víða fram, að lútersku söfnuðirnir fyrir sunnan "línuna" voru afturhaldssamari en þeir canadisku á fyrri árum. Má það nokkuð til marks hafa, að tveir þeirra vildu engan vegin ganga í Kirkjufélagið á stofnfundi þess, árið 1885 af því félagið ætlaði að veita konum málfrelsi og atkvæðisrétt á safnaðarfundum, þvert ofaní skýlausar skipanir Sánkti Páls, sem býður þeim að þegja á þeim samkundum en spyrja menn sína heimuglega um framgang málanna. Frændur og vinir séra Páls sáluga höfðu þá mikil héraðsvöld í kringum Mountain. Þetta verður maður, að hafa hugfast þegar gera skal grein fyrir því, sem síðar gerist þar syðra og olli stefnumörkum í Lúterska kirkjufélaginu.

Eftir andlát séra Páls kom séra Hans Thorgrímsson til safnaðanna í Dakota. Séra Hans var ættaður frá Eyrabakka og kom ungur, seytján ára, til Ameríku í fylgd með séra Páli Thorlákssyni, enda frændi hans. Hafði hann stundað nám í Latínuskólanum heima en gekk hér í Missouri-prestaskóla og útskrifaðist þaðan sem guðfræðingur. Margt var vel um séra Hans. Hann var drengur góður, söngmaður með afbrigðum og glæsimenni hið mesta að vallarsýn. Í þessu lágu klerklegir kostir hans fremur en andlegri djúphygni, eða ritmensku og málsnild. Hann var eins og við mátti búast mótaður af guðfræði Missouri-manna og gætti þess einkum á fyrstu prestskapar árum hans. Enginn var hann bardagamaður en friðelskandi og hógvær oftast.

Hann kemur því lítt við deilumálin enda fékst hann lítið við ritstörf. Hann kom ungur til álfunnar og náði aldrei fullu valdi yfir íslenzkunni hvorki í ræðu eða riti enda lengur prestur í norskum en íslenzkum söfnuðum.

Eitt afrek liggur samt eftir hann, stofnun Hins evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi. Í blaðinu Leifur (Winnipeg, 3. jan. 1885) er skýrt frá upptökum málsins á þessa leið:

"Séra Hans hefir nýlega verið hér í Winnipeg, og var mál þetta (kirkjufélags myndun) borið upp og rætt á safnaðarfundi Íslendinga. Tók söfnuðurinn því vel. Sendi menn á hinn fyrirhugaða fund, og lét í ljósi eindregna ósk um það, að Íslendingar nyrðra og syðra fengi að sameinast í kirkjulegu tilliti. Enda eru miklar líkur til, að hepnist sú sameiningar tilraun, þá muni fleira gott á eftir fara."

Nú var tekið að vinna að þessari félagsstofnun bæði syðra og nyrðra. Var fundur haldin, af kjörnum fulltrúum bæði frá Winnipeg, Argyle og Nýja-Íslandi og safnaðanna í Dakota, dagana 23. og 25. jan. 1885. Var þar svohljóðandi tillaga frá séra Hansi samþykt: Þar sem vér, Íslendingar í Vesturheimi, stöndum á einum og sama trúargrundvelli, þá ættum vér allir að mynda sameiginlegt kirkjufélag."

Þá voru bráðabirgðar frumvörp til grundvallarlaga framlögð og komu þau frá fulltrúum Víkur og Parks safnaða í Dakota. Þar sem Stephan G. Stephansson, skáldið mikla, var þá skrifari Park-safnaðar og annars altaf kvaddur til ráða um öll helztu bygðarmál, má búast við að hann hafi átt einhverja hlutdelid í þessu frumvarpi til kirkjufélags laga. Engin lagagrein sætti aðfinslum nema sjötta greinin er gaf kvenfólki jafnrétti við karla í safnaðar málum. Um hana urðu talsvert heitar umræður og stóð presturinn, séra Hans, og náfrændur séra Páls sál. helzt að þeirri mótspyrnu. Samt var hún samþykt með 18 atkvæðum gegn 8.

Næst varð nú að bera þetta lagafrumvarp undir söfnuðina og var bráðlega að því undið. Þegar samþykki flestra safnaðanna var fengið boðaði séra Jón Bjarnason, samkvæmt fyrirmælum Mountain fundarins, til hins fyrsta kirkjuþings, í Winnipeg 24. júní um sumarið. Þessir fulltrúar voru mættir: Stefán Guðmundsson (Stephan G. Stephansson) og Jónas Hall frá Park-söfnuði; Sigurður Mýrdal frá Pembina-söfnuði; Ólafur Guðmundsson frá Little Salt-söfnuði; Guðmundur Björnsson og Þorsteinn Jóhannesson frá Tungársöfnuði; Gísli Jónsson frá Austur-Sandhæða-söfnuði; Magnús Pálsson, Páll S. Bardal, Baldvin L. Baldvinson, Árni Friðriksson og séra Jón Bjarnason frá Winnipeg-söfnuði; Bjarni Jónsson og Friðrik Jónsson frá Fríkirkjusöfnuði í Argyle-bygð; Kristján Kjernisteð frá Syðri-Víðinessöfnuði; Jónas Stefánsson frá Nyrðri-Víðinessöfnuði; Gísli Jónsson frá Árnes-söfnuði; Friðjón Friðriksson frá Breiðuvíkur-söfnuði og Benidikt Pétursson frá Bræðrasöfnuði.

Þar sem tveir söfnuðir: Garðar og Víkur-söfnuður höfðu ekki fengist til að undirskrifa kirkjufélagslögin sökum ákvæðisins um jafnrétti kvenna, tóku fulltrúarnir þaðan ekki sæti sem þingmenn með fullum réttindum í þingbyrjun, þótt þeim væri þá þegar veitt málfrelsi. Þessir fulltrúar voru mættir frá þessum tveimur söfnuðum: séra Hans Thorgrímsson, Sigurður

Jósúa Björnsson og Þorlákur G. Jónsson frá Víkursöfnuði; Friðrik J. Bergmann og Eiríkur H. Bergmann frá Garðar-söfnuði. Þetta kvenfrelsismál olli miklum flokkadrætti bæði innan og utan safnaða og sýnir máske betur en flest annað, hversu menn getur borið af leiðum, sanngirnis og sáttfýsi með því að þræða bókstafsvegi biblíunnar. Loks var málið leyst með nokkurri tilslökun af beggja hálfu og fulltrúar allra safnaðanna hlutu full þingréttindi. Með þessari tilslökun fór þetta kirkjuþing mjög að dæmi allra annara kirkjuþinga alt frá Nikeu-þinginu fræga árið 225 e. K. Þau hafa öll slakað til og samið sínar trúarjátningar, sem samkomulags grundvöll andstæðra flokka og andvígra stefna.

Um þau lög, sem þarna voru samþykt, þarf ekki mikið að segja. Þau voru í öllum aðal atriðum sniðin eftir skipulags lögum þjóðkirkjunnar á Íslandi. Þingið stóð yfir í fjóra daga og fór mjög friðsamlega fram segir séra Friðrik Bergmann (Almanak Ó. S. Thorgeirssonar árið 1906).

Það er athugunarvert, að á þessu fyrsta kirkjuþingi sitja margir af þeim mönnum, er litlu síðar verða helztu mótstöðumenn þess og stofna enda félag til að veita áhrifum Kirkjufélagsins lúterska viðnám. Þessu til sönnunar nægir að benda á nöfnin: Stephan G. Stephansson, Jónas Hall, Baldvin L. Baldvinson, Kristján Kernisteð og Sigurður Jósúa Björnsson. Þessir menn munu hafa verið fúsir til samvinnu og reiðubúnir til að viðhalda kristnu safnaðarlífi á alþýðlegum, íslenzkum trúargrundvelli, en trúar þröngsýnið frá þýzk-norsku synodunum aftraði þeim, að eiga varanlega samleið með foringjum þessa félagsskapar.

Í andrúmslofti afturhalds og fátæktar var þetta kirkjufélag stofnað. Af þeim fjórtán söfnuðum, sem áttu sér erindreka á þinginu, átti einn þeirra aðeins þak yfir höfuð sér, þ. e. Víkursöfnuður á Mountain, og var þó kirkjan ekki fullger. Þetta var allstórt hús, 48 fet á lengd en 28 á breidd og rúmaði um 200 manns í sæti. Gerð var hún úr trjáviðarbolum eins og íbúðir nýlendubúa á hinum fyrstu árum.

Mjög hefir hinn ytri hagur félagsins vaxið síðan. (Eftirfarandi er tekið úr skýrslum, sem komu í hinu einkar fróðlega fimtíu ára Minningarriti félagsins samið af próf. R. Beck). Árið 1930 voru skuldlausar eignir þess metnar á $230,416. Þessi innstæða var auðvitað mest í kirkjubyggingum og svo gamalmennahælinu á Gimli. Alls hefir félagið eignast 58

kirkjur en ekki munu guðsþjónustur vera fluttar í fleiri en liðlega þrjátíu sem standur og í einstöku þeirra aðeins mjög sjaldan. Flestir hafa söfnuðirnir orðið 62 með 8,390 meðlimum. Nú munu ekki fleiri en liðlega þrjátíu söfnuðir starfandi. Flestir urðu starfandi prestar kirkjufélagsins 18 en munu nú vera 12 (þ. e. a. s. í íslenzka kirkjufélaginu). Kirkjufélagið hefir verið framtakssamt á margan hátt og mjög áhrifaríkur félagsskapur í menningar og félagslífi Vestur-Íslendinga. Án kirkjulegra samtaka hefði ísl. félagsskapur trauðla þrifist hér vestra fram til þessa. Kristnihald var auðvitað höfuð starfið. Messur hafa verið fluttar í flestum bygðum Íslendinga og sunnudagaskólar starfræktir. Fór öll kristindóms fræðslan, í fyrstu, fram á íslenzku en nú er svo komið að enskan er notuð í öllum sunnudagaskólum og messur fluttar í öllum söfnuðum á báðum málunum. Árið 1929 voru 35 sunndagaskólar starfandi með 249 kennurum en 2,220 nemendum. Síðan hefir sunnudagaskólunum fækkað og nemendatalan lækkað í flestum þeim skólum, sem enn eru við líði. Unglingafélög "Bandalög", sextán að tölu með 700 meðlimum, voru starfandi árið 1935, en fá eru nú starfandi. Þess má líka geta, að einn af prestum félagsins, séra Octavíus Thorláksson, starfaði sem heiðingja trúboði í Japan í mörg ár og styrkti félagið það trúboð með fjárframlögum, þótt það bæri víst aldrei allan kostnaðinn.

Einn þátturinn í kristindóms starfi kirkjufélagsins hefir verið útgáfa tímarita og bóka. Á hinu fyrsta kirkjuþingi þess hreyfði B. L. Baldvinson því máli, að nauðsynlegt væri að kirkjan ætti sér málgagn. Má því segja, að hann ætti frumkvæðið að útgáfu "Sameiningarinnar", er hóf göngu sína í desember mánuði 1885 og komið út jafnan síðan. Gerðarbók, þingtíðindi, hefir fél. látið prenta frá árinu 1901 til þessa. Ársrit gaf það einnig út, Aldamót, frá árinu 1891 til 1903 og svo Áramót, frá 1905 til 1910. Úr öllum þessum ritum er hægt að fá mikinn fróðleik um félags og menningarmál Vestmanna. Auk þessa hefir það annast um útgáfu þessara bóka: Sálmabókarinnar 1915, Sálmabókar Bandalaganna 1912, Skáldsögunnar Ben Hur í þýðingu séra Jóns Bjarnasonar (sérprentun úr Sameiningunni), Helreiðarinnar eftir Selmu Lagerlöf, þýðing séra Kjartans Helgasonar (einnig sérprentun úr Sameiningunni), og allmörg fleiri rit og bækur viðkomandi kristindóms uppfræðslu barna og unglinga.

Snemma var hugsað til skólahalds, er veita mætti ungling-

um undirstöðu þekkingu í íslenzkri tungu og lúterskum trúargreinum. Fyrst var horfið að því ráði, að stofna kennara stóla við hérlenda mentaskóla. Gerðist séra Friðrik J. Bergmann kennari, á vegum Kirkjufélagsins, við Wesley College í Winnipeg (1901—1909), en Magnús Magnússon gegndi sama embætti við Gustavus Adolphus College í Minnesota-ríki (1905—1909). Árið 1910 var þessi kensla aftur upptekin við Wesley College með séra Rúnólf Marteinsson sem kennara er hélt þessu embætti í þrjú ár. Árið 1913 var sjálfstæður miðskóli, Academy, stofnaður og nefndist Jóns Bajrnasonar skóli í minningu um séra Jón heitinn Bjarnason. Var séra Rúnólfur oftast forstöðumaður hans. Stóð hann um sinn með talsverðum blóma og komst nemenda talan hæðst upp í 106, veturinn 1932—33. Síðan hrakaði hag hans og er hann nú aflagður.

Í flestum söfnuðum hafa kvenfélög verið stofnuð. Hafa þau unnið mörg og blessunarrík líknarstörf á fjölmörgum sviðum. Þau hafa líka verið meginstoð margra safnaða. Myndu margir söfnuðir hér vestra hafa átt sér skamman aldur ef kvenþjóðarinnar hefði ekki notið við — þótt nokkrir þeirra vildu ekki veita þeim atkvæðisrétt eða málfrelsi á fundum fyrst í stað. Af líknarstarfsemi kveður auðvitað mest að elliheimilinu Betel, sem félagið hefir starfrækt með ágætri aðstoð kvenfélaganna síðan árið 1915. Rúmar það nú um sextíu vistmenn en fullnægir þó hvergi nærri eftirspurn. Má það hiklaust teljast meðal þörfustu stofnunum Íslendinga í Ameríku. Átti frú Lára, kona séra Jóns Bjarnasonar, frumkvæði að stofnun þess, en Dr. B. J. Brandson og margir aðrir mætir menn, unnu af miklum áhuga að velferð þess. (Mun seinna meira rætt um þetta mál).

Sjá má af þessari skýrslugerð, að félagið hefir verið athafnadrjúgt og áhrifamikið. En slík greinagerð hermir þó fátt um hin innri hag þess og áhrif. Það útskýrir ekki ástæður fyrir hinum óvægu deilum, sem sundruðu Íslendingum. Það gefur engar ábendingar um orsakir fyrir því að svo margir söfnuðir ganga úr Kirkjufélaginu en aðrir klofna fyrir trúarágreining. Það upplýsir ekki þá staðreynd að sex af prestum þess, þeir: séra Magnús Skaptason, séra Oddur Gíslason, séra Hafsteinn Pétursson, séra Friðrik Bergmann, séra Halldór E. Johnson og séra Kristinn K. Ólafsson, verða að hætta störfum í félaginu af því þeir lenda, að einhverju leyti, í andstöðu við anda og stefnur hins evangeliska lúterska kristindóms eins og

hann er skilinn og útþýddur í Kirkjufélaginu. Ekki verður þeirri hugsun varist að félagið hafi átt sinn þátt í því að vekja og viðhalda þeim deilum, sem oftast urðu meira til að sundra en sameina, svo guðsríkisgróðurinn dofnaði fremur en dafnaði í þeim hretviðrum. Aðstæður tímanna og utanaðkomandi áhrif hafa, að sjálfsögðu, ýft þetta ósamlyndi en félagið sjálft beygt þegar í upphafi inn á þær brautir, sem hlutu að olla árekstrum á þessari uppleysingar og upplýsingar öld.

Theodor Roosevelt forseti sagði, "að mennirnir gætu aðeins valið um stefnur." Séu lífsstefnur þjóða eða einstaklinga rangar, beri þá æ lengra af leiðum, svo afturhvarf reynist erfitt eða jafnvel ómögulegt, svo áfram er haldið á helvegum þar til alt strandar á örlagaskerjum. Stefna Hins evangeliska lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi var afmörkuð við fæðingu þess í Norður Dakota fyrir sextíu árum síðan og þeirri stefnu hefir það haldið þar til það nú leitar sér halds og skjóls hjá hinu þýzk-norska trúarafturhaldi í Ameríku. Frá Norður Dakota lágu leiðir lúterskunnar út í íslenzku nýlendurnar — en hvað réði stefnan og hverjir stjórnuðu förinni?

Áður leitast er við að svara, er bezt að athuga veðrabrigðin í andans heimi Íslendinga hér vestra um það leyti, sem félagið fæddist. Þar mætast tveir andstæðir straumar. Annar átti upptök sín í vaxandi frjálshyggju og víðsýni hins unga, bandaríska lýðveldis en hinn kom frá hinu innflutta trúar aðhaldi klerkanna frá Þýzkalandi og frá Noregi. Í þessum löndum höfðu þær vísindalegu frjálstrúarstefnur, er síðar gagntóku þessar þjóðir enn þá ekki náð til alþýðunnar að nokkru ráði. Framh.



**Ljótt er ef satt er, en satt mun þó vera.**

Að skoðun þessara sérfræðinga: Drs. Olson, Lehmann, Mietus og Mitchell eru 680,000 börn árlega myrt í móðurlífi í Bandaríkjunum. Liðlega 8,000 mæður bíða bana við ólöglegar fóstureyðingar (10,000 á Þýzkalandi árið 1931), en miklu fleiri bíða heilsutjón. Af þeim eru liðlega helmingurinn giftar konur. Tólfta hvert barn, sem fæðist er, eftir skýrslunum, föðurlaust. (Tekið úr American Journal of Obstetrics & Gynecology).

# Bjargráð Benjamíns

---

Það vakti hjá mér vonir og eftirvænting er eg sá grein séra Benjamíns Kristjánssonar um björgun menningarinnar. "Hér er stórt mál og kirkjunni samboðið", hugsaði eg. Eg bjóst við að séra Benjamín myndi gera málefninu hin beztu skil því eg hafði kynst honum sem greindum og víðsýnum kennimanni, meðan hann þjónaði Sambandssöfnuðinum í Winnipeg. Varð eg fyrir vonbrigðum? Já, það held eg nú og þeim ekki litlum. Ekki samt svo að skilja að eg sé höf. endilega ósamþykkur í öllum greinum, en hér er með slíkum vetlinga tökum tekið á málinu, svo slælega grafið til rótanna, og ritgerðin firt öllum frumleik, svo að furðu gegnir. Það mætti sundurliða grein prestsins í fimm atriði: (1) allar vonir um heimsbætur byggjast á afturhvarfi einstaklingsins; (2) sú endurvakning verður að gerast fyrir trú, menn verða að trúa á guð og annað líf; (4) kirkjan ein megnar að viðhalda og endurvekja þessa trú enda hefir hún verið gróðrarreitur allrar menningar í heiminum; (5) kirkjan, að minsta kosti á Íslandi, gerir alt sem hún getur til að viðhalda þessari trú, hið andlega sinnuleysi er almúganum að kenna.

Séra Benjamín hefir Bertrand Russell, brezkan heimspeking, fyrir því að fyrst beri að gera einstaklinginn góðan sem heimilisföður, nágranna, sveitunga og þjóðfélagsþegn. Út af fyrir sig er þetta rétt, en hér þarf margt að takast til greina. Einstaklingurinn getur haft áhrif á samfélagið en samfélagið hefir þó ennþá meiri áhrif á einstaklinginn. Kirkjan hefir á öllum öldum fengist við afturhvarfs tilraunir, til einstaklings sáluhjálpar, með nokkrum árangri, líklegast. — Samt hefir uppskeran í heildinni orðið lítil og þarf ekki að sannfæra séra Benjamín um það, því honum finst það eðlilegt, þótt prestarnir leggi hempuna upp á hilluna og gerist bankastjórar eða braskarar, þar sem sinnuleysi safnaðanna sé svo mikið. Viti menn, þá er presturinn einmitt að laga sig eftir þjóðfélaginu og ef prestinum verður þetta á, við hverju má þá búast af hinum sauðsvörtu- Ef sagan sýnir nokkurn sannleika ótvírætt þá er það sú staðreynd, að áhrif umhverf-

isins verða sterkari en einstöku prédikanir, hversu hrífandi sem þær kunnu að vera. Þó má þess gjarnan geta að undantekningar eiga sér stað, þess vegna menn eins og Francis frá Assisis, faðir Damion og Albert Schwitcher. Slíkar guðshetjur eru fáar og áhrif þeirra, þó mikil og dásamleg, hjaðna fljótt fyrir auðgræðgi og efnishyggju heimsins. Það þarf engin mér að segja, að jafn greindur maður sem séra Benjamín skilji ekki þetta, en hann er smeikur, nei hreint og beint dauðhræddur, við þau olnbogaskot, sem kirkjan kynni að verða fyrir frá þeim sem völdin hafa.

Þegar Wickersham nefndin, hér í Bandaríkjunum, safnaði gögnum um glæpi kom það úr kafinu að allflestir glæpaseggir eru uppaldir í skuggahverfum stórborganna. Í Detroit eru fjórir fimtu af öllum illknyttum unglinga framdir af þeim er uppalast við meiri eða minni skort á viðunandi húsakynnum, fæði og klæði. Þegar eg átti heima í Chicago gerði eg mér margar ferðir í unglinga réttinn, en þangað var öllum prestum og guðfræðanemum heimilt að koma. Einu sinni brá dómarinn okkur á tal og mælti eitthvað á þessa leið:

"Í fimtán ár hefi eg verið dómari í þessum rétti og veit af reynslunni að tvær eru uppsprettur nærri því allra glæpa: auðlegð, sem skapar ábyrgðaleysi hjá þeim unglingum, er uppalast við alsnægtir, og örbirgð er skapar hatur og uppreisnarhyggju hjá þeim, er sjá fyrir sér allsnægtir en fara sjálfir flests á mis."

Þar í borginni voru þá nokkrar hjálparstöðvar (rescue missions), þar sem matur og húsaskjól var ókeypis veitt heimilislausum trantaralýð og kröftugar afturhvarfs prédikanir fluttar. Nokkrum einstaklingum fengu þeir bjargað þótt flestir hændust aftur að sínum fyrri félagsskap. Þótt árangurinn yrði nokkur að sjálfsfórnar starfi framúrskarandi einlægra kristindóms vina, sem voru sérstaklega æfðir til starfsins, urðu áhrifin frá drykkjukránum, spilavítunum, vændishúsunum og glæpamannafélögunum langt um sterkari, enda varð borgin fræg að endemum nokkrum árum síðar. Þjóðlífið er það akurlendi, sem einstaklingurinn vex upp úr og "ekki getur spilt tré borið góðan ávöxt", segir Kristur. Það verður ávalt tiltölulega lítið gagn að því að slöngva fram nokkrum slagorðum um illræði ágirndar meðan þjóðfélagið verðlaunar hana með virðingarstöðum, auði og alsnægtum. Það getur meir að segja verið talsvert vafamál hvert rétt sé að ásaka einstaklinginn

fyrir ágirndina, meðan hún ein getur bjargað fjölskyldu hans frá eymd, áþján og eyðileggingu. Þetta hafa fáeinir prestar séð, svo sem Johnson dómprófestur á Englandi og Dr. Harry F. Wards í Ameríku. En þeir eru svo fáir að verulegir umbótamenn hafa mist alla tiltrú til kirkjunnar. Af því stafar, að minni hyggju, lággengi hennar í samtíðinni.

Kristur skildi þetta manna bezt. Hann talar um guðsríki, sem mannlegt bræðralag og hann færði þá guðsríkis hugmynd niður á jörðina. Hann fordæmdi alt, þar á meðal prestastétt síns þjóðfélags, sem gerði slíkt bræðralag erfitt eða óhugsandi. Hann fagnaði því öllu, sem veg þess greiddi í veröldinni. Kirkjan á Íslandi, sem annarstaðar gæti áreiðanlega gert miklu meira gagn ef hún teldi það sóma sinn og skyldu, að granskoða það alt, sem á einhvern hátt horfir til heimsbóta og fagna því öllu, sem að einhverju leyti styður að framförum mannlífsins á jörðinni.

Séra Benjamín finnur eitt af þeim gróðrarmögnum í trúnni. Eg er honum samdóma í því, að trúin geti flutt fjöll erfiðleikanna úr vegi framsóknarinnar — en þó því aðeins að trúin sé heilbrigð, skynsamleg og starfandi. Trúin er flestum tilfinningamál fyrst og fremst og hér á við erindið hans Sephans G.:

"Taki ei vit á tilfinningu
Taumhaldið, kann enginn segja
Hvernig hennar brautir beygja
Byljir í tíða straum-hvirfingu.
Hún hefir verið voði í höndum
Vanhyggju, í öllum löndum."

Trúin hefir ollað stórum viðburðum, illum og góðum í sögu aldanna. Hún hefir hafið hugsjónir sumra til hærri miða, en lítillækkað aðra, eflt suma til drjúgra dáða, dregið alt framkvæmdaþrek úr öðrum, hún hefir samið frið stundum, en stýrt styrjöldum oft; hún hefir gefið hvöt til frelsis og framfara, en oftar samt lagt hömlur á alla framsókn. Vanskilningur á þessu er hið viðurstyggilegasta þekkingarleysi, að neita þessu er óhreinskilni.

Séra Benjamín segir: "Trúi maður ekki á sálina, á guð og hans eilífa líf, þá getur þetta æðra líf ekki fengið neitt vald yfir honum. Þetta getur nú verið satt og rétt eins langt og það nær

en það nær ekki ýkja langt. "Flestir heimsins heiðingjar hafa trúað líku", (St. G.). Menn hafa trúað á sálina, á guð og á eilíft líf, en samt logið og svikið, stolið og myrt, kúgað og kvalið, stundum meira að segja talið sér trú um að þeir væru að gera þetta að guðs vilja. Þeir sem stóðu fyrir galdrabrennum miðaldanna voru þess fulltrúa , að þeir væru með þeim að útbrenna áhrif djöfulsins en efla guðsríki. Rannsóknarrétturinn var settur af mönnum sem álitu sig vera að útbreiða og grundvalla guðs trúna. Þegar Lincoln barðist móti þrælahaldi í Bandaríkjunum, voru allir prestar í Suður-ríkjunum andstæðir honum og af tuttugu og sjö prestum í Springfield, sem var þó í Norðurríkjunum, fann hann aðeins fjóra, sem mælti á móti þrælahaldi. Allir hinir álitu það guðs ráðstöfun að blökkumennirnir beygðu sín blóðrisa bök undir hnútasvipu höfðingjans og að hvítir menn ættu ekki að neyta síns brauðs í sveita síns andlitis heldur svertingjans. Þessir menn trúðu meira að segja á guð kærleikans, þótt undarlegt megi virðast. Þeir trúðu því bara, að hann léti sér annara um hið hvíta kyn en önnur. Þeim hefir kanske verið jafn ógeðfelt og prestinum í Grundarþingum, að gefa sig nokkuð við pólitík. Þegar prestur fullyrðir slíkt er hann illa blektur. Hver einasti þeirra er á kafi í pólitík upp að eyrum. Hann ver öllum kröftum annaðhvort til að viðhalda því sem varir eða til að breyta því. Hann kemst blátt áfram ekki hjá því að leiða hugi safnaðarins annað hvert að ágöllum þjóðfélagsins eða frá þeim.

Hvað virðist okkur annars um guð kærleikans? Mun hann ekki láta sér eins ant um hjarðsveininn norður í Bárðardal og aðgerðamanninn út á Skaga eins og dómkirkju klerkana í Reykjavík. Nú munu til þess dæmi, að prestarnir hafi farið fram á nokkra launabót. Þeim finst það réttlátt, að þeir hljóti þann skerf af heimsins gæðum, sem veiti þeim getu til að lifa þægilegu menningarlífi og komi börnum sínum á framfæri. Ekki er þeim það láandi, en kristileg verður samt krafan fyrst þegar þeir taka þarfir bóndans í Bárðardalnum og aðgerðarmannsins á Skaganum með í reikninginn og krefjast réttlætis ekki einungis sér til handa heldur einnig þeim til handa. Slík krafa hefir víst aldrei komið frá synodus.

Séra Benjamín ver mestu máli til að afsaka kirkju og kennimenn. Ekki kveður hann ástandið þeirra skuld. Um kirkjuna farast honum þannig orð: "Flest það sem nýtilegast er, göfugast og fegurst í vestrænni menningu er frá kirkjunni

komið." Þetta er ofmæli, enda þótt kirkjunni sé gefin viðurkenning fyrir alt sem hún hefir áorkað. Hin vestræna menning á margar rætur og renna sumar aftur til alheiðnrar fornaldar bæði í Norður- og Suðurlöndum. Ekki veit eg hvað presturinn telur fegurst, en hvar getur fegurri listaverk en líkneskjur Fidíasar Praxiteles, Lysippusar og Kresiasar? Hvaða leikskáld hafa tekið þeim Æskylus, Sofokles, Evripides og Aristofanes fram? Hver hefir kveðið dýrðlegri ljóð en Homer og Saffó? Hvar hefir heimspekin lyft mannsandanum til hærra flugs en í Aþenu hinni fögru? Hvar hefir vísir vísindanna náð betri bráðþroska meðal fornþjóða en þar? Voru það ekki áhrifin frá Aþenu, sem endurvöktu andlegt líf í Evrópu á endurvakningar tímabilinu, og losaði það úr dogmatiskum dróma? Voru það ekki fornsögurnar og heiðin helgiljóð, sem vöktu Íslendinga af aldadvala, þegar martröð kirkjuvígðrar bókstafs trúar var næstum því búin að aldeyða þann anda, sem í árdaga framleiddi Hávamál og Völuspá? Það er ekki til neins að halda því að sæmilega upplýstum nútíðar manni að kirkjan hafi fært okkur vísindi og frelsi. Vísindin hafa oftast starfað í óþökk hennar. Formælendur frelsis og mannréttinda hafa líka oft orðið fyrir ofsóknum af kirkjunni.

Svo var með alfræðingana frönsku, "húmanistana" ensku og þá Jefferson, Paine, Parker og Lincoln hér í álfu. Þrátt fyrir alt þetta hefir kirkjan unnið mikið og ávaxta auðugt starf, "en það er nú önnur saga", eins og Kipling komst að orði. Öfgafullar staðhæfingar með eða móti kirkjunni eru ekki sannfærandi fyrir hugsandi fólk. Þær fullyrða alt en sanna ekki neitt. Þetta er kirkjulegur áróður, sem áreiðanlega hefnir sín fyrir málstað Krists og sannleikans.

Sjálfsagt getur okkur séra Benjamín komið saman um eitt atriði, að það sé hlutverk kirkjunnar að efla menning manna, en satt að segja virðist mér skilgreining hans á orðinu menning nokkuð einhliða og alls ekki fullnægjandi. Annars er það ekkert einsdæmi að menn leggi alt of þröngan skilning í hugtakið menning. Mér finst það ætti að þýða alhliða mannþroskun og í því sambandi hefi eg rekist á hina beztu skilgreiningu hjá spönskum nútíðar höfundi. Hún hljóðar þannig, á hans eigin hljómfagra máli: "Procuraré, al mismo tiempo que educo su inteligencia en los sanos principios de la moral, de la caridad y amor al projimo, desarrollar sus fuerzas fisicas, educar su cuerpo." (Að ávinna sér samtímis mentun skiln-

ingsins og heilbrigðan siðferðisþroska, samúð og bróðurást, æfa athafnaþrótt sinn með þjálfun líkamans). Vill kirkjan að þessu styðja af öllum kröftum? Mér virðist ekki nema sanngarnt að dæma hana eftir því svari sem hún gefur ekki einungis í orðum heldur einnig í gjörðum.

Ekki vill höfundurinn við það kannast að prestunum sé um að kenna þótt kirkjurnar standi hálftómar á helgum dögum. Víkur hann að því, að ekki hafi allir viljað ljá Jesú eyrun og "skorti hann hvorki vizkuna eða málsnildina." Eg held nú satt bezt að segja að íslenzku prestarnir myndu því all vel una ef fimm þúsund fylgdu þeim upp í Mosfellssveit eða upp á Vaðlaheiði til að hlusta á þá prédika. Við munum trauðla bjarga menningunni með því að munnhöggvast við söfnuðinn, þar sem einn afsakar sig en ákærir hinn. Sennilega er ástandið allra skuld og áreiðanlega þyrftum við prestarnir margt og mikið að læra. Meðal annars þarf okkur að lærast meiri sanngirni, meiri hógværð, meira lítillæti og meiri virðing fyrir sannleikanum — já og umfram alt meiri trú á boðskap Krists og kærleikans.

Til þess að segja eitthvað með sannindum og eignast samleið með samtíðinni þurfum við fyrst og fremst að skilja straumrás tímanna og kenna einhver skil á orsökum þeirra. Mannkynið gengur með geig glötunar í sálinni, eftir blóðlát heimsstyrjalda. Það óttast ekki einungis um að glata gæfunni heldur blátt áfram lífinu í áframhaldi þessa ógnar æðis. Þess vegna eru vígorðin: nýsköpun og endurmat á öllum verðmætum. Hvað sem segja má um sinnuleysi samtíðarinnar í andlegum efnum er eitt víst, að hugtökin: bróðurþel, mannréttindi og samvinna til sigurs fyrir hið góða og göfuga, eru ekki vanvirt. Hitt vakir, sem óleyst spursmál í huga heimsbúa, yfirleitt, hvort kirkjan sé að prédika kristindóm Krists í nútíðinni.

Um það efast eg líka.

---

Kvenfélag í New York, "The New York State Federation of Women's Clubs" gefur þá yfirlýsingu, að glæpir, meðal unglinga, hafi aukist um 300% í borginni síðan stríðið byrjaði. Ástandið er þó enn verra í Evrópu eftir því sem fréttir herma. (Kunnum við nokkur ráð við þessu?).

## Óráðna gátan

*Alvaldur blæju af óvissu brá,*
*Í öndverðu á vegina báða,*
*En lagði í eðli vort eilífa þrá*
*Óleystu gátuna að ráða.*

*Sú þrá hefir mannkyni þokað á braut*
*Til þroska og útsýnið stækkað.*
*Þó enn dyljist svarið við óleystri þraut*
*Hefir örðugleikunum fækkað.*

*En margur er sekur um söguna þá*
*Að sannleikann hafi þeir fundið.*
*Og gátunni ráðningu eigi þeir á,*
*Og endir á leitina bundið.*

*Og miljónir efla þann auðtrúa her,*
*Sem örugga söguna telja,*
*Og taka það ómak í einu af sér,*
*Að eiga að hafna og velja.*

*Það er svo hættu og hugrauna laust*
*Að helga sér vissuna einu,*
*Og byggja sér vígi svo voldugt og traust*
*Að vitið ei orki þar neinu.*

*Þó stór sé hann orðinn hinn staðnaði her*
*Er stöðugt að gátunni unnið,*
*Því afl það er leitendur áleiðis ber*
*Frá alföður sjálfum er runnið.* L. B. N.

## Eg kvíði ekki komanda degi

*Eg kvíði ekki komanda degi.*
*Eg kvíði ekki nóttinni heldur.*
*Því svefninn er vinur á vegi.*
*Og vakan er lifandi eldur.*

*Þó bregðist mér vinur á vegi.*
*Og vakan sé dofnaður eldur.*
*Eg kvíði ekki komanda degi.*
*Eg kvíði ekki nóttinni heldur.*

*Því dagurinn dvínar og líður.*
*Að dæmi hans nóttin sér hagar.*
*En eilífðin ósnert mín bíður.*
*Hvað eru þá nætur og dagar.* L. B. N.

# Magnús Jónsson frá Fjalli

Eftir G. J. Oleson



MAGNÚS JÓNSSON

Mér er ljúft að verða við tilmælum ritstjóra Brautarinnar að skrifa nokkur orð um Magnús Jónsson frá Fjalli; var eg honum þó ekki eins vel persónulega kunnur sem skyldi til þess að gera það eins vel og eg vildi. Eg þekti Magnús um 15 ára skeið í æsku, bæði í Nýja Íslandi og hér í bygðinni, meir sem áhorfandi heldur en að þar væri persónuleg kynning, því eg var tæplega tvítugur þegar hann fór héðan burtu og eg sá hann aldrei eftir það, en átti þó við hann bréfaviðskifti á seinni árum. En fáir menn sem eg þekti í æsku hafði eins mikil áhrif á mig til góðs og manndóms sem Magnús Jónsson, því hann var sérstakur andlegur höfðingi. Mér finst að það hafi verið eitt sérstaklega sem einkendi Íslendinga hér öðru fremur á frumbýlingsárum, en það var manndómur og andlegt göfgi leiðtoganna í hópi alþýðumannanna — regluleg stórmenni — sem voru fleiri eða færri í hverri íslenzkri bygð, og Magnús Jónsson var í fremsta flokki slíkra manna, hann var þegar á unga aldri í fremstu röð á ættjörðinni, sem framsækinn endurbótamaður og hafði mannforráð. Eg man vel eftir Magnúsi þegar hann kom til Nýja Íslands, og fólk hans. Hann nam land rétt hjá æskuheimili mínu og var þar í nokkur ár, nefndi hann bæ sinn Hjarðarholt og bygði hann upp bæ sinn á skömmum tíma betur en alment gerðist, hann var smiður góður og framkvæmdarsamur og smekkvís mjög, og höfðingi í sveit hvar sem hann var kominn.

Með honum komu frá Íslandi tveir bræður hans og fólk þeirra; Þorbergur, mesti snyrtimaður og bezti drengur, sem dó í Glenboro 60 ára gamall árið 1920, og Þórarinn, hinn glæsilegasti maður, búfræðingur að mig minnir, frá Hólaskóla og söngmaður góður, hann druknaði í Winnipeg-vatni haustið 1890.

Þetta fólk hélt alt hópinn, og bjartara hefir ekki verið yfir neinum hóp manna sem frá Íslandi kom hér vestur. Magnús var sjálfkjörinn leiðtogi þessa fólks.

Árið 1891 flutti Magnús og fólk hans alt til Argyle-bygðar; var sú bygð þá í miklum uppgangi og fór mikið orð af menningu Ísl. þar og framtíðar möguleikum og sízt um of. Hver var aðal ástæðan að Magnús flutti burt frá Nýja Íslandi er ekki víst en þrjár munu hafa verið ástæður er nokkru réðu, en það var fyrst eins og þá stóðu sakir, að hann mun hafa séð litla framtíðar möguleika þar fyrir mann eins framsækinn eins og hann var. Nokkru mun einnig hafa ráðið trúmáladeilan mikla sem þá stóð yfir, því Magnús var prúður friðsemdarmaður, og síðast mun hann ekki vel hafa fest yndi á þeim slóðum eftir bróðurmissirinn, sem hann harmaði mjög.

Í Argyle staðfestist hann ekki, en nam land mjög bráðlega í Suður Cypress-sveitinni um 14 mílur austur frá Glenboro í hinum fagra Assiniboia ár dal norðan vert við ána, var þar land frjósamt og náttúrufegurð mikil. Þorbergur bróðir hans setti þar og bú saman líka. Var áin honum fyrst allmikill þröskuldur, en brátt kom hann því til leiðar að svifferja var sett á ána; var það honum og öðrum til mikilla þæginda, var það fyrsta ferja sem sett var á ána þar á löngu svæði.

Magnús stofnaði strax myndar heimili, og var sem áður, höfðingi í héraði, og var það jafnan mannmargt heimili og gestkvæmt. Hann mátti heita að búa þarna blómabúi í 10 ár; hann hafði allmikla jarðrækt, og var athafnamaður og djarfur til áræðis, en fé græddist honum ekki til hlítar, enda lagði hann aldrei á það mikla áherzlu, hann trúði á mátt hins góða, athafnalíf lagði hann rækt við, og bar fyrir brjósti í heill mannfélagsins. Hann var hollur ráðanautur og margir sóttu ráð til hans, og ráð hans voru ekki lokaráð. Á samkomum flutti hann oft ræður og erindi, kom fyrir að hann jarðsöng, og á flest lagði hann gerfa hönd.

Vorið 1902 flutti hann alfarinn til Blaine, Wash., bar það fljótt að, en hinn fámenni og fátæki íslenzki hópur í Hóla-

bygðinni kvaddi hann samt á viðeigandi hátt með þakklæti og gaf honum ofurlitla peninga upphæð, að skilnaði. Allir virtu hann og báru til hans hlýjan hug.

Í Blaine bygði hann sér enn heimili og horfði út á hafið, þar sem um óminnis aldur öldurnar, háar og stórar, höfðu hamast við ströndina. Hann var orðinn frumherji í þriðja sinn í þessu mikla landi, og hér bygði hann sitt "hinsta vígi", og þar lifði hann það sem eftir var æfinnar, utan þess að hann bjó um tíma í New Westminster, B. C., á vegum sonar síns.

Magnús Jónsson var í öllu tilliti í fremstu röð íslenzkra alþýðumanna sem hér fluttu vestur á landnámstíðinni, hann var andlegur höfðingi, hann var hugsandi maður, með sterka hneigð til þess að láta gott af sér leiða í mannlífinu, og mun hann alla æfi — og meir eftir því sem árin liðu — hafa lagt meiri áherzlu á það heldur en að skara eldi að sinni köku á veraldar vísu. Hann var frjálslyndur maður, og fór sínar eigin leiðir hvort sem var í stjórnmálum, trúmálum eða öðrum mannfélagsmálum, hann hafði ekki þann ókost sem margir Íslendingar fluttu vestur með sér, að vera öfundsjúkur; sannfrjálslyndur maður er það ekki, hann gleðst yfir velgengni meðbræðranna, en setur ekki fyrir þá fótinn, öfundsýkin eitrar líf mannsins en hinn frjálsi drengilegi andi sem öfundar ekki gerir lífið fagurt og sæluríkt. Bréf og ritgerðir Magnúsar bera vitni um það að það var bjart í sálu hans hvort sem brautin lá um blómsturvelli, eggjagrjót eða þrauta klungur. Í trúmálum var Magnús einlægur og frjáls, en hann var ólíkur mörgum sem telja sig frjálslynda. Það er ekki nóg að hrópa eg er frjálslyndur, maðurinn verður að sýna það í orði og verki. Hann atyrti menn ekki fyrir heimsku eða ódrengskap þó á öndverðum meið stæði við hann, og sú hugsun fariseans sem "lofaði guð fyrir það, að hann væri ekki eins og aðrir menn, eða eins og þessi tollheimtumaður", var honum fjarri.

Magnús ritaði mikið og gaf út Vertíðarlok 1920 og Vertíðarlok II. nokkrum árum seinna. Lærðir menn hlaupa ekki af sér hornin til að viðurkenna alþýðumann óháskólalærðann, sízt meðal Íslendinga, en Magnús fékk góða ritdóma um bókina, sérstaklega hjá séra Magnúsi J. Skaptasyni, sem þekti Magnús vel bæði heima á Íslandi og í Nýja Íslandi, og þá ágætan ritdóm hjá Dr. Jóni Stefánssyni, fræðimanninum mikla og glæsilega í London. Var sá ritdómur Magnúsi sönn viðurkenning og var gamla manninum óumræðilegt gleðiefni.

Eg átti nokkurn þátt í útgáfu Vertíðarloka 1920, en ekki græddi Magnús fé á henni, kostnaður borgaðist tæplega. Magnús hafði tröllatrú á því að senda bókina til Íslands, en eg var ekki svo trúarsterkur, því mér var að nokkru kunnugt af reynslunni, hvaða áhrif fjarlægðin hefir á áreiðanlegheit og drengskap manna, en eg lét tilleiðast og kostaði slatta af bókinni heim, og veit eg til þess að allnokkuð af bókinni seldist og máske alt upplagið, en andvirðið kom aldrei vestur. En gamli blindi höfðinginn við hafið tók því með þolgæði, og sat eftir með tvær hendur tómar.

Það var æfinlega bjart yfir heimilislífi Magnúsar. Kona hans, Margrét Grímsdóttir, var honum tryggur ferðafélagi langa æfi, og önnur hönd; hún var afbragðs kona og skörulег húsfreyja. Börn þeirra sem til aldurs komust voru tvö: Jón, dáinn allmörgum árum á undan föður sínum, hann var giftur Sigríði Sigurðardóttir Sigurðssonar frá Espihóli, og Guðbjörg, er giftist Guðmundi S. Johnson sem nú er í Glenboro, verklegur hugvitsmaður og í öllu tilliti vel gefinn maður. Er hann eini Íslendingurinn sem eg hefi séð ganga á streng hátt í lofti, og svo slyngur var hann, að hefði hann lagt rækt við þá list hefði hann getað gengið óhultur með Blondin yfir Niagara fossinn. Guðbjörg var að mörgu leyti mjög lík föður sínum. hún var yfirlætislaus og prúð í allri framkomu. Hún dó á æskuskeiði 1908.

Magnús var blindur svo áratugum skifti, en það var aldrei myrkur í sálu hans, hann var sískrafandi, sístarfandi og hugsandi um hin háleitustu spursmál tilverunnar. Hann varð rúmt níræður. Hann lagði svo fyrir að lík hans yrði brent og askan send til Íslands, sem var gert, og hvíla hans jarðnesku leifar í skauti fósturjarðarinnar, sem hann unni svo heitt.

---

## Að Breiðabliki

Fyrir allmörgum árum reit próf. Magnús Jónsson skarpa hugvekju um sögulegar bókmentir Íslendinga á síðari öldum og fanst fátt um þær. Þá var saga Íslands aðeins til í smá ágripum til barnafræðslu. Nú hefir úr þessu ræzt og mikið verið síðan ritað af sagnfræðilegum fróðleiksbókum. Hafa þar margir að unnið en enginn af meiri elju og skarpskygni en Sigurður Nordal.

Það mun naumast á tveimur tungum leika, að menningarsaga hans, "Íslenzk menning", verði í framtíðinni álitið eitt hið allra mesta

bókmenta afrek, sem nokkur Íslendingur hefir nokkru sinni leyst af hendi. Allir þekkja ritsnild dr. Nordals og flestir kannast við fundvísi og smekkhæfni þessa verkadrjúga námumanns í andlegum minjasöfnum íslenzkra fornalda.

Þegar Sigurður samdi doktors ritgerð sína, "Olaf den helleges saga" (Um sögu Ólafs helga), skrifaði dr. B. Olson ítarlegan ritdóm um bókina. Kemst hann í þessum ritdómi meðal annars þannig að orði, (stafsetning höfundar er hér fylgt: "Er þá ekki von að hjarta okkar fillist af fögnuði, þegar við sjáum unga menn og vel gefna rísa upp með níjum og óþreittum kröftum, menn sem eru færir um og búnir til að taka við arfinum af okkur. Þegar hann hnígur úr máttvana höndum, og vonandi ávaxta hann betur en við höfum gert. Bók sú, sem eg hefi hér gert að umtalsefni gefur firirheit, að höfundur hennar muni verða einn af þessum mönnum. . . ." Þetta er vel og drengilega mælt og munu nú flestir játa, að þessi heillaspá hafi ræzt á Sigurði. Eitt af því, sem dr. Björn telur til höfuðkosta hjá Sigurði er, að hann taki "ekki ófirirsinjað annarra, eldri manna skoðanir með trúarinnar augum, heldur rannsakar alt í ljósi heimildar ritanna."

Sigurður hefir haldið þessari venju og sjást þess glögg merkin í "Íslenzk menning". Hér liggur tæpt vað milli tveggja öfga og fáir rata meðalhófið. Sumir verða eintrjáningslegir sérvitringar og vilja afla sér frægðar með því að slá um sig með nýjum og órökstuddum staðhæfingum, aðrir trúa öllu sem áður hefir verið tekið trúanlegt án minstu athugana.

Í fljótu bragði kynni sumum að finnast fátt frumlegt í þessu fyrsta bindi ritverksins, sem út er komið. Slík athugasemd sýnir þó aðeins dómgreindarskort og vanþekkingu lesarans. Þarna er gagnsæis geislum vísindalegrar grannskoðunar, að leiðbeiningu óhvarflandi samhygðar, beint að hverju atriði, svo alt upplýsist í nýju og bjartara ljósi og fornöldin færist okkur nær, eða það væri líklega betra að orða það þannig, að við færumst sjálf fornöldinni nær og skiljum það nú, sem okkur grunaði kanske áður, grunar nú það, sem við athuguðum aldrei áður.

Aðal kosturinn við slíka rithöfunda er, að þeir kenna manni að hugsa og rannsaka og það engu síður þeirra eigin rökleiðslur en annara. Því er það ekki óviðeigandi að beita sömu aðferð við jafnvel hin allra beztu verk snillinganna, þó maður ætli sér ekki þá dul að teljast þeim jafn snjallir.

Í fáeinum atriðum finst mér rökleiðsla Nordals vera hæpin.

Höf. álítur að um þúsund manns hafi árlega flutt til Íslands, á áratugnum 890 til 900. Við, sem þekkjum nokkuð til erfiðleikanna í nýju landnámi, hljótum að spyrja þeirrar spurningar: hvernig gat alt þetta fólk framfleytt sér? Um verulega akuryrkju var auðvitað ekki að ræða á hinum allra fyrstu frumbýlis árum. Innflutningur kvikfjár hlaut að takmarkast við skipakostinn og ekki gátu þeir flutt nema örfáar skepnur til landsins þar sem bæði hey til fóðurs og vatn til drykkjar varð að taka með sér til hafferðar. Lítið gátu þeir tekið með sér af matvælum og myndu þau til skamms tíma endast. Veiðiskapur var auðvitað mikill en myndi hann einn nægja til framfærslu

þess fjölmennis, svo ófullkomin sem veiðitækin voru? Hér er mikið rannsóknarefni, sem alt til þessa hefir lítið verið sint. Vel er það aftur á móti athugað hjá höf., að þeir menn hafa hlotið að eiga mikið undir sér, sem skipulögðu þessa leiðangra og hlutu það höfðingjar að vera í sínum heima bygðum. Þess verður samt að gæta að þrælar og smábændur voru í fylgd með þessum höfðingjum, svo varlegt er að gera of mikið úr ættgöfgi Íslendinga.

Annars víkur Nordal að blóðblöndun Íslendinga og bendir á það, alveg réttilega, að jafnvel Norðmenn á landnámsöldinni hafi verið af blendnum uppruna. Áður germanskar þjóðir brutust inn í landið, bjuggu þar fyrir frumþjóðir af mongólsku lappakyni og blönduðu þessir kynflokkar eðlilega blóði saman. Má til dæmis benda á Hrafnistukynið sem var í upphafi hálf finskt eða lappneskt að ætt.

Nú er það á allra vitorði, að margir landnámsmenn komu af Írlandi eða frá Suðureyjum, og voru ýmist að öllu eða að hálfu leyti af keltneskum stofni. En Keltar voru einnig af blönduðum uppruna. Áður en þeir fluttu til brezku eyjanna voru fyrir í landinu menn af íberiskum stofni. Sá þjóðflokkur er horfin fyrir margra alda blóðblöndun nema hvað hann helzt tiltölulega hreinkynjaður upp í hálendinu í baskísku héruðunum á Spáni og nefnast nú Baskar (Basques). Þeir eru dökkhærðir stutthöfðar af hinu svonefnda Alpan-kyni, þar sem bæði Germanir og Keltar eru ljóshærðir langhöfðar. Á alt þetta bendir dr. Nordal alveg réttilega og vonandi fer þeim nú að fækka, sem halda því fram að við séum hreinræktaðir skandinavar af germönskum uppruna.

Aftur á móti er eg ekki allskostar ánægður með skýringu hans á upptöku alþingis og hinni fyrstu lagasetningu á Íslandi. Í frumbygð leitast menn við að leggja góðan grundvöll fyrir friðsömu og réttlátu þjóðfélagi og finna brátt til þeirrar þarfar að setja lýðnum lög og fyrirbyggja deilur sem annars myndu rísa út af landamerkjum, ágangi og erfðum. Mér finst það mjög í samræmi við hagsýni feðranna, að sjá það strax í upphafi, "að með lögum skal land byggja". Í þeim tilgangi virðist mér líklegast að lögin hafi verið sett fremur en til þess að lögtryggja höfðingja eða goðorðsvaldið á Íslandi. Aftur á móti felst eg á tilgátu höfundarins um að Geitskór hafi ferðast um landið fremur til að laða höfðingjana til fylgis við þessa nýskipun en til þess að velja þingstað, því ekki myndi hann þurfa að ferðast norður í þingeyska dali eða út á Hornstrandir til þess.

Flestar og stærstar athugasemdir hef eg samt að gera við kaflann um frumkristnina á Íslandi, en þær koma síðar, í næsta hefti þessa rits, er eg hugleiði forn-kaþólskuna á fyrstu öldum kristninnar þar.

Þrátt fyrir alt sem sagt hefir verið og sagt verður af mér um bókina er mér ánægja að lýsa því yfir að eg hef sjaldan lesið betri bók eða fróðlegri.

Að mínu viti hefir engin maður skilið fornöldina betur en Sigurður. Dásamlegir eru til dæmis kaflarnir um: drenglyndis hugtakið, sjálfstæðinginn Egil Skallagrímsson, og hirðskáldin.

---

# Brautin

## DEILD KVENNASAMBANDSINS

# Afleiðingar siðskiftanna

Eftir STEFÁN EINARSSON

Flutt 11. janúar 1924 í heimspekisdeild Háskóla Íslands

Til þess að skilja afleiðingar siðskiftanna hér á landi er óhjákvæmilegt, að gera sér fyrst nokkra grein fyrir upptökum þeirra.

Siðskiftin eiga rót sína að rekja til fornmentastefnunnar. Sú stefna var fyrst og fremst borin upp af mentuðum mönnum, klerkum og höfðingjum, til alþýðu tók hún lítt í fyrstu. Fornmentastefnan sviftir menn lífsskoðun sinni. Los kemur á siðferði manna í bili, meðan þeir hafa eigi náð að mynda sér nýja siðferðilega lífsskoðun í stað hinnar gömlu. Svo var um siðu manna í Róm. Þar blómguðust listir og vísindi, frelsi var mikið til hugsana, orða og gerða, en siðferðið var eigi sæmandi hinum hæsta höfuðstað kristninnar. Páfarnir bárust með straumnum: Þeir gerðust frömuðir vísinda og lista, reistu musteri vegleg eins og Péturskirkjuna og kostuðu þar til ógrynni fjár, fengnu hvaðanæva af kristnum löndum fyrir aflát og syndalausn meðal annars. En í siðavendni tóku þeir öðrum höfðingjum í engu fram, nema síður væri.

Á Ítalíu má heita, að öll alþýða hefði listaverk fornaldarinnar fyrir augum. Þessvegna kvað hér mest að fornmentastefnunni í listinni. Öðru máli var að gegna norðan Mundíufjalla. Þar lá vegurinn til fornaldarinnar gegn um bókmentirnar eingöngu. Menn kyntust fornri speki og ritum frumkristninnar. Af þessum ritum sáu menn, hvílíkur munur var kirkjunnar, eins og hún var þá, og eins og hún hafði verið að fornu, bæði um kenningar og siðgæði. Þar við bættist að rang hverfa kaþ. kirkjunnar var hér auðsærri en á Ítalíu. Í Róm huldi ytri dýrð kirkjunnar og glæsimenska höfðingja hennar fjölda synda, sem legið gátu í augum uppi jafnvel öllum almenningi norðanfjalls. Svo var um eina höfuðsynd hinnar kaþ. kirkju, sem hlaut að vaxa í réttu hlutfalli við glæsimenskuna

og dýrðina í Róm, en það var **ágirni** hennar og **fjárdráttur**. **Aflátssalan** varð sú orsök, er hleypti siðskiftunum af stokkunum, er Lúter festi hinar frægu setningar sínar gegn henni upp á hallarkirkjudyrnar í Wittenberg 31. okt. 1517. Og það, sem allar stéttir manna utan klerkdómsins höfðu ástæður til að láta sér vel skiljast í fortölum siðskiftamannanna, voru einmitt kærur þeirra um **ágirni** kirkjunnar.

Lúter gerði biblíuna að grundvelli trúarbragðanna, en hafnaði kenningum kirkjunnar og páfanna. Kjarna kristindómsins kvað hann trúna á guð, er ein veitti mönnum sáluhjálp og syndalausn, en eigi verk manna. Syndalausnarsala kirkjunnar væri hégómi.

Er Lúter hafði sagt kirkjunni stríð á hendur, varð hann að vinna þýzku þjóðina, æðri sem lægri, til fylgis við sig og kenningu sína. Kenningin var honum fyrir öllu, kirkjuskipunin aukaatriði. Og þegar alþýðan brást vonum hans, þá leitaði hann til höfðingjanna. Þeir fengu vald og eignir kirkjunnar í sínar hendur, gegn því að kenna mönnum hina réttu trú. Og þjóðhöfðingjunum þótti kaupin góð, þeir höfðu um langan aldur togast á við kirkjuna um völdin. Þeir urðu nú ötulustu fylgismenn siðskiftanna og hinnar nýju kirkjuskipanar. Spurðu þeir lítt að vilja þegnanna í trúarefnum, en eins og geta má nærri hefir sauðsvartur almúgi t. d. á Norðurlöndum ekki getað haft hina minstu þekkingu á kenningu Lúters, er valdhöfunum þóknaðist að lögbjóða hana, þegar þess er gætt, að um það bil voru tiltölulega aðeins fáir hinna mentuðu manna, sem þektu hana, og ennþá færri sem aðhyltust hana.

Kristjáni III. auðnaðist að koma á siðaskiftum í Danmörku, Noregi og á Íslandi. Um leið jók hann tekjur sínar af Danmörku um ⅔, gerði Noreg að skattlandi og svifti hann ríkisráðinu. Ísland varð heldur eigi útundan, eins og reynt verður að sýna hér á eftir. Með dauða Ögmundar biskups 1541 og aftöku Jóns biskups 7. nóv. 1550 eru siðskiftin á komin á Íslandi í orði kveðnu. En þessi "siðskifti" eru hið ytra, en lítt eða ekki hið innra nema hjá einstökum mönnum, postulum hinnar nýju trúarstefnu. Byltingin er í stjórn en ekki trú. Hin nýja trú nær naumast fullum tökum á hugum almennings fyr en eftir 2—3 mannsaldra, eftir að Guðbrandur biskup hefir lifað og starfað. Skal nú reynt að skýra frá afleiðingum byltingar þessarar, eins og þær lýsa sér í **landshögum** og **stjórnháttum, bókmentum** og **menningu** þjóðarinnar yfirleitt.

Fyrsta og áþreifanlegasta afleiðing siðskiftanna er **uppgangur konungsvaldsins** á kostnað hins forna kirkjuvalds. Það hafði einmitt náð hámarki sínu rétt fyrir siðskiftin. Kirkjan, sem í sjálfu sér var erlend eða réttara alþjóðleg stofnun, hafði náð þessum völdum í baráttu við forna trú og siði, baráttu við landslögin og innlent höfðingjavald. Sigur hafði hún borið af hólmi, enda var hún búin þeim vopnum, sem ofurmenni ein fengu staðist í þá daga, þar sem var **bannið** og önnur refsimeðul hennar. Sjálf var hún nú orðin samgróin íslenzku þjóðinni á marga lund, biskupsstólarnir og klaustrin voru mikilsverðar þjóðlegar menningarstöðvar í höndum góðra manna. Kenningum hennar undu menn vel, en mörgum, einkum þeim, sem nokkurir voru borði, eins og Björn í Ögri, þótti ok hennar allþungt að bera. Því var það, að ýmsir innlendir höfðingjar eða metorðagjarnir leikmenn réttu konungsvaldinu hjálparhönd í siðskiftabaráttunni. Þeir áttuðu sig um seinan á því, að konungur og fylgifiskar hans voru enn ágjarnari til fjár og valda, en kirkjan hafði verið, eigi skildu þeir heldur hættuna, sem lá í því, að valdið og auðurinn dróst út úr landinu sjálfu.

Siðskiftabyltingin byrjar með ráninu í Viðey á hvítasunnudag 1539. Og konungsmenn halda dyggilega þeirri stefnu og láta greipar sópa um góss og gersemar kirkjunnar, þrátt fyrir mótspyrnu klerkastéttarinnar, — einnig hinnar lútersku. Að vísu tókst Gissuri biskupi með einstakri lægni að vefja konungi um fingur sér, og verja réttindi og eignir kirkjunnar um sína daga. En hér mátti eigi sköpum renna; í mesta lagi má segja að forlögunum væri frestað um stundarsakir. Eftirmaður Gissurar, Marteinn biskup, sem var, langt frá því, jafnoki hans að skörungsskap og stjórnvisku, gafst að lokum alveg upp við að verjast yfirgangi og ásælni konungs-manna. Afsalaði hann sér biskupsdómi er höfuðsmaður vildi knýja hann til að láta af hendi biskupstíundir og stólsjarðir allar um Suðurnesin; hafði staðurinn af þeim jörðum gæði mikil í skreið, en höfuðsmanni lék hugur á þeim, er þær lágu svo nálægt Bessastöðum. Varð Gísli biskup Jónsson að ganga óskorað að öllum kröfum konungsmanna og taka útkjálkajarðir í Hornafirði og víðar fyrir Suðurnesin. Er ekki að orðlengja það, að konungur tók undir sig allar klaustraeignir á landinu, auk jarða þeirra manna, er mest höfðu í gegn gengist hinum nýja sið, eins og jarðeignir biskupanna Jóns og Ögmundar. Er

svo talið að konungur ætti eftir það fimtung allra jarðeigna á Íslandi.

Einmitt á þessu sviði varð vald konungs hvað hættulegast. Konungur eða höfuðsmaður seldi nú þessar jarðeignir á leigu heldri mönnum (lénamenn) en þeir leigðu aftur bændum og loks leigðu þeir hjáleigurnar undan aðaljörðinni. Eigi þarf að efa, að hver um sig mun hafa viljað hafa sem mest fyrir snúð sinn. Enda urðu kjörin sem þessir konungslandsetar áttu við að búa brátt hin verstu, einkum á jörðum þeim í Gullbringusýslu er lágu beint undir höfuðsmann eða fógeta á Bessastöðum, þær voru 125 að tölu. Tóku höfuðsmenn og fógetar sér til fyrirmyndar meðferð þá er danskir aðalsmenn beittu við leiguliða sína þar í landi um þær mundir. Hefir þeim eflaust þótt, eins og Loðni lepp forðum, íslenzkir búkarlar gera sig furðu digra og bera höfuðin helzti hátt, samanborið við danska stéttarbræður þeirra, því þeir máttu að réttu kallast ánauðugir þrælar aðalsmanna í þann tíð.

Til þess að lægja í þeim rostann, lögðu þeir á þá ýmsar **kvaðir**, þeir urðu að lána menn til sjóróðra á **konungsbátunum**, sem svo voru nefndir, enda þótt sumir væru eign fógetanna sjálfra, **hross** urðu þeir að lána ef fógeti eða höfuðsmaður brugðu sér landveg, og það var tíðara þá en nú, eins og menn muna, og loks var hver leiguliði skyldur að vinna a. m. k. 2 **dagsverk** sólsetra á milli um sláttinn á höfuðbólum fógetans og urðu, er tímar liðu fram, að leggja sér alt sjálfir. Þó voru þessar **kvaðir** ekki það versta, því þær voru þó lögbundnar og menn gátu keypt sig lausa, ef heldur vildu. Verri voru **köllin**, er svo voru nefnd, og í því voru fólgin, að fógeti gat kvatt landseta sína til hvers sem vera skyldi á hvaða tíma sem var, endurgjaldslaust og þó án allrar lagaheimildar. Voru leiguliðar í þessu efni algjörlega ofurseldir dutlungum og geðþótta landsdrottins. — Að vísu ber þess að gæta, að hvergi varð ástandið í þessum efnum jafnslæmt og á Suðurnesjum í grend við Bessastaðavaldið, en þó reyndu lénamennirnir eftir föngum að kúga leiglendinga sína í líkingu við þetta.

Það er augljóst af þessu, að ógrynni fjár hlaut að renna út úr landinu í vasa konungs og valdsmanna hans hér. Hitt er og jafnljóst, að starfsþol landsmanna og efnalegt sjálfstæði fór að sama skapi þverrandi. Þó varð önnur ráðstöfun konungsvaldsins ennþá skaðvænlegri efnahag landsmanna og sjálfstæði og það því fremur sem hún tók jafnt til allra, ríkra sem snauðra.

Það er **verzlunareinokunin.** Hún er sett hér af einræði konungsvaldsins þvert ofan í vilja landsmanna sjálfra, og þarf eigi að rekja afleiðingar þess tiltækis, því þær eru marg-skýrðar, enda öllum ljósar. Hins væri fremur getandi, að konungi gekk eigi ilt til, heldur hugðist hann víst mundu vinna landi og lýð gagn. Var þessi stefna í verzlunarmálum alment viðurkend, sem hin eina rétta á þeim tímum hvarvetna í Evrópu, og trúlegt er, að til hins sama hefði dregið um verzlunarhagina hér á landi, þótt siðskifti hefðu eigi orðið. En hitt er jafnvíst, að aukið vald konungs og afskiftasemi hans um Ísland og Íslendinga, sem vissulega var afleiðing siðskiftanna, hefir mjög flýtt fyrir þessari óheillaráðstöfun, sem næst hefir gengið íslenzku þjóðinni allra þeirra drápsbylja, er á henni hafa dunið.

Í **stjórnháttum** varð sú breyting mest, er kirkjuvaldið hvarf í hendur konungi eins og áður er ávikið. Varð hann nú æðsti maður kirkjunnar sem nú verður ríkiskirkja og skipar eða staðfestir embættismenn hennar, svo sem biskupa (superintendenta) og presta, þótt það lag héldist framanaf, að alþýða kysi þá. Urðu þessir embættismenn kirkjunnar að vinna konungi og kirkjuskipan hans hollustueið. **Fjárforræði** kirkjunnar tók konungur og undir sig og skamtaði þjónum hennar úr hnefa. Máttu prestar þó sízt við því eftir siðskiftin, er margir þeirra urðu ómagamenn. **Löggjafar**-vald í kirkjumálum átti að vísu alþingi með konungi, en hann tók sér þar einveldi. Einnig **dómsvaldi** því, er kirkjan hafði haft glataði hún í hendur konungi og veraldlegrar valdstjórnar.

Þrátt fyrir það, þótt litlar breytingar yrðu á **stjórnarfarinu** að öðru leyti um siðskiftin, að minsta kosti í orði kveðnu, þá varð það svo í reyndinni, að konungur færði sig æ meir upp á skaftið í afskiftum sínum af málum landsins. Var stefna hans sýnilega sú, að svæla undir sig með öllu **löggjafar** og **dómsvald** að svo miklu leyti sem það var enn í höndum lögréttu og lögmanna. Eins og áður er á vikið tók hann sér þegar einveldi um lög kirkjunnar. Og hann gerðist æ afskiftasamari og einráðari um **löggjöfina** yfir höfuð. Þorði lögrétta lítt í móti að mæla ef hann eða höfuðsmaður vildu hafa eitthvað fram. Þannig lét Páll Stígsson lögmenn og lögréttumenn dæma hinn alræmda Stóradóm (2. júlí 1564) um legorðsmál og sifjaspell. Sáu landsmenn skjótt missmíði á dómi þessum, en konungi varð drjúgur tekjuauki að honum er óbótamenn skyldu samkvæmt honum hafa fyrirgert fjörvi og fé, sem rann í konungs-

vasa. En eigi lét konungur við það sitja að ráða lögum og lofum á alþingi, heldur gaf hann út konungsbréf við ýms tækifæri og giltu þau sem lög. Notuðu menn sér það óspart og það jafnvel hinir mætustu menn eins og biskuparnir Guðbrandur og Brynjúlfur og er ilt til þess að vita, að þeir skyldu svo stuðla til þess, að draga úr valdi hinnar innlendu stjórnar til hagnaðar erlendri kúgun. Áður langt leið var og höggvið stórt skarð í **dómsvald** lögmanna með stofnun **yfirdóms**, er höfuðsmaður skyldi skipa. Var það eitt af afrekum Páls Stígssonar, að útvega konungsbréf, er bauð þann dóm, en eigi komst hann á í reyndinni fyr en 1593 í morðbréfamálaferlum Guðbrands biskups. Er það sýnilegt, að höfuðsmaður—eða konungsvaldið, hafði eftir það töglin og hagldirnar í dómsmálum. Þó lét konungur eigi þar við sitja, heldur kom það fyrir, að hann veitti einstökum mönnum einskonar alræðisvald í dómsmálum. Svo var t. d. um hina svonefndu commissarii er hingað voru sendir 1618 og setja áttu niður deilur manna allar og ágreining. Var mörgum höfðingjanum hér á landi kvíðustaður á komu þeirra. svo var sjálfstæðistilfinning þjóðarinnar þá lömuð og dugur þorrinn.

Eins og ljóst er af þessari lýsingu var sporið til fullkomins einveldis konungs ekki orðið svo langt í raun og veru. Það spor var stigið með erfðahyllingunni í Kópavogi 1662 og hafði konungur þá náð takmarki sínu til fulls.

Þá er að líta á afleiðingar siðskiftanna í **bókmentum** og **menningu.** Lúter hafði brotið hugfjötra hinnar kaþólsku kirkju. Með frjálsri rannsókn og íhugun hafði hann komist að niðurstöðu sinni í trúarefnum, er getið var í upphafi þessa máls. Fyrsta verk hans var að þýða **biblíuna**, svo að öllum gæfist kostur á að rannsaka hana sjálfa, og benda mönnum um leið á hjátrú og hindurvitni kaþólskunnar. **Aukin mentun** alþýðu á grundvelli biblíunnar varð þannig stefnuskrá hinna fyrstu siðskifta-postula, sem voru í mörgu frjálslyndari en eftirkomendur þeirra, er sízt urðu víðsýnni eða umburðarlyndari í trúarefnum en verið hafði hin kaþólska kirkja. — Þessi var og stefna siðskifta-frömuðanna hér á landi. Eru tillögur Gissurar biskups um **barnaskóla** á klaustrunum mjög merkar. Og þótt þær næðu eigi fram að ganga, þá voru þó hafðir latínuskólar á biskupsstólunum frá 1552, þar voru prestar lærðir, en með þeim barst mentunin út um sveitirnar. Auðvitað var aðaláherzla lögð á **kristindómsfræðsluna** einkum framan af. Hún var hið

eina nauðsynlega. Í kaþólskum sið var hún ekki upp á marga fiska: Engir skildu biblíuna nema klerkarnir og messan fór fram á latínu. Þó er boðið í Kristnirétti Árna biskups, að hver maður, 7 vetra eða eldri, skuli kunna **Credo, Pater noster** og **Ave Maria** og auk þess að skíra börn. Annars mun alþýða manna mest hafa lifað á helgisögum og kvæðum. Nú voru **fræði Lúters** þýdd handa alþýðu og skyldu klerkar kenna þau. Tókust þá upp **húsvitjanir** presta. **Messan** fór nú fram á íslenzku eftir **handbók** Marteins biskups er út kom 1555. Verulegt skrið komst á starfsemi þessa í þágu kristindómsfræðslunnar með **Guðbrandi biskupi**. Hann skinnaði upp prentverk það er Jón Arason hafði fengið hingað til lands og gaf síðan út hvert merkisritið á fætur öðru. En áhrif hans má ráða af því, að næstu 2 aldir gerðu menn lítið annað en prenta upp rit hans.

Allir þekkja söguna um **Odd Gottskálksson**, sem varð að flýja í fjósið á biskupssetrinu með ritföng sín, til þess að geta starfað í næði að þýðingu **Nýjatestamentisins.** Þessi þýðing Odds kom út í Hróarskeldu 1540 og er elsta rit prentað á íslenzka tungu sem enn er til. Markar hún tímamót í sögu íslenzkra bókmenta og er sá grundvöllur, er síðari biblíuþýðendur hafa bygt á. Oddur skrifar á máli samtíðar sinnar og gerir það vel. Var eigi lítið undir því komið að skapa í öndverðu fagurt biblíumál, því óvíða eru breytingar óvinsælli en í öllu, sem snertir trú manna. — Guðbrandur biskup tekur við þar sem Oddur hætti og gefur út alla **biblíuna** á Hólum 1584. Er hún í raun réttri engu minna þrekvirki en Nýjatestamentis-þýðingin. Að vísu höfðu ýmsir fengist við að þýða (ýmsa) kafla úr ritningunni, enda tók Guðbrandur bæði Nýjatestmenti Odds og þýðingar Gissurar biskups upp í biblíu sína, en um aðrar þýðingar farast honum svo orð: "Annars slags bækur komu fyrir mig í þann tíma, sem nokkurir aðrir höfðu úr dönsku útlagt eða leggja látið, þær hirði eg og eigi heldur mér að eigna; eigi þær hver eð vill. En svo mikið ómak hafði eg þær sumar dönsku blandaðar útleggingar og brákað mál að yfirlesa, lagfæra og emendera, að það var ei stórt minna vert en að nýju út að leggja, sem bevísað verður. Þeir sem því vilja ei trúa, beri þeir saman sínar góðar útleggingar eða sinna við þessa biblíu." Guðbrands biblía er meistaraverk að innra og ytra frágangi. Fram á síðastliðna öld styðjast allar biblíuþýðingar við hana, en engin jafnast þó á við hana.

Nýjung var það í lúterskum sið, að prestar skyldu flytja

**prédikun** í kirkjunni. Kunnu menn lítt að því í fyrstu. Fyrir því sneri Oddur Gottskálksson prédikunum **Antonii Corvini,** þýzks prests, á íslenzku (prentuð 1546 í Rostock á Þýzkalandi). Þessa **Corvinspostillu** lét Gissur bp. beinlínis lögtaka og skipaði prestum sínum að lesa hana af stólnum "heldur en að hafa í frammi nokkurar óskynsamlegar fortölur eftir rangsnúnum vana einum fyrir fólkinu, þær sem gagnstaðlegar eru guðs orði og áður greindum lögteknum sermónsbókum". Corvinspostilla er fyrsti fulltrúi nýrrar bókmentagreinar, sem getin er af siðskiftunum, og heldur velli enn í dag. Er sú bókmentagrein mikil að vöxtunum, hér skal þó aðeins getið tveggja rita: Annað er **Eintal sálarinnar,** þýðing Arngríms lærða á Martini Molleri: Soliloqvia de passione Jesu Christi, merkilegt rit, af því að Hallgrímur hefir ort Passíusálmana undir áhrifum þess. Hitt ritið er **Vídalínspostilla,** í henni nær bókmentagrein þessi hámarki sínu.

Á síðustu öldum páfadómsins blómgaðist helgikvæðaskáldskapur, undir fornum háttum, en lítið var um sálma í venjulegri merkingu þess orðs, nema á latneska tungu. Í lúterskum sið var það aftur á móti höfuðatriði, að sálmasöngur, eins og önnur guðsþjónusta færi fram á móðurmálinu. Fyrsta sálmabókin sem út kom svo kunnugt sé, voru Marteinssálmar aftan við handbókina frá 1555. Voru sálmarnir allir þýddir úr þýzku eða dönsku og eftir Lúter og aðra siðbótarmenn. Annað sálmakver eftir Gísla bp. Jónsson kom 1558, þar voru sálmarnir þýddir úr dönsku, ef þýðingu skyldi kalla. Tvent er athugavert við þennan sálmakveðskap siðskifta-frömuðanna: 1) að enginn einasti sálmur skuli vera frumkveðinn; 2) hve lítil rækt er lögð við formið. Kveður svo ramt að því að víða t. d. í sálmum Gísla, er eigi aðeins slept stuðlasetningu og höfuðstöfum, þessu aðalsmarki íslenzkrar ljóðagerðar, heldur úir þar og grúir af málvillum, þar sem biskupinn hefir verið að streitast við að þýða orðrétt. Eflaust hafa þessir góðu menn verið hræddir um, að einhver skaðleg villa kynni að slæðast inn í skáldskap sinn, ef þeir leyfðu sér að yrkja á eigin spýtur, eða víkja frá orðum höfundanna. Enda er vart um það, að nokkurra áhrifa frá kaþólskri ljóðagerð kenni í þessum sálmum, það skyldi þá vera í einstökum orðatiltækjum í sálmum Marteins, sem raunar bera líka af hinum eins og gull af eiri. Enginn skyldi þó efast um hreinan vilja þessara manna. Gísli kallar sína bók: **Að Guðs lof megi ætíð aukast á meðal kristinna**

**manna, þá eru hér nokkrir Psálmar útsettir af mér Gilbert Jónssyni á Íslensku með Litaníu og skriptargangi.** 1558. Í bók þessari byrjar meðal annars einn sálmur svo:

Glaðlega viljum vér allelúja syngja
með kærlegheitsins begering,
vort hop og hjarta til guðs skal lyptast
með sinni helgri náð og miskunn
sem hefur leyst oss af allri synd
til saligheit og allskyns treyst
er hann oss öllum upprunninn. —

"Og þetta á að heita guði þóknanlegt", segir Þórir gamli Ketilsson um sálmasönginn í baðstofunni á Gili. En hann hafði líka heyrt "bestu söngmenn sinnar tíðar". Og vér megum ekki dæma þessi sálmaskáld eftir **vorum** smekk. Og þó hefði sálmakveðskapurinn orðið dapurleg bókmentagrein, ef haldið hefði verið áfram á þessa lund. En nú kemur Guðbrandur biskup til sögunnar, og bjargar honum við. Í **sálmabókinni** 1589 og **Vísnabókinni** 1612 beinir hann honum inn á þjóðlegri brautir og gefur honum það snið, er hann varðveitti um næstu tvær aldir og ber miklar menjar jafnvel enn í dag. Fyrst og fremst gætti hann þess, að formið væri í lagi, að fornum íslenzkum sið. Þykir honum það "mjög . . . misráðið og ólaglegt að vanda veraldlegar vísur og önnur ónytsamleg fræði, með mestri orðsnild og mælsku, sem maður kann bezt, en hirða ekki að vanda það, sem Guði og hans lofgerð viðkemur" — eins og hann kemst að orði í formála sálmabókarinnar. Í annan stað fékk hann í lið með sér hina færustu menn og hvatti þá til að yrkja, svo sem sr. Ólaf Guðmundsson á Sauðanesi sem töluvert á í Sálmabókinni og sr. Einar Sigurðsson, sem mikið á í Vísnabókinni. — Hvergi kemur það betur í ljós en í Vísnabókinni að hann vill gera andlega kveðskapinn sem þjóðlegastan, og þó er Vísnabókin deilurit, eins og berlega segir í formálanum, gerð "til þess að af mætti leggjast þær brunavísur og Afmurskvæði, sem allmargir elska og iðka, en í staðinn upptakast þessar andlegar vísur". — Guðbrandur elskar íslenzkt **mál** og íslenzkt **ljóða-form**, en **efnið** er honum viðurstygð. "Menn hafa áður kveðið Rímur af Fornmönnum, til Skemtunar og Dægrastyttingar, og í Frásögur fært þeirra Orð og Gjörðir, því skyldu nú þá Menn ekki heldur kveða Rímur og Kvæði af heilögum

Mönnum, þar bæði er í Heilsusamlegur Lærdómur og góð Dæmi eftir að breyta". — Guðbrandur helti hér nýju víni á gamla belgi, og það gat eigi farið vel. — Hin fornu helgikvæði kaþólskra manna gátu á sínum tíma tekið á sig búning dróttkvæðanna af því að **efnið** var eigi mjög ólíkt, hvortveggja voru **sögukvæði. Rímurnar** eru áframhald dróttkvæðanna bæði innra og ytra, **efni** þeirra er jafnnátengt forminu og sálin er líkamanum. **Biblíurímurnar**, sem í áttu að vera "heilsusamlegir lærdómar og góð dæmi eftir að breyta" urðu nokkurs konar umskiftingur, sem hlaut að veslast upp. — Guðbrandi auðnaðist eigi að fyrirkoma rímunum og brunavísunum með Vísnabókinni. Tveim árum eftir útkomu hennar fæddist Hallgrímur Pétursson. **Passíusálmar** hans hafa lifað rímurnar og brunavísurnar. Þeir eru tvímælalaust fegursti ávöxtur siðskiftanna. — Enn er ógetið einnar merkisbókar frá hendi Guðbrands biskups, en það er **Grallarinn,** sem kom 1594. Var hann sniðinn eftir dönskum fyrirmyndum, og eftir honum fór allur messu og sálmasöngur hér á landi til 1801.

Hér hefir nú verið rætt um þær bókmentir, sem óhjákvæmilega leiddi af siðskiftunum. Koma þær í stað **helgisagna** og **helgikvæða** hins kaþólska siðar, sem nú hverfa úr sögunni. Til þess að forðast öll áhrif frá þeim, höfðu siðskiftamennirnir, einkum í öndverðu, eingöngu þýtt **prédikanir, sálma** og **kvæði.** — Með tímanum óx umburðarlyndi og jafnvel virðing fyrir hinum forna sið: Guðbrandur tekur "Lilju" í Vísnabókina, að vísu með "lagfæringum Arngríms lærða". Og sr. Einar yrkir jafnvel Maríuvísur, þar sem hann segir meðal annars:

Fornu skáldin **fróm** og **ment**
**í fögru versa smíði**
hafa svo dýra diktan kent,
því drottins mær
var þeim kær,
en nú valla einn þann fær,
sem á þær vísur hlýði.

Þannig nær hinn forni og þjóðlegi skáldskapur föstum tökum á mönnum hins nýja tíma og samhenginu er borgið, þrátt fyrir byltinguna.

Þá er að skygnast eftir afleiðingum siðskiftanna í **veraldlegum** bókmentum. Þess var getið í upphafi, að siðskiftin væri

ávöxtur fornmentastefnunnar. Einhver frægasti og greinilegasti fulltrúi þessarar stefnu í íslenzkum bókmentum er Arngrímur lærði, en auk þess má nefna menn eins og Odd biskup, Brynjúlf biskup o. fl. Telja sumir að Gissur biskup sé fyrsti fornmentamaðurinn og að vísu birtist sú stefna í öllu starfi hans í þágu skóla og mentunar hér á landi, svo sem áður er sagt. En þótt siðskiftin hefði eigi orðið, er vísast, að fornmentastefnan hefði borist hingað og haft sín áhrif. Það er jafnvel eigi ósennilegt, að hún hafi þegar verið komin hingað til lands fyrir siðskifti. Var Stefán biskup Jónsson hinn mesti áhugamaður um skóla og fræðslu á sínum dögum. Og rétt fyrir siðskiftin bregður svo við, að nýtt líf færist í kvæðagerðina. Það er því meira en vafasamt, hvort hægt sé að telja endurlífgun bókmentanna eftir siðskiftin **beina** afleiðing þeirra. Hinu skal síst neitað, að þau hafa gefið fornmentastefnunni byr undir báða vængi, og sjálf voru þau svo mikið og gott söguefni, að þau hlutu að draga menn til að rita sögu sína, enda eru fyrstu frumsömdu **sagnaritin,** sem til verða eftir siðskiftin, einmitt um þau, rituð undir handarjaðri Odds biskups. Eru það **Biskupaannálar** sr. Jóns Egilssonar og **Ritgerð um siðskiftatímana,** sem jafnvel hefir verið eignuð Oddi sjálfum. Enginn kostur er hér að lýsa þessum bókmentum nánar.

Í **veraldlegum kveðskap** kennir lítt áhrifa siðskiftanna, að öðru leyti en því, að hann glæðist eins og sagnaritunin, og það af sömu orsökum. **Rímurnar** lifa lífi sínu eins og áður, þrátt fyrir árásir Guðbrands biskups, og það þótt hann vegi að þeim með þeirra eigin vopnum, eins og áður er sagt. Eigi er heldur sýnilegt, að svo stöddu, að siðskiftin hafi haft nokkur veruleg áhrif á **vikivakana,** sem kunna að vera runnir af **fornkvæðunum** svo nefndu og **rímunum,** og lifðu fyrir víst fram á 18. öld. — Þess skal að lyktum getið, að hinn veraldlegi kveðskapur kemst hæst í kvæðum þeirra Stefáns Ólafssonar og einkum Hallgríms Péturssonar á þessu tímabili.

Loks er þá að líta á afleiðingar siðskiftanna í **menningu** þjóðarinnar yfirleitt, að svo miklu leyti sem þess hefir eigi verið getið hér að framan. Menning kaþólsku kirkjunnar var að mörgu leyti glæsileg, hið ytra að minsta kosti. Kirkjurnar eiga búnað góðan í dýrum gripum, þær eru skreyttar myndum helgra manna, messan er viðhafnarmikil, latínusöngurinn, ljóskveikingarnar og reykelsisilmurinn varpa einhverjum helgi- og töfrablæ á alla athöfnina og beina hug og tilfinning-

um manna til hinnar himnesku Jerúsalem. Og hversdagslega eru helgir menn og dýrlingar tiltækir hverjum manni, hvað sem að höndum ber, reiðubúnir til að hjálpa svo að segja fyrir hálft orð. Verði manni á að hrasa, þá er venjulega hægt að kaupa sig í frið við kirkjuna. Og hinu megin er hægt að þreyja Þorrann og góuna í hreinsunareldinum, einkum þeim, sem orðið hefir kynsæll hérna megin og niðjar hans láta lesa sálumessur fyrir honum. Fjandinn verður ekki feitur af fólki á þessum tímum. Naumast getur komið til mála, að hann fái aðra, en allra þverbrotnustu mótgangsmenn heilagrar kirkju.

**Eftir siðskiftin** kveður við annan tón: Kirkjum fækkar, hátíðum og helgum fækkar. Konungsmenn rýja kirkjurnar að öllum verðmætum gripum og spilla helgum dómum; myndir heilagra manna eru ofan teknar; söfnuðurinn syngur sálma á brákuðu máli, presturinn — ef til vill einhver unglingur eða þá gamall bóndi — stígur í stólinn og stafar sig fram úr prédikun í Corvinspostillu. Þar er mönnum harðbannað að flýja á náðir góðvina sinna, Maríu meyjar og helgra manna, þeim er vísað beint til Guðs, sem er álíka hátt yfir þá hafinn og biskupinn eða kóngurinn. Verði manni nú eitthvað á, þá gilda ekki lengur góðverkin, og er ekki í annað hús að venda hinumegin en helvíti, ef ekki fæst fyrirgefning fyrir náð guðs, því nú kaupir sig enginn frí eins og í gamla daga. Og guð er fyrst og fremst réttlátur og strangur guð, sem auðvelt er að styggja, en erfitt að blíðka. Djöfullinn og árar hans fá nú öllu meira að gera en áður bæði heimafyrir og hér á jörðu, enda færast þeir nú að marki í aukana. Það er eigi að undra, þótt tvær grímur fari að renna á menn um það, að reyna að komast að samningum við Kölska, svo að þeir gerðu ekki hvorttveggja í senn: að róa leiðangurinn og gjalda leið-vítið. — Afleiðingarnar af þessu ástandi rétt eftir siðskiftin koma ljóslega fram í trú eða hjátrú manna á 17. öld, galdraöldinni, þegar menn voru brendir fyrir galdra. Það er erfitt að segja hvort undrun eða hrylling verður ríkari í huga manns við að lesa annað eins rit og **Píslarsögu** séra Jóns þumlungs á Eyri við Skutulsfjörð, þar sem hann lýsir nákvæmlega ógnum þeim og skelfingum, er hann þóttist verða fyrir af göldrum og gjörningum tveggja sveitunga sinna, sem báðir urðu að láta lífið fyrir glæp(?) sinn. Prestarnir þruma gegn galdrafarganinu af stólnum, en alt kemur fyrir ekki, jafnvel lærðustu og mætustu menn, eins og sr. Páll í Selárdal verða hvað verst úti, og stoðar ekki, þótt sökudólgarnir — með réttu

eða röngu — sé leiddir á bálið. — Þessum veslings mönnum hefir löngum verið borið það á brýn, að þeir hafi eigi verið með fullu viti, ofstækið og lærdómurinn hafi ært þá. Sjálfsagt er mikið hæft í þeim dómi. Ef til vill gæti þó reynsla andatrúarmanna nútímans bent til annars skilnings.

En hjátrúna á 17. öld má eigi eingöngu skrifa á reikning siðskiftanna, heldur mun hún eiga sér aðrar orsakir með. Ein höfuðorsökin mun vera hin geysimikla flóðalda nýrrar þekkingar á öllum sviðum, sem prentlistin veitir yfir hugi manna. Í þeim staðreynda-straumi druknar sú litla dómgreind, er menn gátu haft, heimskir og heimaaldir við þröngsýni og fáfræði miðaldanna. Um áhrif siðskiftanna á mentun hefir verið rætt áður. Þess skal hér getið, að eftir að einokunin kemst á, leggjast mjög niður ferðir manna til Þýzkalands og annara landa en Danmerkur. Þrengist að sjálfsögðu við það andlegur sjóndeildarhringur manna. — Eins og von er til, sjást miklar menjar hinna erlendu áhrifa í **málinu.** Gætir þeirra í **ritmáli,** sérstaklega í þýðingum og svo að líkindum í tali lærðra manna og þeirra, er bjuggu í námunda við kaupstaðina og aðrar stöðvar danska valdsins hér á landi. En í sveitunum geymist hreint mál, verndað af **sögum** og **rímum.**

Kúgun andleg og líkamleg hefir ætíð **siðspilling** í för með sér. Einokunar verzlunin blæs að kolunum með því að flytja gnótt **brennivíns** og **tóbaks** inn í landið og skamta mönnum skemdan mat úr hnefa. Siðferðið batnar því lítt, þrátt fyrir þunga refsidóma og strangar fororðningar.

Hér hefir þá verið reynt að rekja afleiðingar siðskiftanna, og er nú mál, að komast að niðurstöðu, svo óglæsileg sem hún hlýtur að verða. Blasir við **sjálfstæðismissir** í **efnalegu** og **stjórnarfarslegu** tilliti í hendur erlends kúgunarvalds. Í **bókmentum** aftur á móti er framsókn, þótt afurkippur komi fyrst í stað; Passíusálmunum verður ávalt skipað á bekk með því bezta í íslenzkum bókmentum. Annars er menningarástandið meingallað: **trúarofstæki, ofurlærdómur** og **fávizka** í einu einkenna galdra-öldina. Þaðan liggur aðeins ein leið til lífsins, sem heitir **aukin** sönn þekking. Til allrar hamingju höfðu siðskiftamennirnir einnig markað þau einkunnarorð á skjöld sinn.

Voru siðskiftin hagur fyrir íslenzku þjóðina eða voru þau óbætanlegt tjón? — hver veit. — En þau voru **reynsla** í lífi þjóðarinnar og þjóðernið stóðst þá eldraun. Síðasta afleiðing siðskiftanna er **baráttan,** sem þjóðin háði til þess að rétta við.

**Baráttunni** er lokið. — Þjóðin er orðin stór, sterk og frjáls. — Vér, sem nú lifum höfum ekki þurft að kvarta. En mundum vér eigi hafa gott af að hugfesta oss gamla spakmælið:

**Það þarf sterk bein til að þola góða daga.**

---

# Hringurinn

*Hringurinn — hann er ei falur.*
*Eg heillandi tilboðum synja.*
*Með farmanni kærum hann fluttist um sæ.*
*— Var fundinn á götu í kínverskum bæ.*
*Og mér var hann gefinn til minja.*

*Svo er hljóðlát kínversk kona,*
*sem kemur oft til mín í svefni.*
*Hún bendir á hringinn á hendi mér,*
*horfir með söknuði á fingur sér.*
*— Eg skil hennar áhyggju efni.*

*Hún vill fingurgullið mitt góða,*
*með græna steininum fína.*
*Eg dreg það með hægð af hendi mér.*
*Hún ber það óðar á fingur sér,*
*og augun af ánægju skína.*

*Hún talar — um hringinn sinn týnda:*
*"Eg trega — og leita — og sakna.*
*En þráin mér leiðbeindi þegar eg svaf!*
*Það er oft greiðsiglt um draumljómað haf*
*— og vonbrigðin stærstu að vakna."*

*Það er hljóðlát kínversk kona,*
*sem kemur oft til mín í svefni.*
*Hún biður um hringinn — og ber hann um stund.*
*— Blítt er af samúð um draumalands fund.*
*— Og minningin unaðarefni.*

Jakobina Johnson

—Seattle, Wash.

# Ábyrgðarhluti vor á sviðum fræðslu fullorðinna

Eftir STEFANÍU SIGURÐSSON

Erindi flutt í Winnipeg í júní 1944, á þingi Sambands kvenfélaganna.

---

Þegar forsetinn yðar bað mig að tala á ársþingi yðar þetta ár, var hún svo væn að leyfa mér að ákveða, hvaða efni eg skyldi velja til að ræða um. Eg hefi ákveðið að tala um þýðingu fræðslu fullorðins fólks. Fyrir því eru tvær ástæður. Hin fyrri er sú, að eg hefi sjálf áhuga fyrir þessu efni, og hefi kynt mér það árum saman, og er mér þessvegna ljúft að minnast hér á aðferðir þær, sem notaðar eru við þessa fræðslu, og þann vanda, sem þessari kenslu fylgir. Hin ástæðan er sú að þér, áheyrendur mínir, eruð vegna trúarskoðana yðar og stefnu kirkjudeildar þeirrar er þér fylgið, auk grundvallarlaga félagsskapar yðar, og þeirrar lærdómshneigðar, sem hefir einkent forfeður yðar öldum saman, ætíð að starfa í þessa átt. Þessvegna er ekki þörf á því, að verja löngum tíma til að útskýra fyrir yður, nauðsyn þessarar fræðslu, á hvaða sviði, sem hún er iðkuð, né brýna fyrir yður þær skyldur, sem hvíla á hverjum manni að ala upp með sér persónulega ábyrgðartilfinningu.

Væri þetta ekki svo, mundi eg ekki reyna á jafn stuttri stund, að ræða í svona fáum orðum, eins viðfangsmikið mál.

Þegar rætt er um fræðslu fullorðins fólks er gott að íhuga hvað í því felst. Fræðsla fyrir fullorðna bendir til með nafninu, að hún sé ætluð fullorðnu fólki, til að greina hana frá fræðslu barna og unglinga. Eg vil skifta þessu í tvö svið: Skipulagða uppfræðslu, sem tekur yfir barnaskóla, miðskóla og háskóla. Skipulögð uppfræðsla krefst þess að nemandinn svari vissum kvöðum frá fyrsta bekk upp í hina hærri skóla. Einnig er meðal allra skóla í öllum löndum samkomulag um lærdómsstig nemandans og bekk. Við hvert stig í kerfi þessu fær nemandinn skírteini, sem sýnir hvað hann er kominn langt. Nemandinn getur flutt bæja á milli, fylkja og jafnvel til annara landa og haldið námi sínu áfram, án þess að breyta neinu, nema að litlum mun.

Þetta er hinn skipulagði lærdómur og með honum vonumst við til að geta gefið hverri kynslóðinni af annari arf þekkingarinnar, og hjálpað þannig einstaklingnum að umskapa samfélag það, sem hann býr í.

Fræðsla fyrir fullorðið fólk er aftur á móti miklu síður skipulögð. Þar lýkur nemandinn engu prófi að afloknu námi, er veiti honum rétt til stöðu eða iðngreinar. Nemandinn velur námið sjálfviljugur, en takmark hans með því, sprettur af löngun hans til að þroska sjálfan sig.

Fræðsla fullorðinna takmarkast ekki við aldur manna. Þrítugur maður ákveður kanske að læra eitthvað sérstakt, til að gera sig hæfan til að fá einhverja stöðu, og gengur í þeim tilgangi á skóla, tekur þar burtfararpróf og fær vottorð um það. Það er ekki fræðsla fyrir fullorðið fólk. En sextán ára unglingur, útskrifaður úr unglinga skóla, langar til að fræðast meira um eitthvert efni, eða um það starf, sem hann hefir valið sér, og leitar sér þessarar fræðslu, er greinilega að læra á því sviði sem fræðsla fyrir fullorðið fólk gerst á. Í stuttu máli, fræðsla fyrir fullorðið fólk hefir þennan eina tilgang, að veita einstaklingnum tækifæri til að fullkomna sjálfan sig, ef hann vill það sjálfur og eins og hann vill sjálfur.

Mörg ár eru nú liðin síðan baráttunni fyrir ókeypis uppfræðslu allra var lokið með sigri. Í öndverðu var það takmark þeirra, sem fyrir henni börðust, að hverjum einstakling þjóðfélagsins væri trygt eitthvert lágmark uppfræðslu. Þess vegna voru gerð lög um skólaskyldu. Brátt kom í ljós þörfin fyrir meiri fræðslu. Drengur getur ekki fram að sextán ára aldri, numið nóg til að ráða fram úr þeim vandamálum, sem honum kunna að mæta á fimtugs aldri. Á þessum breytingarinnar tímum, geta mjög fáir unnið fyrir sér með, eða látið sér nægja þá þekkingu, sem þeir fengu í barnaskólanum.

Það er sagt að þekkingin sé höfuðstóll, en lærdómurinn tekjur. Flestir verða að halda áfram að læra eins lengi og þeir lifa. Vandinn við fræðslumálið er þessi: hvernig alþýða manna geti haldið náminu áfram meðan æfin endist.

Hina síðast liðnu öld hefir fræðsla fullorðins fólks aukist smátt og smátt, hvað skilning manna á henni og aðferðir snertir. Brautryðjandinn á þessum sviðum var danski biskupinn, N. F. S. Gruntvig. Hann hugðist að stofna háskóla, sem veitti nemendunum ekkert sérstakt mentastig. Þar átti að kenna ungu fólki að verða góðir borgarar. Þetta fórst fyrir en úr

þessari tilraun hans spruttu hinir dönsku lýðháskólar. Hann hóf starf sitt 1844 og það bar þann ávöxt, að Danmörk, sem um þetta leiti var fátækt land, varð vegna þeirra áhrifa, sem þessi fræðsla veitti, fræg fyrir landbúnaðar afurðir sínar. Norðurlönd voru um langa hríð leiðtogar lýðfræðslunnar á öllum sviðum hennar. Mentaþroski þessara þjóða bar sjálfum sér vitni með hinum viturlegu framsæknu lögum er þær settu. Alþýðu fræðsla þessara landa fór fram í lýðháskólunum, kvöldskólum, með fræðandi fyrirlestrum, og félögum, sem voru stofnuð til að menn fræddust sameiginlega. Þessi viðleitni var styrkt af stjórnunum, verkamannasamtökum, háskólunum og sjálfboðum. Þegar Olson, háskólakennari var í Winnipeg, stuttu eftir 1930, sagði hann, að innan I.O.G.T. félagsins væru þrjú þúsund námsdeildir. En fræðsla fullorðins fólks á Norðurlöndum lýsir sér bezt í lýðháskólunum. Við könnumst allir við þá. Sýnishorn þeirra birtist á Íslandi í hússtjórnarskólanum. Er vér berum þennan skóla saman við heimilishagfræði þá, sem Manitoba háskólinn kennir, sjáum vér muninn á skipulögðu námi og fræðslu lýðskólanna.

Ef vér tökum hússtjórnarskólann á Íslandi, sem dæmi um lýðháskóla, sjáum vér greinilega hvernig þannig löguð uppfræðslu aðferð starfar. Stúlka innritast í skólann og lærir þar atriði, sem lúta að heimilisstörfum, að loknum tíma á skólanum fer hún heim, og notar þekkinguna, sem hún öðlaðist við heimilisstörfin. Sem einstaklingur aflaði hún sér þekkingar og gerði með þekkingunni heimili sitt fullkomnara, og sveitafélag sitt líka er hún varð sjálf fullkomnari. Vér höfum haft þá ánægju að fá heimsókn leiðandi konu frá Íslandi í þessum efnum, fröken Halldóru Bjarnadóttir, og heyrt hana segja frá hvernig hreyfing þessi breiddist út.

Alþýðufræðsla á Englandi dafnaði fyrir alþýðufræðslu háskólanna og fræðslustarfsemi verkamanna félaganna. Albert Mansbridge vann að sameiningu hinna tveggja fræðslukerfa, en úr þessu varð nýr skóli, "University Tutorial Class". Nemendur þessa skóla urðu að lofast til að stunda þar nám í þrjú ár. Hefir skólinn vaxið mjög. 1908 höfðu tveir bekkir hans 38 og 40 nemendur hvor um sig, 20 árum síðar voru þar 9,999 nemendur. 1924 gerði kenslumálaráðuneytið á Englandi reglugerð um fræðslu fullorðinna ,og eftir því sem fjárframlög og leiðbeiningar stjórnarinnar jukust, hefir starfsemin aukist.

Í Bandaríkjunum hefir fræðsla fullorðinna risið upp úr

sumarskólum og námsskeiðum, skriflegri kenslu og fyrir starfssemi kvenfélaga. Sumarnámskeiðin hófust fyrir meira en öld síðan og kenslan fólst að mestu leyti í fyrirlestrum. Alþýðufræðsla þess lands hefir að mestu bygst á frjálsum fjárframlögum og er nú styrkt af miljóna sjóðum eins og Pratts-stofnuninni, Carengie-félaginu, Cooper-sambandinu og Peabody og Slater sjóðunum.

Í Canada getum vér sýnt ágætan árangur á þessum sviðum. Hreyfingin hófst með starfi séra Tomkins, prests í Reserve Mines, sem er smáþorp í Nova Scotia. Fólkið þarna var fátækt og þjakað í fylstu merkingu þess orðs. Séra Tomkins stofnaði, með aðstoð Dr. H. M. Coady, yfrimanns deildar þeirrar við St. Francis Xavier háskólann, sem sér um alþýðu fræðslu, námsdeildir til að rannsaka og finna ráð við vandræðum þessa fólks. Ekki þurfti að leita lengi að því, að helztu vandræðin stöfuðu af fátækt þess. Margir voru á sveitinni. Dr. Coady sagði við þá: "Til þess að bæta kjör ykkar, verðið þið að læra hvernig þið eigið að fara að því. Þið verðið að læra þetta með því, að ganga í námsdeildirnar, og háskólinn mun hjálpa ykkur alt, sem hægt er." Þessir menn lærðu, rannsökuðu og hófust síðan handa. Þeir vörðu tveimur árum til að læra áður en fyrsta fyrirtæki þeirra fór af stokkunum. Það var bteri húsakynni fyrir sjálfa þá. Þeir lærðu aðferðir til að gera betri markaðsvöru úr fiskinum sínum, og að sjóða hann niður og að selja hann. Þessir menn á Cape Breton sýndu, að með skynsamlegri leðisögn, geta menn, séu þeir fúsir að læra og starfa saman, leyst úr öllum sínum vandamálum og viðfangsmálum sjálfir. Eftirtektaverðasta atriðið þarna var tímasparnaðurinn. Stórbrotnar framfarir, sem þurftu mannsaldur í Danmörku, báru þarna ávexti eftir tíu ár.

Ráðin sem höfð eru við fræðslu fullorðinna eru: Lýðháskólar, fyrirlestrar, framsögn, sem áheyrendurnir ræða á eftir, námsdeildir, málfundafélög, leikfélög, deildir sem kynna sér bókmentir, söng og handiðnir. Aðferðirnar sem notaðar eru við fræðsluna eru helzt þessar: Lýðháskólarnir nota skólastofu, fyrirlestrar og bækur eru notaðar í námsdeildum, sama aðferðin er notuð í málfundafélögum. Samvinna verður að vera í leikfélögum, söngfélögum og þegar menn nema handiðnir.

Margskonar hjálpargögn koma að góðu haldi við fræðsluna. Lestur ritgerða í tímaritum, bækur og blöð, hlusta á ræð-

ur í útvarpinu og fyrirlestra, og með því að horfa á kvikmyndir og sýningar.

Þeir sem starfa að alþýðufræðslu reisa hæðstu vonir sínar á námsdeildunum, vegna þess, að sú aðferð veitir eigi aðeins einstaklingnum fræðslu, heldur kennir honum samvinnu og þekkingu á vandamálum annara. Þar er hver aðili þiggjandi og veitandi, og með þessari aðferð eru oft leyndir leiðtogahæfileikar vaktir, svo að úr þessum deildum koma oft leiðandi menn, sveita og bæjarfélaganna. Þýðingarmesta atriðið fyrir slíkar námsdeildir er góð leiðsögn, án hennar hangir deildin um stund og deyr svo út af, og sagt verður að félagsfólkið hafi einhvernveginn mist áhugann.

Hjálparmeðul þau, sem notuð eru við fræðslu fullorðinna eru fyrst og fremst bækur. Séra Tomkins sagði: Ef yður langar til að breyta ástandinu, verðið þér að nota hugann, þér verðið að hafa bækur, því að þær eru háskóli almenningsins. Vegna bókanna geta mestu leiðtogar og kennarar mannkynsins, heimsótt smáflokka í afskektum þorpum. Útvarpið hefir einnig möguleika til leiðsagnar, og nú eru gerðar kvikmyndir í þeim sérstaka tilgangi að vekja umhugsun, “Think film”.

Margir, sem hafa sterkan áhuga fyrir alþýðu fræðslu líta a hana sem ráð til að breyta aldar andanum. Ekkert mannfélag er svo fullkomið að það þurfi ekki á lýðfræðslu að halda. Þeim mun fróðara sem það verður þess meira tækifæri býður það einstaklingum sínum til að fullkomna sjálfa sig, og þeim mun meiri þörf er á alþýðu fræðslu.

Þessvegna getum við skoðað hana sem ráð til að mentun almennings geti stöðugt haldið áfram. Hún er áhald, sem gerir mönnum það auðið að ná tökum á vandamálum sínum og skilja rökin, sem að þeim liggja. Takmark hennar er að gefa hverjum manni tækifæri til að öðlast þroska, fylla þarfirnar í mannfélagi sínu á sviðum vitsmuna og menningar. Hún nær yfir það svið, sem maðurinn lifir lífi sínu á, og þar sem áhugamál hans eru. Hún getur birst sem leiðbeining í því, hvernig húsfreyjan eigi að sjóða niður matvæli, eða sem betri aðferð að ala upp kjúklinga, eða sem tilsögn í bókfærslu á heimilinu.

Alþýðu fræðslan getur kent með því, að sjónleikur er æfður, eða með fyrirlestrum, eða sem kvikmyndafélag, lestrar- eða málfunda-félag. Hún getur starfað sem námsdeild, er rannsakar málefni sveitarfélagsins eða þjóðfélagsins, en hún er ætíð hlutkend, snertir mann og hefir ákveðið mark-

mið og umfram alt er mentunar samtök fólks, með svipuðu sjónarmiði yfir sinn eigin heim.

Konurnar hafa helzt lagt stund á þá grein alþýðufræðslunnar, sem beinist að umbótum heimilanna. Þýðing stöðugrar fræðslu á þessum sviðum verður aldrei nógsamlega brýnd fyrir fólki. Á þessum styrjaldartíma höfum vér séð risaraxnar tilraunir gerðar til að fræða almenninginn um fæðuna, hversu heilsan sé nauðsynleg, og að hún byggist á réttri fæðu. Þetta verður ætíð skýrar fyrir mönnum á ófriðartímum, og stjórnir landanna fræða þá stöðugt húsmæðurnar um, hvernig þær eigi að velja fæðuna og matbúa hana, svo að fjölskyldur þeirra verið heilsuhraustar. Þegar vér sjáum allar bækurnar, ritgerðirnar í tímaritunum, útvarpstímana, kvikmyndirnar, fyrirlestrana og námsskeiðin, sem árum saman hafa verið helguð til að fræða almenning um matreiðslu, og hvaða mat eigi að éta, og hugsum svo um öll hin atriðin, sem snerta heimilishaldið, þá sjáum vér hversu afskaplegt verkefni það er ef vér eigum að kynna oss það alt til hlýtar.

Gerið yður grein fyrir hversu mikið þarf að starfa á þessu sviði og svo skulum vér spyrja oss sjálfar: "Verður ekki verkefnið mælikvarði á vanþekkingunni, og verður ekki ábyrgðarhluti vor að mælast við þörfina?"

Í tilliti til alþýðu fræðslu er fyrsta skylda vor gagnvart sjálfum oss að vera fróðir einstaklingar. Með þessu á eg ekki við að menn eigi að leitast við að vita um alla hluti, eins og t. d. alfræðis orðabók, heldur að leitast við að kynnast ástandinu eftir því sem heimur vor breytist.

Það er auðvelt að hætta að læra og láta reka á reiðanum, og vera ánægður með þær hugmyndir, sem giltu fyrir 10, 12 eða 20 árum síðan. Þær gátu verið góðar þá, en þær eru mjög sljó vopn, eigi að berjast með þeim í dag.

Hin fræga blaðakona, Dorothy Thomson, segir í einni sinni ágætu blaðagrein, að vér stöndum á takmörkum hins mesta hjátrúartímabils, sem sögur fara af. Hún byggir þessa staðhæfingu á því, að vísindum og tækni hafi fleygt svo fram, að það yfirgangi gersamlega skilning almennings, og verði menn því auðveldlega trúaðir á kraftaverk. Þegar radíóið kom fyrst til sögunnar, fanst mörgum það vera kraftaverk. Þeir sneru hnapp og heyrðu raddir úr lausu lofti. Þar sem til eru svo mörg atriði, ný og óþekt almenningi, eins og radíó, flugvélar, kraftalyf, svo sem Sulpha-lyf og penicillin,

er starfa fyrir augum manna, þá er stutt spor að þeirri trú, að alt sé mögulegt, þótt sá sem trúir því, hafi ekki minstu þekkingu á því hvernig það gerist.

Við munum allar eftir fyrstu Social Credit kosningunni í Alberta, þegar fólki var sagt, að eins og það gæti snúið hnapp og fengið rafljós án þess að skilja hvað rafljós væri, svo gæti það komist af án þekkingar á hagfræði, en samt haft velmegun, ef það greiddi Social Credit atkvæði sitt, sem með hjálp æfðra sérfræðinga, mundu láta auðlindir landsins færa hverjum einstaklingi þess velmegun og persónulegar tekjur. Hvort kenningar Social Credit stefnunnar eru réttar eða rangar, kemur þessu máli ekki við, eg tek þetta aðeins sem handhægt og ljóst dæmi um það, hvernig nota má skilningsleysið.

Hverjum einasta manni er nauðsynlegt að vita vissar staðreyndir. Oss er kent "að þekkja sannleikann, og sannleikurinn mun gera yður frjálsa". Hver dagurinn sannfærir oss um nauðsyn þess að vita. Vér verðum jöfnum höndum að forðast trúgirnina og hinn lokaða huga. Fyrir fáum vikum síðan, heyrði eg konu segja: "Hversvegna hefir enginn sagt okkur þetta?" Þetta er bæði barnaleg og fákænskuleg spurning, að einhver eigi að sega oss hlutina. Það er vor eigin skylda að finna fyrir oss sjálf, og eins hvernig vér eigum að þekkja sannleikann, að þekkja rödd þess er flytur þekkinguna, frá rödd trúðursins.

Þetta er það, sem eg á við með því að hafa skýra meðvitund um grundvallar sannindi. Höfum vér ekki þá meðvitund, þá verðum vér áttavilt, eða það sem verra er flækjumst í neti einhverrar áróðrarstefnunnar.

Það er sagt að þegar karlmaður sé mentaður, sé einstaklingur mentaður, en þegar kona sé mentuð, þá sé fjölskylda mentuð. Konan sem skapar með aðstöðu sinni aðstöðu heimilisins hefir mikinn ábyrgðarhluta, þann að gleyma ekki að auka ætíð þekking sína á hvern þann hátt, sem henni er auðið. Síðast liðinn vetur flutti útvarpið ræðuflokk. Kona frá Montreal flutti ræðurnar, sem nefndust "Konan og friðurinn".

Í einni ræðunni mælti hún þessi eftirtektaverðu orð, að hendin, sem ruggaði vöggunni hefði sjaldan áhrif í heiminum, ef hugurinn á bak við hendina hefði aldrei haft annað viðfangsefni en að rugga vöggunni.

Ein aðalskylda vor, sem þegnar í þjóðfélaginu er áhugi fyrir almennings heill. Vér heyrum mikið talað um félags-

lyndi og leiðsögn á því sviði. Þetta er margþætt atriði, en eg takmarka þessa umræðu við ábyrgð vora á einu sviði, það er fræðsla fullorðinna. Vér sem konur í Unitara kirkjunni, sem hrósum oss af að hlýta vitsmunalegri leiðsögn, höfum sérstaka ábyrgð gagnvart umhverfi voru.

Þú segir ef til vill: Hvað get eg gert sem einstaklingur? Eg á heima í mannfélagi, sem er langt á eftir tímanum, og hefi engin áhöld til að vinna með. Ef eg reyndi að stinga upp á einhverjum nýungum, yrði eg aðeins rödd hrópandans í eyðimörkinni. Þetta getur verið rétt, en sannleikurinn verður samt þessi, að flestar sigursælar hreyfingar, eiga rætur sínar að rekja til eins manns. Þetta er aldrei hægðarleikur og ætíð nægir steinar í götunni.

Við og við sjáum vér í fámennum þorpum dásamlegar framkvæmdir, gerðar af íbúunum sjálfum. Frægast slíkra fyrirtækja eru leiksýningarnar af píslarsögunni, sem sýndar eru tíunda hvert ár í Oberammergau, og eru heimsfrægar, en allir þátttakendur eru fólk úr bygðinni. Á þessu meginlandi mætti nefna söngflokkinn í Lindsborg, sem álitinn er af færum dómurum, beztur sinnar tegundar í heimi. Stofnaður 1887 og 500 manns, sem að honum standa, eru allir úr bygðinni. Allir geta ekki sýnt þessi þrekvirki samtakanna. En einhverstaðar á leiðinni þar sem lýðháskólarnir í Danmörku, Cape Breton, Oberammergau og Lindsborg eru, gætum við komist að með samtök í þessum efnum. Einn háværasti stjórnmálaflokkur vor, heldur því fram að einn maður hafi áhrif á hverja 24. Hvað marga þarft þú til að vekja áhuga í bygðinni þinni?

Þegar þér hugsið um bygðina yðar í þessum efnum, er fyrsta sporið að komast að, hvaða tilraunir eru gerðar þar til lýðfræðslu. Er bókasafn þar? Ef þér búið í Manitoba verður svarið neitandi. Til eru lestrarfélög, eins og íslenzku lestrarfélögin okkar, helguð sérstökum tilgangi. Ef bygðin hefði bókasafn, þótt ekki væri nema lítið, mætti nota það sem vísir að bókaskiftingu við önnur slík söfn. Mig langar í þessu sambandi til að minnast á sunnudagaskóla bókasöfn, þann þátt, sem þau geta átt í að afstýra afbrotum unglinga. Notar sveitin yðar sér farkenslu stjórnarinnar? Notið þér kvikmyndirnar, sem stjórnin lánar? Þetta eru alt uppfræðslumeðöl til að fræða almenning, og vekja hjá honum hæfileika og áhuga til menningar. Það er skylda vor að sjá til þess, að þau gögn, sem

Manitoba hefir til lýðfræðslu, séu notuð og starfi í umhverfi voru.

Eitt atriði er enn, sem vér skulum íhuga og það er ábyrgðarhluti einstaklingsins gagnvart sínum eigin félagsskap. Hann á að vita, hvaða tilgang félagið hans hefir, og sjá til þess, að það víki ekki frá þeim tilgangi, og dreifi þannig kröftunum í aðrar áttir. Oft kemur það fyrir að menn ganga í félag, sem gera það að markmiði sínu að víkja stefnu félagsins smám saman frá upprunalegu marki þess, og beina henni í aðrar áttir. Þetta megið þér ekki láta koma fyrir. Ef kvenfélögin innan Sambandsins hefðu námsdeildir undir leiðsögn hæfilegs leiðtoga, og hver deild tæki eitt af aðalmálum þess til íhugunar og lærdóms mundi það koma bráðlega í ljós, að félagskonur vorar yrðu brautryðjendur á þessu sviði í umhverfi sínu.

Vér erum að leggja út í víðtæka starfsemi á sviði heilbrigðismálanna. Sjúkraábyrgð mun brátt ganga í gildi. Það er allmerkilegt að kynna sér þetta atriði, og ætti hver borgari að vita um það. Sem þjóðfélag stöndum vér andspænis þeim vanda, að fullkomna heilbrigðis eftirlitið, án þess að stofna um leið risavaxnar stjórnardeildir til að sjá um vátrygginguna, né hefta um of sjálfstæði læknastéttarinnar. Í Indiana hafa 305 læknar myndað félag með sér til að tryggja sjálfstæði stéttar sinnar gegn ríkinu, og til að vinna í félagsskap með fríviljuglegri tryggingu fólks fyrir sjúkdómskostnaði. Hvorki læknar né tannlæknar, eru fúsir að ganga í þjónustu stjórnarinnar og er þeim það varla láandi, þegar vér sjáum kjör kennaranna, sem er eina lærða stéttin, sem vinnur hjá stjórninni. Mörg vandasöm atriði felast í þessu heilbrigðismáli, og verða þau eigi útkljáð með einföldum staðhæfingum, eins og að segja, að vér ætlum að greiða atkvæði með góðri heilsu handa öllum. Vér verðum að læra að skilja, og því næst að starfa kostgæfilega að því marki, sem vér höfum sett oss.

Í voru eigin umhverfi bíða vor allra þýðingarmikil verkefni á sviði heilbrigðismálanna, sem þarf að skilja og ráða fram úr.

Á sviði uppeldismálanna höfum við hér í Winnipeg fræðslufélag foreldra, sem árum saman hefir unnið ágætt starf á sviði alþýðu fræðslu. Félag þetta hefir haft þá aðferð, að ræða málefnin, hafa fyrirlestra og námskeið. Það styrkir deildir, sem hafa áhuga fyrir uppfræðslu foreldra. Lýðfræðslunefnd Mani-

toba-háskólans veitir einnig slíkum deildum aðstoð og leiðbeiningar. Þetta er örðugt efni, en það er þýðingarmikið, að nú á tímum höfum vér heilan her sérfræðinga og leikmanna, sem leiðtoga í þessum efnum. Í þessu landi hefir foreldra fræðsla færst nær lýðskóla en nokkuð annað form lýðfræðslunnar. Sumir ætla að hinir sjálfmentuðu leiðtogar geri of mörg mistök, en lærðir leiðtogar fást aldrei nógu margir til að svara þörfinni, þeir sem halda fram leikmönnum, segja að ekki sé nema um tvent að ræða, þá, eða leiðsagnarlausa fáfræði.

Leiðtogi með nokkurri reynslu og góðri greind, getur verið mikil hjálp til að leiðbeina í skilningi tilfinningamálum venjulegrar fjölskyldu. Slíka leiðtoga getum vér fundið innan heildar vorrar, og með vel skipulögðum námsskeiðum getum vér bætt mjög uppeldi barnanna í umhverfi voru.

Þá er enn eitt mál, sem félagsskapur yðar hefir á dagskrá sinni. Það er friðarmálið. Það er svo víðtækt málefni, að eg hika við að minnast á það hér, þótt ekki sé nema lauslega. Þessi mikla styrjöld hefir kent oss, að frelsið getur ekki þrifist neinstaðar nema að það ríki alstaðar. Þegar sá sannleikur verður oss ljós, og sannfæring allra, þá mun einangrunar stefna og þröngsýn, eigingjörn þjóðernistilfinning hverfa, en menn líta á málefnin frá sjónarhæð alþjóðamálefna, en þegar það verður færist hugsjón friðarins nær. Á fundi, sem hafði til umræðu hvað lýðfræðsla gæti gert fyrir heiminn að ófriðnum loknum, hélt Dr. Henry J. Carman því fram, að brýn þörf væri á lýðfræðslu fyrir þjóðfélagið, og mentað fullorðið fólk. Hann hvatti öll sveitafélög, klúbba og verkamannafélög að stofna lýðfræðslu samtök og málfunda félög.

Christian Register sem kom út í júní 1944, gaf útdrátt af námsskeiði um friðarmál, sem mundi mjög haganlegur fyrir þennan félagsskap.

Þið í þessum félagsskap hafið mikilvæg málefni til að kynnast og vinna að. Og með þeirri hjálp, sem leiðsögn Unitarakirkjunnar hefir gefið á liðinni tíð, þá munið þér vinna að þeim trúlega. Eg hlakka til þeirrar stundar, þegar skýrsla forstöðukonu fræðslumálanna verður áhrifamesta skýrslan á ársþinginu.



# Leikskóli í New York

"Eg reyni að hafa svipaða aðferð við börnin í leikskólanum mínum eins og fuglarnir hafa við ungana sína. Eg læt þá vappa út úr hreiðrinu og reyna krafta sína, en eg hefi auga á þeim. Á þann hátt læra þau að treysta á mátt sinn og megin, sem er hverjum manni nauðsyn." Þannig komst Mrs. Kathleen Pearson Will að orði, sem er forstöðukona fyrirmyndar leikskóla í New York.

Hún hefir 45 börn undir handleiðslu sinni á aldrinum 2—6 ára og 5 kennara. Börnin koma í skólann kl. 9 á morgnana og eru þar til kl. 5 e. h. Leikskóli hennar er á fallegum stað í Long Island, New York. Kringum hann eru stórir leikvellir og nóg viðfangsefni fyrir hraust og dugleg börn. Þau hamast þar í rólum, eru önnum kafin við að byggja hús í sandkössum, eða renna sér niður bratt bretti, vega salt o. s. frv. Á vorin hjálpast þau við að gróðursetja blóm og tré í garðinum og fylgjast þannig með vexti þess dag frá degi. Þau læra söngva, ýmsa leiki og að klippa út allskonar myndir og lita þær. En fyrst og fremst læra mörg eftirlætisbörn að leika sér saman í bróðerni um leið og þau þroskast og dafna á líkama og sál við leiki og störf í skemtilegu og rólegu umhverfi.

Það er ákaflega gaman og fróðlegt að heyra þessa reyndu og gáfuðu miðaldra konu skýra frá starfi sínu. Hún segir að árið 1929 hafi sér fyrist dottið í hug að koma á fót smábarna leikskóla. Þau hjónin höfðu þá nýskeð mist aleigu sína í hruninu í Wall Street. Gef eg henni þá orðið:

"Eg ætlaði mér upprunalega að verða læknir, en varð að hætta vegna fjárskorts. Eg lauk þá kennaraprófi við Cornell háskólann, lærði einnig hjúkrun og tók sem sérgrein matarhæfi og uppeldisfræði barna. Mig langaði til að starfa utan heimilis, en eg gat hvergi komið litlu dóttur minni fyrir, sem þá var tveggja ára gömul. Þær stofnanir sem voru álitlegastar voru óheyrilega dýrar, þar að auki ábótavant í mörgu. Á hinn bóginn hefi eg ótrú á að skilja börn eftir undir umsjón venjulegs þjónustufólks. Þau eiga heimtingu á að njóta verndar hjá betur mentu fólki. Þá fékk eg þessa hugmynd að stofna leikskóla, því eg var viss um að þess væri þörf fyrir margar mæður. Eg ákvað þá að gera það að lífsstarfi mínu."

Hún byrjaði með að hugsa um fáein börn, en nú hefir hún miklu fleiri umsóknir en hún getur sint.

Mrs. Will notar sálarfræði við að leiða sína ungu nemendur. "Við flengjum börnin aldrei. Það elur aðeins upp í þeim mótþróa og löngun að hefna sín. Og við forðumst að taka neikvæða aðstöðu þegar við siðum þau. Við segjum ekki 'Gerðu þetta ekki!' Ef að barn gerir eitthvað, sem það má ekki gera, þá bendum við því á, hvernig það eigi að gera það og segjum 'Við skulum heldur gera það svona.' Þegar þau óhlýðnast hegnum við þeim með því að einangra þau um tíma. Kennararnir skrifa niður það sem börnin hafa gert af sér og áður en lagt er af stað heim á kvöldin, fá þægu börnin seðil með rauðri stjörnu í viðurkenningarskyni, en hinum er sagt hversvegna þau fá ekki stjörnur.

Svipuð sálarfræði er höfð um hönd í borðstofunni. Þar sitja börnin við lítil borð og læra borðsiði án þess að vita af því. Fæðan er holl og matreidd undir umsjá lærðrar matreiðslukonu. Barnið borðar þar miðdagsmatinn og ef því finst grænmetið eða gulræturnar ólystugt og leifir því er diskurinn tekinn í burtu eftir nokkurn tíma orðalaust. Enginn hvetur það til að borða eða atyrðir það. En eftir nokkurn tíma verður barnið að velja þann kostinn að borða alt umyrðalaust eða fá ekki neitt, og kýs það þá venjulegt fyrri kostinn.

Eg hafði mikla ánægju af að sjá borðhald litlu barnanna. Þau eru svo hraustleg og frjálsmannleg og ekki frekar hávaði hjá þeim en siðprúðu fullorðnu fólki. Þarna voru mörg efnileg börn. Einn 3 ára drengur var mjög kurteis og skrítinn. Mér var sagt að hann hefði svo auðugt ímyndunarafl að honum væri ómögulegt að stilla sig um að breyta um nafn á hverjum morgni þegar hann kæmi í skólann!

Að máltíðinni lokinni gengur hvert barn frá sínum stól og hvílir sig síðar í rúman klukkutíma í litlum "bedda". Kennarinn sem hefir umsjá með þeim sagði, að flest væru sofnuð eftir 10 mínútur.

Forstöðukonan hefir líka sérstaka aðferð við að venja börn við að vera óhrædd við tannlæknirinn. Fyrst fer hún með barnið í heimsókn til hans. Nokkrum dögum seinna fara þau aftur og barnið fær að setjast í stólinn og rugga sér og venst þannig lækningastofunni. Þegar tannlæknirinn lítur loksins á skemda tönn er barnið óhrætt og finst hann vera kunningi sinn.

Þessi reyndi uppeldisfræðingur hefir þá skoðun, að mæður megi ekki vera of mildar við börn sín. Ef þau eru altaf leidd eða setið með þau í keltunni verða þau aldrei að manni. Þau verða að bjarga sér sem mest sjálf og finna sinn eigin mátt. "Börn eru mjög eigingjörn og miskunarlaus. Maður elskar ekki þá sem maður ekki ber virðingu fyrir. Annars ættu foreldrar að kynna sér betur sálarfræði vegna barna sinna." Eitt af því sem Mrs. Will leggur mikla áherzlu á, er að leyfa börnunum ekki að ófrægja hvort annað, því það sé fyrirlitlegur eiginleiki sem verði að stemma stigu fyrir í tíma.

Skóli Mrs. Will er sönn fyrirmynd. Börnin eru úti mest af tímanum við leiki og störf undir umsjá velviljaðra kennara sem skilja börnin. Þau borða holla fæðu, hvíla sig vel á eftir og hafa ánægjuna af félagsskap jafnaldra sinna. Hvílíkur munur fyrir slík börn eða þau, sem ekkert athvarf hafa nema götuna!

Í útvarpserindi, sem Mrs. Will flutti fyrir nokkru, fórust henni m. a. þannig orð:

"Vond börn eru ekki til — en það eru til foreldrar sem ekki eru fær um að sinna þýðingarmesta starfi lífsins.

Foreldrar neita sér oft um margt til að geta veitt börnum sínum allsnægtir, en oft fá þau ekki það sem þau þarfnast mest — vizku og þekkingu til að ganga rétta braut og þann óeigingjarna kærleik að losna smá saman úr heimilistengslunum og standa á eigin fótum.

Við getum ekki krafist þess af börnum okkar að þau geti horfst í augu við staðreyndirnar nema við gerum það sjálf. Það er ekki hægt að ætlast til að þau séu róleg, kurteis og hafi stjórn á skapsmunum sínum nema við höfum það líka. Við getum ekki búist við að þau séu heiðarleg, einlæg og hlýðin við lögmál lífsins nema við höfum sýnt þessa eiginleika í okkar eigin lífi.

Við foreldrar verðum að líta á okkur sem aðstoðarmenn um stundarsakir, en ekki þannig að við höfum ævarandi eignarétt á börnum okkar. Því fyr sem við skiljum þetta, því fegurri verður sambúð okkar við börnin. Við getum ekki lifað lífi barna okkar, við eigum heldur ekki að óska þess, en við getum og við eigum að leiðbeina þeim í rétta átt og smá saman láta þau svo ganga sína eigin braut. Á þann eina hátt erum við þeim styrkur til að ná takmarkinu í lífinu."

**Gerður J. Steinthórsson**

# Betri skólar út um sveitir

Eftir ANDREU JOHNSON

Þar sem skólarnir, næst heimilinu, eru sá grundvöllur, sem skapgerð og hegðun barna byggist á, er það bráð nauðsynlegt að alt það bezta, sem fáanlegt er, sé lagt fram til þess, að vinna að uppfræðslu og þroska barnanna, bæði á sál og líkama. Alþýðu skólarnir verða að vera þannig stofnanir, að þeir séu hæfir til að búa börnin betur undir lífið á fleiri sviðum, heldur en nú er yfirleitt gert. Með það fyrir augum, að meirihluti unglinga nýtur aðeins alþýðu skólamentunar, þyrfti að vera vandað meir til allrar kenslu, bæði á andlegum og verklegum sviðum í alþýðuskólunum út um landið, svo að þeir stæðu hlutfallslega jafnfætis beztu skólunum í borgunum. Og æskilegt væri það, að sveitaskólarnir leiðbeindu börnunum meira á þeim sviðum, sem framtíðarstarf þeirra er bundið við, að meira eða minna leyti.

Smáskólarnir út um landið hafa ekki þau tæki eða tækni fram að bjóða, sem fullnægja kröfum nútíðar mentunar; þó er því ekki að leyna, að margt af okkar bezta fólki hefir komið úr sveitunum. En hefði ekki gangan upp menningarstigann getað orðið léttari, ef menn hefðu notið þeirra hlunninda, sem fylgja góðri undirstöðumentun, er fullkomnir barnaskólar gefa.

Þá kemur það og til greina, að börnin eru ekki öll jafn meðtækileg fyrir bóklega mentun, kennararnir eiga of annríkt og hafa svo mörgu að sinna, að þeir hafa ekki tíma til að grenslast eftir sérhæfileikum hvers einstaks barns. En til þess er ætlast, að börnin gleypi alt, sem að þeim er rétt, alveg eins og verið sé að hella vatni í tóma tunnu. Mistakist svo þessi kensluaðferð, þá verða börnin á eftir jafnöldrum sínum í bekknum og eru svo kölluð tossar, eða eitthvað því um líkt. Þetta hefir mjög lamandi áhrif á sjálfstraust barnanna og getur leitt til þess, að þau verði kærulaus og hætti jafnvel að reyna til að fylgjast með náminu. Voru hugir þessara barna leiddir að einhverju verklegu, sem þau hefðu áhuga fyrir og þeim gefin kostur á, að velja sjálf það, sem þau eru hneigðust fyrir, mundu framtíðar horfur þeirra breytast gersamlega. Það gæti auðveldlega hent sig, að sálarástand barnanna breytt-

ist svo til batnaðar, undir hollari áhrifum, að þau gætu numið þær námsgreinar, sem voru þeim of erfiðar áður. En hvaða tækifæri eru börnunum út um landið gefin á þessu? Þegar við sjáum einhvern, sem ekkert virðist geta gert rétt, þá heyrum við oft sagt: "Hann er á rangri hillu í lífinu". — Hefði hann haft tækifæri á því, að velja lífsstarf sitt, þá hefði alt gengið betur.

Væri öllum sveitunum veitt þau réttindi, að barnaskóla fyrirkomulagið væri endurbætt, þyrftu unglingarnir, sem landið yrkja, ekki að kvíða því, þegar þeir ætla sér að ganga á hærri skóla, að þeir séu ver undirbúnir, heldur en frændur þeirra og önnur ungmenni, sem notið hafa barnaskólamentunar í borgunum. Eini vegurinn, til þess að slíkt geti komist í framkvæmd, er að fá stærri skólasvæði, "Larger School Areas". Alberta hefir nú um nokkur ár haft það fyrirkomulag, og er þar stór framför á mentun barnanna í heild sinni. Saskatchewan er nú líka að undirbúa þessa nýjustu kensluaðferð og skóla fyrirkomulag. Hér í Manitoba hefir aðeins ein sveit reynt þetta, enn þá sem komið er og hefir það gefist mjög vel. Liggur nú fyrir þingi tillaga þess efnis, að þetta verði innleitt með dálitlum breytingum.

Ættu nú allir, sem áhuga hafa fyrir betri skólum og fjölþættari fræðslu, fyrir börn sín, að leggja fram krafta sína til stuðnings því, að framkvæmdir fáist í þessu máli. Vitaskuld verða auknir skattar afleiðingar þessa fyrirtækis, um tíma; en þegar þess er gætt, hversu mikilsvarðandi framför fylgir þessu endurbætta skólafyrirkomulagi, hljótum við að skilja þörfina á því, að börnin okkar fái góða og víðtæka undirstöðu mentun, sem vinni að því að greiða götu þeirra svo, að þau verði fjölhæfara framtíðarfólk.

Við höfum viljað láta kenna börnunum okkar eitthvað verklegt, og er það nú innleitt í reglugerð skólanna, en tæki og hentugleika á því, að kenna ýmisleg vinnubrögð, hafa smáskólarnir af svo skornum skamti. Með einum fullkomnari skóla í hverri sveit, væri hægt að bæta úr þessu, því ekki er hægt að ætlast til þess, að hver smáskóli geti eignast allan þann útbúnað og áhöld, sem nú eru notuð við verklega kenslu í fullkomnari barnaskólum, slíkt yrði sveitunum óbærilegur kostnaður.

Þeim börnum, sem búa í hæfilegri nálægð við þessa fullkomnari skóla yrði auðvitað auðvelt að sækja þá daglega. En

vegalengdir og ef til vill stundum ógreiðir vegir, mundu hamla öðrum börnum daglega aðsókn. En undir öllum kringumstæðum gætu þau börn, sem lengra eiga að, sótt skólann einn dag í viku, eða oftar, til að njóta þar verklegrar kenslu.

Allar mæður ættu að heimsækja þessa iðnaðarskóla og sjá þá ánægju og þann áhuga, sem börnin hafa fyrir starfi sínu.

Þegar við hugsum okkur allar þær hörmungar og byrðar, sem lagðar verða á herðar okkar uppvaxandi ungdóms, sem afleiðingar af þessu stríði, hljótum við að skilja hve áríðandi það er, að börnin njóti þess styrks og hugrekkis, sem góð mentun og gott heilsufar hefir í för með sér. Á þeirra herðum hvílir að byggja upp af rústum nútímans, bjarta og friðsama framtíð. Er þá ekki samvinnan sá grundvöllur, sem sterkastur mun reynast? Ef börnum er kent að þau þurfi að haga sér eftir kringumstæðunum og starfa með þá hugsjón fyrir augum, að sameining og friður sé þeirra hæsta markmið, þá nær framtíðar fólkið því takmarki, sem St. Thorsteinsson bendir á í þessari vísu:

En bót er oss heitið, ef bilar ei dáð,
Af beisku hið sæta má spretta.
Af skaða við nemum hin nýjustu ráð,
Oss neyðin skal kenna það rétta,
Og jafnvel úr hlekkjunum sjóða má sverð
Í sannleiks og frelsisins þjónustu gerð.

---

# Ávarp

**Flutt af ÖNNU KRISTJÁNSSON**
**í heiðurssamsæti, sem haldið var íslenzkum frumbyggjum**
**13. ágúst 1944 í Fríkirkjunni í Blaine, Wash.**

---

Kæru heiðursgestir!

Mig hafði lengi dreymt um samsæti af þessu tagi, en það var ekki fyr en á kvenfélagsfundi síðastliðinn marz, að eg bar þetta málefni upp. Var rætt um þetta fram og aftur á þeim fundi, en á næsta fundi var svo ákveðið og samþykt að koma samsætinu í framkvæmd.

Nú vona eg, að þessi fyrsta tilraun okkar takist svo vel og verði svo vinsæl, að hér eftir verið haldið árlega samskonar samsæti á þessum stað. Eg vil taka það fram strax að þetta

samsæti er ekki haldið einungis til heiðurs frumbyggjunum, heldur líka öllu því íslenzka fólki, hér um slóðir, sem er um og yfir sjötugs aldur.

Það hefir verið rætt og ritað um hetjuskap og manndáðir forfeðra okkar, og það er nú gott og blessað, því eg efast ekki um, að sú vitneskja hafi oft og tíðum styrkt og hert mörg af okkur, þegar mest lá á. Það er vitanlegt að "Aldrei dúfan koma kann úr krumma eggi neinu", eins og Bólu-Hjálmar kvað. Undir niðri höfum við ekki viljað vera lélegra fólk en forforeldrar okkar. Væri það of djúpt tekið í árinni, að halda því fram, að við höfum reynt að halda í horfið?

Forfeður okkar flúðu frá Noregi vegna ofríkis Haraldar konungs hárfagra. Þið fluttuð frá Íslandi með þeirri von, að betri kjör biðu ykkar hér, efnalega, og þó enn meira, að eg hygg, til þess að tryggja afkomendum ykkar betri framtíð. Þegar þið komuð til þessa lands, börðust þið ekki með vopnum, en þið börðust samt upp á líf og dauða. Mörg okkar hafa nú nýlega hlustað á ágæta þýðingu Páls Bjarnasonar á hinu merkilega kvæði skáldsins G. J. Guttormssonar, "Sandy Bar". Tel eg víst að flestir, ef ekki allir, sem hér eru staddir í dag, hafi lesið og marglesið það á íslenzku. Þar er sögð löng og áhrifamikil saga í einu kvæði. Hver gæti svo samvizkusamlega neitað því, að landnemarnir hafi verið hetjur? Nær það jafnt til kvenna sem karla, er börðust fyrir lífinu á þeim árum.

Ef eg kynni sögu hvers eins ykkar frá byrjun og til þessa dags, þá grunar mig, að í flestum tilfellum fyndi eg sanna hetju. Við Íslendingar erum ekki gjarnir á að opna hugskot okkar fyrir hverjum sem er. Við erum, að eg hygg, frekar dulir að eðlisfari. Við segjum sjaldnast frá þeirri baráttu, sem við höfum háð, oft í kyrþey, við okkur sjálf og önnur öfl í kring um okkur.

Mig grunar að margt af konunum, sem hér eru nú, hafi einhverntíma, já oft og margsinnis, eftir erfiðan dag, þegar þær voru svo þreyttar og syfjaðar, að þær gátu varla haldið opnum augunum, tekið fötin barnanna sinna, sem urðu að fara á skóla næsta morgun, en höfðu ekki föt til skiftanna, — tekið fötin til að þvo þau eða bæta eða hvorttveggja; vakað við það fram á miðnætti, og farið svo á fætur næsta morgun í birtingu. En börnin hafa farið á skólann hrein og vel útlítandi.

Mennirnir hafa barist við erfiðleika af ýmsu tagi — fleiri og meiri erfiðleika, en við getum nú í fljótu bragði gert okkur

grein fyrir. Sumir af þeim hafa fengið verðskuldaða viðurkenningu, en þeir hafa verið tiltölulega fáir. Mig grunar að margir ykkar hafi aldrei fengið neina viðurkenningu fyrir alt ykkar starf og strit. Þess vegna langar okkur konurnar, sem fyrir þessu gleðimóti stöndum, til þess, að sýna ykkur sóma og gleðjast með ykkur dálitla stund. Við vonum að þið hafið ánægju af komunni. Við óskum ykkur rólegra og farsælla daga það sem eftir er æfinnar, og við biðjum guð að blessa og varðveita okkur öll.

---

## Frétta sambönd

---

**Frá Kvenfélagi Sambandssafnaðar í Árborg, Man.**

Starf félagsins á þessu liðna ári hefir verið svipað og á síðastliðnu ári. Félagið styrkir söfnuðinn peningalega og vinnur að safnaðarmálum eftir mætti. Síðan stríðið byrjaði, hefir líknarstarfsemi verið eitt af aðal málum félagsins. Félagið heldur árlega spilasamkomu til arðs fyrir Rauða Krossinn, og tókst sú samkoma ljómandi vel í ár. Þar að auki sendir félagið böggla til hermanna, og safnar fötum fyrir allslaust fólk í stríðslöndum. Þegar félagskonur eru að vinna að þessum málum, vildu þær að kraftar þeirra gætu margfaldast, því þörfin er mikil.

Fé hefir verið gefið til Sumarheimilisins, "Dental Clinic", Mrs. Lindal Scholarship Fund og fleira.

Félagskonur heimsóttu Sumarheimilið í sumar sem leið, þegar ungmenna námskeiðið var haldið þar. Höfðu þær mikla ánægju af að kynnast unga fólkinu og kennurunum, og færa þeim kaffiveitingar. Að kveldinu fór allur hópurinn og félagskonur líka, til Riverton á myndasýningu. Viðtökur þar voru framúrskarandi rausnarlegar eins og æfinlega.

Árborgar kvenfélagskonur reyna altaf að komast á skemtifund í Árnesi, sem kvenfélagið þar heldur á hverju hausti. Sú ferð hefir æfinlega verið til skemtunar og uppbyggingar. Konur hafa þá skoðun, að meiri samvinna muni ætíð auka áhuga fyrir málefnum sem þeim er ant um.

Í haust þegar Mrs. S. E. Björnsson var haldið heiðurssamsæti af Sambands kvenfélögunum í tilefni af því að hún var kjörin lífstíðar félagi í General Alliance, fóru nokkrar konur úr kvenfélagi okkar með henni til Winnipeg og tóku þátt í samsætinu, sem var hið ágætasta.

Núverandi stjórnarnefnd: Mrs. H. von Renesse, forseti; Mrs. J. S. Nordal, vara-forseti; Mrs. S. O. Oddleifson, skrifari og féhirðir. Líknarstarfsemi, Mrs. S. E. Björnsson.

**Kvenfélagið Aldan, Árnes, Man.**

Á þessu nítjánda starfsári kvenfélags okkar, hefir Aldan unnið aðallega að safnaðarmálum, eins og á undanförnum árum. Þar að

auki voru sendir vandaðir bögglar til bygðardrengjanna, sem eru í herþjónustu, víðsvegar um heim.

Einnig sendum við Sumarheimili barna á Hnausum dálitla peningaupphæð og tókum líka þátt í kostnaði við "Dental Clinic" fyrir bygðarbörnin. Þá unnu og félagskonur, með öðrum konum í Árnesi, fyrir Rauða Kross félagið. Peninga inntektir félagsins á þessu ári hafa fengist aðallega með því að selja veitingar í félagi með Sambands kvenfél. konunum á Gimli.

Síðastliðið sumar, 23. ágúst, höfðu ungmennin frá Sumarnámskeiðinu á Hnausum undur fagra kertaljósa guðsþjónustu hér í kirkjunni okkar í Árnesi. Þessi "Candle Light Service" var undir umsjón þeirra séra Ernest Kuebler og Mr. Frederick T. McGill. Vonum við að ungmennin hafi í framtíðinni fleiri slíkar ljósamessur hér í Sambandskirkjunni okkar. Á eftir athöfninni, höfðu félagskonur kaffiveitingar.

Kvenfélagskonurnar heimsóttu Sumarheimilið á Hnausum 23. ágúst, því þar var haldið "Silver Tea" til arðs fyrir heimilið. Var þar margt um manninn og skemtilegt. Hinn árlegi sameiginlegi skemtifundur kvenfélaganna okkar hér í Nýja Íslandi var haldinn hér 29. október í haust. Þar fluttu ágæt erindi þær Mrs. S. E. Björnsson og Mrs. H. von Renesse frá Árborg. Mrs. Anna Hope skemti með einsöng og Dr. S. E. Björnsson las upp skrítlur. Mrs. E. J. Melan stýrði fundinum með sinni venjulegu snild.

Í stjórnarnefnd kvenfélagsins eru: Forseti, Mrs. Th. Peterson; vara-forseti, Mrs. G. Johnson; skrifari, Mrs. J. Ólafsson; féhirðir, Mrs. F. Helgason.

**Kvenfélagið "Eining", Lundar, Man.**

Starf félagsins þetta síðastliðna ár hefir verið mjög líkt og að undanförnu, fundir hafa verið haldnir reglulega einu sinni í hverjum mánuði, og spila samkomur verið haldnar til arðs fyrir félagið. Sömuleiðis var höfð kaffisala, og sala á heimatilbúnum mat í maí og önnur í desember, með góðum árangri.

Fjórar konur hafa gengið í félagið á árinu, og er það mikið gleðiefni fyrir okkar fámenna hóp. Þær Mrs. Melan frá Riverton og Mrs. S. E. Björnson frá Árborg, heimsóttu okkur einn sunnudag í ágúst mánuði. Þær fluttu bæði skemtileg og fróðleg erindi. Á eftir ræðunum voru bornar fram veitingar og spjallað um margt. Veður var indælt og dagurinn að öllu leyti mjög skemtilegur að undanteknu því, að margar konur, sem hefðu viljað vera þarna staddar gátu ekki komið, vegna þess að fyrirvarinn var svo stuttur að ekki var hægt að láta allar konurnar vita um þetta í tíma.

Haustboðið var haldið í september eins og að undanförnu. Séra H. E. Johnson stjórnaði samsætinu og Vigfús Guttormson var þar með karlakór, sem skemti ágætlega, eins og fyr. Í þetta skifti fengum við Mrs. N. A. Sommerville frá Winnipeg til að ávarpa gestina. Hún talaði um Ísland og framfarir þar, var það mjög skemtilegt, og erum við henni sérstaklega þakklátar fyrir komuna.

Þetta síðast liðna ár, hefir kvenfélagið hlynt að söfnuðinum eftir megni, sömuleiðis gefið Rauða Kross félaginu bæði peninga og föt,

líka gefið Rússum og lagt til í fleiri líknarsjóði, auk þess sem það sendi drengjunum úr sveitinni jólaglaðning, og gladdi fátæka og sjúka í bygðinni.

Þær Mrs. B. Björnson og Mrs. Árnason voru kosnar sem fulltrúar á þing Kvennasambandsins síðast liðið sumar.

Kvenfélagið og söfnuðurinn stóðu fyrir dálitlu samsæti, sem var haft fyrir þau prestshjónin, séra Halldór E. Johnson og Mrs. Johnson 17. desember, til að bjóða þau velkomin til Lundar. Þau voru þá búin að setja sig niður á heimili sínu við hlið kirkjunnar. Það var skemt með stuttum ræðum, og var þar gestkomandi Hjálmar Gíslason frá Winnipeg og jók það á skemtunina. Prestshjónunum voru afhentar smágjafir í nýja heimilið. Svo voru veitingar og allir skemtu sér vel og fóru heim ánægðir. Þau Johnsons hjónin hafa verið vinsamleg í framkomu og mjög gestrisin. Sem dæmi þess langar mig til að geta um, að þau buðu öllu kirkjufólkinu heim til sín eftir fyrstu messu, sem presturinn flutti hér í haust, eftir að þau hjónin voru flutt til Lundar og búin að koma sér að mestu leyti fyrir á prestssetrinu. Allir, sem því gátu viðkomið, þáðu heimboðið og kvöldið var hið ánægjulegasta, því auk rausnarlegra veitinga, fundu allir til þess, að þau prestshjónin hafa framúrskarandi gott lag á því, að láta gestum sínum líða vel. Þessu hafa þau haldið áfram og boðið inn öllu því fólki, sem sækir messur langt að. Mrs. Johnson gekk strax í kvenfélagið okkar og sækir fundi reglulega. Höfðum við tæplega búist við því, þar sem hún er ensk að ætt, en fundir okkar fara fram á íslenzku. En hún segist fylgjast með því, sem um er rætt og þykir okkur vænt um lipurð hennar og góðvilja í félagsmálum. Hún gekk einnig í söngflokk kirkjunnar og vann að því, ásamt annari konu, að söngflokkurinn hafi reglubundnar æfingar. Og utan kirkjunnar hefir hún líka tekið þátt í starfi, sem miðar í góða átt. Er það mjög ánægjulegt fyrir söfnuðinn og kvenfélagið að hafa fengið þau séra Halldór Johnson og konu hans, sem leiðtoga frjálstrúar flokksins hér á Lundar.

**Kvenfélagið Framför, Piney, Man.**

Hér úti í okkar litla sveitaþorpi er nú alt fremur hægfara. Kvenfélagið okkar fylgist þar með og hefir ekki haft nein stórræði með höndum á þessu ári. Þó hafa félagskonur snúist í hinu og þessu, til þess að innvinna sér dálitla peninga, svo þær væru þess megnunar að styrkja ögn þau málefni, sem þær langa sérstaklega til að rétta hjálparhönd.

Samkomur höfum við haft til arðs fyrir félagið, t. d. spilafundi og dansa, einnig okkar árlegu svuntusölu, kaffisölur og útsölu á heimatilbúnum mat. Hefir fólk hér um slóðir sýnt okkur þann velvilja, að sækja þetta alt og hafa þessar samkomur tekist það vel, að við höfum getað gefið dálitlar peningaupphæðir, til hjálpar þeim málefnum, sem við berum sérstaklega fyrir brjósti og vil eg tilnefna þessi: Rauða Kross félagið, Jóns Sigurðssonar félagið, Community Club, sem sendir hermönnum hér úr bygðinni jólaglaðningu. Þá lögðum við líka dálítið af mörkum til skólanna hér, sem héldu jólatréssamkomu fyrir börnin og einnig gáfum við til styrktar fólki sem tapaði öllum eigum sínum í bruna. Þá gáfum við líka sunnudaga-

skólanum okkar peninga, til að kaupa fyrir kenslubækur handa börnunum.

Við hefðum viljað geta gert svo miklu meira, en nú á þessum voðalegu stríðstímum, kallar svo margt að, bæði hvað útgjöld og vinnukraft snertir, að menn verða að sníða sér stakk efti r vexti og kemur það fram í félagsstarfi, ekkert síður heldur en í einkalífi manna.

Starfsfundi okkar höldum við jafnan í heimahúsum okkar. Svo drekkum við kaffi, spjöllum saman og skemtum okkur að fundarstörfum loknum.

Kvenfélagsnefndina skipa þessar konur: Forseti, Mrs. B. Björnsson; vara-forseti, Mrs. S. M. Lawson; skrifari, Mrs. K. Norman; féhirðir,

**Kvenfélagið í Mikley, Man.**

Kvenfélag Sambandssafnaðar í Mikley var stofnað 26. júní 1939. Sá stofnfundur var haldinn í samkomuhúsi eyjarinnar (Hecla Community Hall); kom Mrs. Sveinn Thorvaldson frá Riverton, Man., til að hjálpa til að stofna félagið. Byrjaði það með sjö meðlimum, og voru þessar konur kosnar í stjórnarnefnd félagsins: Mrs. H. Bogi Sigurgeirson, forseti; Miss Kristína Anna Pálsson, vara-forseti; Mrs. S. Ingibjörg Pálsson, skrifari; Mrs. Jakobína J. Stefánsson, varaskrifari; Miss Lára J. Helgason, féhirðir.

Seinna meir bættust fleiri konur í hópinn þar til að meðlimatala nam 20. En nú hafa nokkrar þeirra flutt í burtu héðan og verðum við að sætta okkur við það, þótt við söknum þeirra.

Kvenfélagið hefir starfað á þessum árum að því að efna til nokkurra skemtana, svo sem spilafunda, dansa, tombólu og bazaars, og líka selt happadrætti. Ágóðanum hefir verið skift milli Rauða Krossins, flóttabarna og hermanna. Einnig hefir kvenfélagið sent peningagjafir til Barnaheimilisins að Hnausum og eftir mætti hefir félagið reyt að hlynna að bágstöddum hér á eyjunni og votta þannig samúð sína.

Í vetur, sökum ýmsra erfiðleika, breyttu félagskonur út af þeim sið, að efna til skemtana, en í stað þess, unnu þær að því, að búa til plögg heima hjá sér fyrir kvenfélagið og seldu þau. Svo er áætlað að hafa "bazaar" þegar tíðarfar skánar og betra er að komast um.

Á yfirstandandi ári eru þessar konur í stjórnarnefnd kvenfélagsins: Mrs. S. Ingibjörg Pálsson, forseti; Mrs. Edna Pálsson, vara-forseti; Mrs. Matthildur Torfason, skrifari og Mrs. Anna Erickson, féhirðir. Fundir eru haldnir einu sinni í mánuði, að undanteknum janúar mánuði, í heimahúsum félagskvenna. Eru þær samverustundir hinar ánægjulegustu.

S. Ingibjörg Pálsson, forseti

**Sambandskvenfélagið í Riverton, Man.**

Starf kvenfélagsins á síðasta ári, hefir verið framhald af starfi þess á liðnum árum. Það hefir lagt fram peninga til safnaðar og sunnudagaskóla eftir megni. Töluverða peninga hefir félagið lagt í klukku-sjóðinn, sem stofnaður var fyrir tveimur árum, og er sá sjóður nú strax orðin dágóð upphæð í sigurlánsbréfum.

Kvenfélagið hefir gefið í Blómasjóð Sumarheimilisins, og einnig

hjálpað til við samkomu þá, sem höfð var fyrir heimilið hér í vetur. Ungmennum héðan úr bænum var gefinn farareyrir til að sækja ungmennaþing í Winnipeg.

Í ágúst tóku kvenfélagskonur á móti hóp af ungu fólki frá ungmennamótinu á Hnausum. Var þessi samkoma öllum til mikillar skemtunar, því unga fólkið var alt mjög ánægt og skemtilegt.

Það sem nú hefir verið talið, er að einhverju leyti tengt kirkjunni, en kvenfélagið hefir á undanförnu ári unnið að mörgum öðrum málefnum. Það gaf til Rauða Krossins og Salvation Army. Hefir sent vindlinga og böggla til bygðardrengja sem yfir hafið hafa farið og einnig lagt talsvert af mörkum til bágstaddra. Til skemtunar hefir kvenfélagið gengið í "Book of the Month Club" og er nú að myndast bókasafn af góðum bókum, sem félagið á, og mun lána vinum sínum og fólki, sem er lasið eða innilukt. Einnig hefir kvenfélagið gefið hverri konu og nokkrum vinum sínum "Parent's Magazine" í eitt ár og hefir það orðið bæði til skemtunar og fróðleiks.

Tvær konur úr félaginu, Mrs. Thorvarðarson og Mrs. Gíslason hafa "Friendly Links" og lesa þær bréfin upp til skemtunar á fundum.

Skemtifundur var einn á árinu, haldinn í Árnesi, og eins og vanalega eru konurnar þar fyrirmynd í gestrisni og öllum myndarskap. Peningar, sem brúkaðir hafa verið til allra þessara þarfa, hafa komið inn með ýmsu móti, og hefir fólk í Riverton eins og að undanförnu, stutt fyrirtæki félagsins með heiðri og sóma. "Box Social" var haft í vetur og á fáeinum mínútum, var kvenfélagið ríkara um $66.

Forseti fyrir næsta ár er Mrs. S. Thorvaldson, Skrifari, Mrs. E. J. Melan. Féhirðir, Mrs. E. A. Johnson. Ásta Gíslason

## Kvenfélag Sambandssafnaðar á Oak Point

Kvenfélagið Ósk var stofnað 9. október 1929. Gengust þær Mrs. Rögnvaldur Pétursson og Mrs. Ragnar Kvaran fyrir stofnun félagsins. Okkar fyrsti forseti var Mrs. Guðmundur Árnason og því starfi hélt frú Sigríður áfram þar til þau hjónin, séra Guðmundur og frú Sigríður fluttu til Lundar, 1934.

Varð þá hlé á fundarhöldum um tíma, en í maí 1936 tók félagið aftur til starfa og hefir síðan haft fundi í hverjum mánuði, að undanteknum desember og ágúst.

Kvenfélagið styrkir kirkjustarfsemina og gefur ákveðið tillag til safnaðarins. Þá hafa félagskonur líka gefið peninga og fatnað til Barnaheimilisins á Hnausum. Við höfum sent Rauða Kross félaginu tillag eftir föngum og einnig reynt að hjálpa þeim, sem örðugt eiga hér í nágrenninu eftir okkar beztu getu, til þess að láta í ljósi velvildarhug okkar og samúð.

Okkar aðal samkomu höfum við að haustinu til og þá um leið sölu á ýmislegu, sem hefir gefist vel og erum við þakklátar öllum þeim sem sýna félaginu þá góðvild, að sækja samkomurnar. Í sumar, 1. júlí, seldum við veitingar á útisamkomu sem var haldin hér.

Nú í síðastliðin fjögur haust, höfum við félagskonur fengið kærkomnar heimsóknir, þar sem tvær kvenfélagskonur hafa komið frá kvenfélögunum í Nýja Íslandi og hafa þær jafnan flutt erindi, sem

bæði hafa verið skemtileg og fræðandi, öllum til mikillar ánægju og hvatningar í félagsmálum.

Stjórnarnefnd kvenfélagsins er þessi: Forseti, Guðrún Mathews; vara-forseti, Ingibjörg Johnson; skrifari og féhirðir, Dóra Mathews.

**Kvenfélag Sambandssafnaðar, Winnipeg, Man.**

Kvenfélag Sambandssafnaðar hefir haft 10 starfsfundi á árinu sem leið. Aðsókn hefir verið ágæt. Fundir hafa verið skemtilegir og samvinna bæði í smáu og stóru ágæt. Fundir eru haldnir á heimilum meðlima og eru ávalt kaffiveitingar og fjörugar samræður að loknum fundarstörfum, sérstaklega þegar erindi eru flutt, sem er oftast. Þessi erindi hafa verið flutt á árinu: Á marz fundinum las Mrs. B. E. Johnson erindi eftir Lilju Johnson, "The Incas, Empire Builders of the Andes." Á apríl fundinum, Mrs. G. Árnason, Um Margréti Benediktson. Á maí fundinum, Mrs. S. E. Björnson, "Áhrif góðra heimila". Á okt. fundinum, Mrs. Guðrún H. F. Jónsson, "Kærleikur og mannúð", og sagði útdrátt úr grein eftir Kristínu Sigfúsdóttur, "Frúin á Grund". Á nóv. fundinum las Mrs. Guðrún H. F. Jónsson sögu úr Eimreiðinni, "Hún elskaði svo mikið", eftir Kristmann Bjarnason. Á desember fundinum las Guðbjörg Sigurðsson sögu úr Morgunblaðinu, "Hringiða lífsins", eftir O. Henry.

Kvenfélagið hefir veitt forstöðu tveimur samsætum. Árssamsæti safnaðarins og samsæti sem séra Halldór Johnson og frú var haldið er þau fluttu til Lundar. Einnig sá félagið um veitingar á kirkjuþinginu og máltíð fyrir unglinga félagið.

Hér í bænum er félagsskapur er nefnist Góðir nágrannar (Good Neighbors). Lítur þetta félag eftir yfir 2,000 umkomulausum gömlum og fötluðum mönnum. Það hefir til umráða byggingu niður í bæ, þar sem eru vinnustofur, lestrarsalur, skemtisalur sem notaður er fyrir billiards-spil, tafl og fleira. Matsalur, eldhús og samkomusalur. Á hverju sunnudagskveldi eftir messu er efnt til skemtisamkomu, og ýms félög skiftast á um að sjá um skemtiskrá og veitingar. Eitt sunnudagskveld í vetur sá kvenfélagið um veitingar fyrir meir en 350 menn á þessari stofnun. Þessi félagsskapur efnir til almennra samskota "Tag Day" árlega, til starfrækslu félagsins. 20 meðlimir kvenfélagsins söfnuðu $249.00 til þessa fyrirtækis. Eins hefir félagið saumað mikið fyrir Rauða Krossinn. Á hverjum fundi er útbýtt stórum böggli af efni til meðlima og því skilað saumuðu fyrir næsta fund.

Félagskonur söfnuðu og gáfu 6 stóra kassa fulla af góðum fötum til rússnesks líknarstarfs. Einnig veitti félagið peninga í námsjóð er stofnaður var í minningu um Jórunni Líndal, til Sambands kvenfélaganna, sunnudagaskólans og kirkjunnar.

Arðberandi fyrirtæki hafa verið: spilafundir, hlutaveltur, kaffisölur og þakklætis og sumarmálasamkomur. Til þeirra er altaf efnt eftir megni, svo þær eru æfinlega með beztu samkomum er völ er á meðal Íslendinga. Þær eru æfinlega alíslenzkar, og því í miklu uppáhaldi sérstaklega meðal eldra fólks.

Eins og undanfarin ár sendi félagið jólaböggla til allra hermanna utan Canada sem annaðhvort eru meðlimir Sambandssafnaðar, vel-

unnarar eða vinir, og vorum við svo heppnar að allir þessir bögglar komu til skila.

Einnig sér félagið um blómasendingar til meðlima og vina, bæði í sorg og gleði tilfellum, og heimsækir fólk í veikindum og reynir að líta til með þeim sem bágt eiga.

Í stjórnarnefnd félagsins eru: Forseti, Mrs. J. Ásgeirsson; varaforseti, Mrs. P. S. Pálsson; ritari, Mrs. J. F. Kristjánsson; vara-ritari, Mrs. B. J. Hallson; fjármálaritari, Mrs. S. B. Stefánsson; vara-fjármálaritari, Miss Margrét Pétursson; gjaldkeri, Mrs. B. E. Johnson.

Steina Kristjánsson, ritari

**Kvenfélagið Framsókn, Wynyard, Sask.**

Kvenfélagið, okkar, Framsókn, hefir starfað þetta liðna ár á svipaðan hátt og á undanförnum árum. Höfum við konurnar reynt til að gera okkar bezta í félagsmálum, þrátt fyrir ýmsa örðugleika á þessum tímum. Fólkið er á ferð og flugi og hefir félag okkar ekki farið varhluta af því að fólk flytti burtu. Þeim félagskonum, sem héðan hafa farið á þessu ári, þökkum við ágæta samvinnu og óskum þeim alls góðs í framtíðinni.

Það sem Framsókn hefir nú helzt haft fyrir stafni þetta ár, er að konurnar hafa unnið að allskonar útsölum. Í haust höfðum við "Bazaar" og seldum þar ýmiskonar hannyrðir, heimatilbúinn mat, happadrætti og fleira smávegis. Varð þessi útsala okkar arðmesta tekjulind á árinu. Auk hennar höfum við haft smærri útsölur eins og t. d. blómasölu, svuntusölu og fleira þessháttar.

Okkar mánaðarlegu starfsfundi höldum við í heimahúsum félagskvenna og er fundarkonum fagnað með mikilli gestrisni, sem eykur á þá ánægju, sem konurnar hafa af því, að koma saman og ráðstafa félagsmálum.

Á þessu ári höfum við styrkt með vinnu og fjárframlögum þessi eftirfylgjandi félög: Rauða Kross félagið, í sjóð til aðhlynningar hermönnum, C. U. C., sem er líknarfélag hér í bænum, og einnig til sjúkrahúss bæjarins. Þá höfum við líka unnið til styrktar söfnuðinum, sem við tilheyrum. Fyrir jólin í vetur, reyndum við að gleðja þá, sem farnir eru að eldast og aðra, sem einmana eru, með því að senda þeim smágjafir, sumum peninga, öðrum sælgæti og ýmislegt smávegis, sem við hugðum að mundi auka á hátíðagleðina. Innan félagsins er sjúkranefnd, sem sér um að senda blóm og þesskonar og einnig að heimsækja félagssystur í sjúkdóms tilfellum.

Hér hefir enga gesti borið að garði til að heimsækja félag okkar síðan í fyrra sumar, að þau góðkunnu hjón, sr. Halldór Johnson og frú hans dvöldu hér hjá okkur um tíma, öllum til ánægju. Erum við þeim hjónunum innilega þakklát fyrir komuna.

Fyrir árið 1945 voru þessar konur kosnar í stjórnarnefnd félagsins: Forseti, Mrs. Margrét Johnson; vara-forseti, Mrs. H. Kristjánsson; skrifari, Mrs. Emma Guðmundsson; féhirðir, Mrs. Bertha Olson.

**Evening Alliance, Winnipeg, Man.**

Starf félagsins hefir gengið ágætlega á þessu liðna ári. Við höfum haft 18 starfsfundi í heimahúsum félagskvenna. Frá febr. til maí

mánaðar loka, voru fundirnir mestmegnis málfundir, þar sem við ræddum ýmiskonar áhugamál, sem eru nú á dagskrá þjóðfélagsins. Eins og getið va r um í bréfi okkar, í fyrsta árgangi "Brautarinnar", erum við í sambandi við "Citizen's Forum", og þeirra málefni höfum við tekið til umhugsunar og umtals. Með haustinu fórum við að vinna að saumaskap og ýmsum öðrum hannyrðum á fundum, til undirbúnings útsölu okkar í nóv. í haust sem leið, og tókst hún betur öllum okkar vonum. Það sama má segja um spilasamkomu okkar í febrúar, sem var ágætlega sótt.

Eitt af áhugamálum félagsins er að hvetja fólk til að sækja íslenzka kvöldskólann, er The Icelandic Canadian Club veitti forstöðu í vetur. Flestar félagskonur sóttu námsskeiðið tvisvar á mánuði.

Við höfum unnið að líknarstarfi í þarfir stríðsins, má þar til nefna, að félagið styrkti Rússneska hjálparfélagið með peningagjöf og fatasöfnun. Þá tóku konurnar þátt í fjársöfnun til styrktar "Góðra nágranna" félagsskapnum. Einnig höfum við boðist til að taka þátt í starfi "West End Sahara Club" með því að veita forstöðu "Teen Canteen", eitt kvöld í viku á General Wolfe skólanum. Vegna þess að spilasamkoman okkar og útsalan tókust svo prýðilega, gátum við lagt vel til kirkjunnar þetta árið og einnig tókum við góðan þátt í kostnaðinum við útisamkomu sunnudagaskólans.

Aðal starf okkar teljum við þó smábarnadeildina á sunnudagaskólanum, sem við höfum alla umsjón með og er okkar eftirlæti. Við byrjuðum skólann fyrir ári síðan, með aðeins 6 börnum, nú eru þar innrituð 27. Við kennum þeim ýmislegt, sem er við þeirra hæfi, með þeirri hliðsjón, að búa þau undir sunnudagaskólanámið, þegar þau eldast meira. Öll þeirra skólaáhöld, bekki og borð höfum við lagt til skólans.

Stjórnarnefnd félagsins á yfirstandandi ári: Forseti, Mrs. G. Bonnett, 1009 Sherburn St.; vara-forseti, Mrs. O. Pétursson, 180 Home St.; skrifari, Mrs. A. Asgeirson, 1050 Downing St.; féhirðir, Mrs. W. Davidson, Ste. 17 Palliser Apts., Stradbrooke St.

### Sambands kvenfélagið á Gimli, Man.

Núverandi Sambandssafnaðar kvenfél. á Gimli var stofnað 8. apríl 1922. Konurnar, sem gengust fyrir stofnun félagsins voru þær Mrs. Sigríður Þorsteinsson, Mrs. Anna Magnússon og Mrs. G. Benson. Á stofnfundinum voru þessar konur kjörnar í stjórnarnefnd: Mrs. Sigurbjörg Kristjánsson, forseti; Mrs. S. Þorsteinsson, vara-forseti; Mrs. Anna Magnússon, skrifari; Mrs. Guðrún Olson, vara-skrifari; Mrs. H. Kristjánsson, féhirðir, og vara-féhirðir, Mrs. J. Thordarson. Aðrar konur á stofnfundinum voru þessar: Miss O. J. Jónsson, Mrs. G. Sólmundsson, Mrs. C. Peterson, Mrs. Th. Magnússon, Mrs. G. Benson, Mrs. G. Stefánsson. Allar þessar konur eru nú ýmist fluttar burtu, eða dánar, nema Mrs. G. Benson, sem ennþá býr á Gimli.

Á þessu liðna ári höfum við félagskonur unnið að ýmiskonar líknarstarfi í sambandi við stríðið og tekið þátt í fjársöfnun í þarfir þess. Við sendum Rauða Kross félaginu peninga gjöf, styrktum með pen-

inga tillagi félög þau, er sjá um að senda böggla canadisku hermönnunum handan við höfin, bæði í sjó- og landhernum. Einnig gáfum við peninga til Jóns Sigurðssonar félagsins.

Við tókum okkar þátt í hinni árlegu kaffisölu, til styrktar Johnson Memorial sjúkrahúsinu hér í bænum. Í des. höfðum við danssamkomu til styrktar málefnum Kvennasambandsins og á vetrinum höfðum við fleiri slíkar samkomur til arðs fyrir félag okkar. Síðastliðið sumar seldum við veitingar á Íslendingadeginum í samfélagi við önnur kvenfélög hér í bænum og grendinni.

Á árinu höfum við reynt að láta dálítið af hendi rakna, þeim til glaðnings og skemtunar, sem okkur hefir langað að sýna góðhug og samúð hér í heimahögunum. Um jólaleytið sendum við ýmsum smágjafir, sem okkur langaði að væru skoðaðar sem vinakveðjur frá félagskonunum. Skömmu fyrir jólin brann heimili og allar eignir eins af flugmönnunum hér og sendum við þeim dálitla peninga upphæð og gengumst fyrir því, að biðja önnur félög hér í bænum að veita þessu fólki hjálp; var því framúrskarandi vel tekið. Um páskana sendum við blóm til sjúkra og dálitlar peningagjafir til annara, sem við vissum að kom það vel.

Í haust sem leið, höfðum við samsæti fyrir gamla konu og gáfum henni rúm og ofurlitla peningaupphæð. Einnig höfðum við samsæti fyrir nýgift hjón, sem tilheyra okkar söfnuði og gáfum þeim brúðargjafir. 16. sept. í haust, þegar Mrs. S. E. Björnsson var kjörin æfifélagi í General Alliance, fóru allar félagskonurnar í einum hóp til Winnipeg, til að taka þátt í athöfninni. Við héldum upp á sumardaginn fyrsta í vor með því, að hafa spilasamkomu og bjóða þangað öllum vinum okkar og félagsfólki.

Starfsfundir okkar eru ánægjulegir og friðsamir og þótt við séum þess ekki megnugar, að vinna að neinum stórvirkjum, þá höfum við það þó á meðvitundinni, að félagsstarf okkar sé ekki einkis virði, ef okkur hefir auðnast, endrum og eins, að gleðja aðra og bera ofurlitla sólskinsgeisla inn til þeirra, sem skuggarnir umkringja að einhverju leyti hér í okkar litla umhverfi.

Stjórnarnefnd félagsins er þessi: Forseti, K. G. Benson; skrifari, M. K. Johnson; féhirðir, Mrs. I. Sveinsson.

Kristín G. Benson

---

Lífið er of stórfenglegur örlagaleikur til að óttast það og of leyndardómsfult til að skilja. Joseph Conrad

Eg heiti á ykkur, að reynast lífinu það vel að særa það ekki með egghvössum vopnum forréttindanna. Rupert Brooke

Ósannindin klæðast fögrum skrautbúningi, en sannleikurinn er ber og nakinn. Rabindranath Tagore